Ut Af
DRottenns vors
JESU Christi
Pijningar Historiu,
SJØ
# Predik=
# ANER,
Hvoriar fyrstu Sex giordt hefur
Biskupeñ yfir Skalhollts Stipte
Sal. Mag.
## Jon Þorkels Son
## WIDALIN.
Enn þa Siøundu
Sal. Mag.
## Steinn Jons Son,
Biskup Hoola Stiptes.

Siøtta Upplag.

{ Seliast iñbundnar a Skrif-Pappyr, 15. Fiskum; Enn a Prent - Pappyr, 12. Fiskum. }

Prentadar a Hoolum i Hialltadal,
Af Gudmunde Jons Syne, 1782.

# Til Lesarans.

Fyrer þa Ordsok, ad hier er eckert til a Biskups Stoolnum, af þeim sijdarst þrycktu Pas-siu Predikunum, Sal. Magistri Jons Þorkels Sonar Widalins, hvøriar þo formerke ad marger gyrnast; Hefi eg, til ad þiena mijnum Systkynum i DRottne, upplagt eñ a nij þær somu, med so Moote, ad undann er felld Pijslar Miñing, Sal. Sr. Jons M. S. i Laufaase, sem og af Sio Ordum Christi a Krossenum, þar nooger eru adrer af þvi Efne, og allt so Booken 3. Fiskum O-dijrare.

Hoolum i Hialltadal,
D. 2. Januarii. 1782.

Jon Arna Son.
p. t. Hoola Stools Oeconomus.

# Bæn fyrer Predikun.

Þu rettviise og myskunsame Gud, hvorium eins skyld er þiin Giædska og þitt Rettlæte, hvor ed hefur gefid þiñ Son i Daudañ fyrer oss, liiflausa Sakameñ, og lated hañ gialda þad hañ ecke rænte. Vier fæsrædar Manneskiur sollum i Dag til Skarar Foota þiña, og medkeñum, ad vier hofum lagdt syndugar Hendur á hiñ Saklausa og Rettlæta; Og hefur oss þad ecke noog vered, ad Illgiørder vorar hafa hañ á Gœlgañ neglt, heldur jafnvel þott vier vitum, ad þetta sked sie af þiñe alviisu Rædstofun til Myskunar oss, þa høfum vier ecke heyrt þad Orded af Krossenum, med so bliwgum edur ængurfullum Hiortum, ad Miñing hañs Kvala hafi kvaled i oss Gyrndena til þeirra Illgiørdaña, er hañ Saklausañ kvoldu, og vier høfum fært med oss marga Ovine Kossens under þiña Orda Heyrn, sem eru: Obættar Synder, vegna Toomlætes vors og Ydrunarleysis, so sem ad ecke kiæmum vier þangad til ad miñast Dauda DRottens, heldur til ad endurnyja hañ og spotta med toomre Liikamañs Hegdan, eñ ecke til ad elska hañ af Gnægd Hiartans. Og hvort Straff er þa offtoort fyrer oss, DRotteñ, sem þañig hofum troded Guds Son under Footunum, og Sættmálañs Blood almeñelegt hälded? Ei ad sijdur, vor Gud, þá er þetta þyns einget=

teñs Sonar Blood vort einasta Traust. O! Læt þad sætta oss vid þig, Drotteñ miñ. Hvar fyrer wthellte hañ þvi? Aüeina til ad giora syndnga Meñ hoolpna. Ecke kañ Fiolde Syndaña, nie Stærd þeirra, ad giora þad Ogyldt, sem þu hefur sialfur ætlad oss til Skulda-Lwkningar, þvi þad er Guds Blood, sem er meire Hiarta voru, er fordæmer oss. Og i þeirre Von, ad þijn Giædska mune uppgefa oss Sekternar, þa beigium vier Knie vor i Nafne DRotteñs JEsu Christi, og drepum oss nidur a Footskor þijna: HErra! Læt ecke þijns Sonar Blood vanmattugt verda a oss syndugum Ormum, og veit oss, ad so sem oss eru margar Synder fyrergefnar, so meigum vier og elska, ad þvi Leite, vier fiñum til þiñar Reide, DRotteñ, eñ hylium oss þo i Biargskorunum. J þijns Sonar blessudum Undum, vilium vier hylia oss, a medañ hun frañ hia gengur. Og nær vier nu so fundeð hofum Hitañ af heñe, ad hun kemur wt a oss Tarunum, þa gef, ad vier so meigum þvo Hiarta vort i þeim, ad þad þess hæfilegra sie til ad verda þveged i JEsu Bloode. Veit oss nu Styrk þijns Anda til þess, ad vier so minnunst Kvala þijns Sonar a þessum Føstu Tijma, ad þu alldrei framar vilier miñast Jllgiorda vorra; Og gef þessu þijnu Erende Framgang. Bænheyr þad, fyrer JEsu Arnan og Medv̈igaungu.

Fader vor, 2c.

# Bæn epter Predikun.

Vier þockum þier, HErra JEsu Christe, saññur Gud og saññur Madur, ad þu med þiñe H. Pijnu og Dauda og blessadre Bloods Uthellingu, hefur endurleyst oss, aumar, syndugar og fordæmdar Mañeskiur, ꜳn allra vorra Verka, Forþienustu og Verdugleika. O HErra JEsu Christe! Hvorsu stoor hefur þijn Pijna vered, og hvorsu þwng Kvol og Pijsl þad hefur vered, hvorsu margfalda Neyd hefur þu lided, hvorsu diwpar eru þijnar Under og Beniar, hvorsu beiskur og saar þiñ Daude, hvorsu Osegianleg er þijn Elska, med hvørre þu hefur sꜳt oss vid þiñ elskulegañ Fodur, þar þu sveittest þeim blooduga Sveita vid Fialled Oliveti, af þeirre Daudañs Angist, so Blood-Droparner hrundu ꜳ Jordena, og þar þu varst af ollum þijnum Læresveinum yfirgefiñ, og gafst þig viliugann i Hendur þeirra leidu Gydinga, og þess Ogudlega Skara, hvorier þig þvijngudu hardlega, og leiddu þig bundeñ, ꜳn allrar Vægdar, frꜳ einum rꜳngláatum Doomara til añars, hvar þu varst falsklega ꜳklagadur, hræktur og hardwdlega svijvirdtur, og med Knefum slegeñ i þijna Asioonu. Vegna vorra Misgiorninga varstu særdur, og fyrer vorra Synda-Saker varstu slegenn og hwdstrijktur, med Þyrnum koronadur, og hryggelega wtleiddur, so sem eiñ slæmur

Ormur, ſoa ecke er neinum Mañe lijkur, þvi þu varſt h:ñ allra fyrerlitlegaſte og audvirdelegaſte, fullur af Kvøl og Krankleika; So heideñs Mañs Hiarta h:fur eiñeñ aumkad ſig þar yfir, og ſagt: Sia:d hvilijk Mañeſkia þad er. Þu varſt fyrer vorra M:sgiorninga Saker a medal tveggia Spillvirkia reiknadur, og ſo ſem ein Bolvan uppheingdur, og med Noglum ſtwngenn i gegnum Hendur og Fætur, þar ad aukei þijnum Þorſta med Galle og Edike dryckiadur, og med ſtoorre Kvøl hefur þu uppgefid þiñ Anda, ſo ad þu betalader vora Skuld, og ad vier yrdum fyrer þijnar Beniar heilbrygder. Fyrer þeſſa þijna Pijnu, og alla adra Kvøl og Pijnaning, ſegium vier þier Lof og Þacker, og bidium þig, ad þu laater þeſſa þijna H. og beiſku Pijnu, ecke vera ſkeda oſs til Onijtes, helldur ad vier huggum oſs vid hana af øllu Hiarta, og hrooſum oſs af heñe, og hugleidum hana ſo, og fyrer oſs virdum, ad allar vondar Gyrnder i oſs verde nidurþryktar og wtſlocktar; Eñ þar a moote mege allar goodar Dygder i oſs iñplantaſt og aukaſt. So ad vier deyum fra Syndunum, eñ lifum Rettlætenu, og epterfylgium þier, ſem oſs ert ſettur til Fyrermyndunar, og gaungum i þijn Footſpor, og umberum hid Vonda med Þolennmæde, og lijdum Drottinden med goodre Samvitſku. Fader vor, ꝛc.



# Fyrsta Midvikudags Predikun i Føstu.

## Textenn.

OG þa þeir hofdu Lof-Saungenn swnged, geck JEsus wt, sem hann vár vanur, yfir um Læckenn Kedron, til Fiallsins Oliveti. Enn hans Læresveinar fylgdu honum epter. Þa sagde hann til þeirra: A þessare Noottu munud þier aller hneixlast a mier, þviad skrifad er: Hyrderenn mun eg sla, og Sauder Hiardarennar munu i sundur tvistrast; Enn nær eg riis upp aptur, þa mun eg ganga fyrer ydur i Galilæam. Petur svarade og sagde til hanns: Þo aller hneixle sig a þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast. JEsus sagde til hans: Sañlega

lega sege eg þier: Ad i Dag, ädur enn Hanenn galar Tvisvar, muntu afneita mier Prisvar. Enn hañ, Petur, talade þä enn frekar: Ja, þo eg ætte ad deya med þier, þä skal eg ecke afneita þier. Slijkt hid sama sögdu aller Læresveinarner.

Þa kom JEsus med þeim i þad Akur-Gerde, sem hiet Gethsemane, þar var einn Grasgardur, þar geck JEsus inn, og hañs Læresveinar. Enn Judas, sä ed sveik hann, visse og þennañ Stad, þvi ad JEsus safnadest opt þangad med sijnum Læresveinum. Þä JEsus kom i þann Stad, sagde hañ til sinna Læresveina: Setied ydur hier, ä medann eg fer burt og bidst þar fyrer. Bidied so ad þier salled ecke i Freistne.

Og hann took med sier Petrum, og Jacobum og Johannem, þä Tvo Sonu Zebedæi, og toock til ad hryggiast, titra af Hrædslu og harmþrwngenn ad verda. Og þä sagde hañ til þeirra: Mijn Säla er hrygg allt i Daudann, blijfed hier og vaked med mier.

Og hann sleit sig i burt frä þeim, og geck

geck litlu fram̃ leingra nær einu Stein-Snare, og kraup a Knie, fiell fram̃ a sijna Asioonu til Jardar, og bad: Ef þad møgulegt være, ad siu Stund hia sier lide, og sagde: Minn Fader! Ef møgulegt er, þa vijke þesse Kaleikur fra mier; Abba! Fader minn! Allt er þier møgulegt, tak burt þennann Kaleik fra mier; Þo ei hvad eg vil, heldur hvad þu villt. Og hañ kom til sijña Læresveina, og fañ þa sofande, og sagde til Peturs: Simon, sefur þu? Formatter þu ecke eina Stund ad vaka med mier? Vaked og bidied, so þier falled ecke i Freistne. Andeñ er reidubwenn, enn Holded er veikt.

J annad Sinn geck hañ enn burt aptur, badst fyrer, talade þeim sømu Ordum, og sagde: Minn Fader, ef þad er ecke møgulegt, ad þesse Kaleikur vijke fra mier, utañ eg drecke hann, þa verde þinn Vilie. Og hañ snere aptur, kom og fann þa eñ sofande, þviad þeirra Augu voru þrwngen af Svefne, og þeir vissu ecke hveriu þeir svørudu hønum.

Og hann skilde vid þa, og geck burt aptur, og bad i þridia Sinn med sømu

Ordum, og sagde: Fader, ef þu villt so, þa tak þennañ Kaleik fra mier; Þo ecke minn, heldur verde þinn Vilie. Enn hønum byrtest Engell af Himne, sa ed styrkte hann. Og þa hann var staddur i Daudañs Strijde, took hann akaflega ad bidia. Enn hanns Sveite vard so sem Blood-Hniklar, þeir ed fiellu a Jørdena. Og hann stood upp fra Bænenne, og kom til sinna Lærespeina i þridia Siñ, og sañ þa sofande wt af Hrygd, og sagde til þeirra: Sofed þier nu þad epter er og hvijlest. Hvad sofed þier? Þad er noog, standed upp, og bidied, so þier falled ecke i Freistne. Sia ed, sw Stund tekur ad nalgast, og er komen, ad Mañsins Son mun ofurseliast i Syndugra Hendur. Standed upp, og ganngum hiedann. Sia ed, sa ed mig svijkur, hann er i Nand.

## Exordium.

Margt er lijkt med Skildum, seger Ordshattur gamall. Þad lesum vier um David Konung, ad þegar hann flwde fyrer Ofrijke Sonar sijns Absalons, þa hafe hann genged fra Jerusalem, yfir um Lækenn Kedron, med huldu Høfde gratande, og hanns Þenarar fylg-

fylgdu a epter honum, 2.Sam. 15. Enn i øndverdre Piijslar-Søgu-DRottenns JEsu Christi, Sonar Davids, er hann geck yfir um/ hinn sama Læk Kedron, til Vidsmiørs-Vidar Fiallsins, þa heyrum vier, ad hid saklausa Guds Lamb, sem bored hefur Veraldarennar Synder, gengur hinn sama Veg, og þad Høfuded, sem er þusundsinnum biartara enn Soolen, var huled med nockurskonar Sorgar-Skije, i þeim svarta Myrkranna Dal vid Oliveti, þar hann, so sem ad affiides lagdre þeirre kraunglegre Tign, sem hann aatte i Upphafe hiaa sijnum Fødur, andvirdte sialfann sig, og giørdest Madke enn ecke Manne lijkur. David geck grautande a sijnum Flootta; Enn hvad nærre ad Sorgen hafe genged Hiarta Frelsarans, þad gefur hann til Vitundar i Grasgardenum, segiande: Mijn Saal er hrygg allt i Daudann. Absalon vilde ei lijda Stioornan Fødur sijns, hvør Ofmetnadur steypte hønum i þa Olucku, ad hann liet sier ei nægia ad vera Kongsens Sonur, heldur vilde brioota sig til Rijkes. Absaloni voru Ogudleger Gydingar lijker, þeir ed søgdu: Vier vilium ei laata þenna drottna yfir oss. Luc. 19. Absaloni var Adam lijkur, hver ed fyrer Skøpunena var Guds Sonur, enn fyrer Høggormsens Raadleggingu vilde verda Gude lijkur, 1.Mos.B.3. og vard so fyrer Metnadar-Syrndena Ormenum lijkur, hvar fyrer hinn annar Adam, sem er DRottenn af Himnum, han giørdest einum Madke og ecke Manne lijkur. Ps.22. Absaloni er ecke einasta Adam lijkur, heldur og hanns Nidiar, aller þeir ed eige vilia skipast under Guds Stioornan, edur leidast laata af DRottenns Anda, þeir ed segia: Vier erum Herrarner, og vilium ei hlaupa epter þier, og hafa so Oked i sundur broted. Jer. 5. Þessar Landraada Saker bar hinn eingetne Sonur Guds hier yfir um Kedron, og fyrer vorrar Ohliidnes Saker, sem kolluduu Gud vorn Fødur, enn ræntum hann þo sijnum

um Heidre, þa giørdest hann Fødurnum hlijdenn allt til Dauda, ja, allt til Krossens Dauda. Phil. 2. Achitophel, sem var Raadgiafe Davids Kouungs, hann sat a Svikraadum vid Herra sinn; So skede þad og vid DRottenn vorn: Hanns eigenn Lærersveinn, hans Vinur, sem aat og drack med hønnm, hann giørdest Forgaungu Madur þeirra er sviku hann. David var hlijdugur Gude, og hanns Þolennmæde var mikel, er hann sagde: Ef DRottenn hefur Lyst til mijn, þa lætur hann mig koma aptur, og sia minn Bwstad; Enn segie hann so vid mig: Eg hefe ecke Þocknan a þier; Sia, þa er eg hier, giøre hann vid mig hvad hønnm lijkar. Hvad skulum vier segia um hina Ouumrædelegu Hlijdne Lausnarans? Þegar Sorgen geck allt inn ad hans Saalu, og mannlegre Naatturu took til ad miklast Ofbod Helvijtis Kvala, þa andvarpade hann i Himenenn, med hinne mestu Hoogværd, segiande: Fader, ef þad er møgulegt, þa tak fra mier þenna Kaleik, þo eige minn, heldur verde þinn Vilie. So er nu vor JEsus David i øllu þessu nærsta lijkur; Enn hvad miklu skelfelegre Pijsl ad hafe DRottenn vorn kvaled, enn David, þad vilium vier i Tveim Smaa-Greinum hugleida, wt af Textanum, og i DRottenns Nafne høndla i hinne Fyrre: Um JEsu Reisu-Bwning og Ferdalag til Fiallsins Olweti; Enn um hanns beisku Kvøl og Piauning i'Grasgardenum, i hinne Siidare. Enn þu, HErra JEsu, sem allt þetta leidst oss til Saaluhiaalpar og Myskunar, styrk oss i þessu Verke, med Krapte þijns Anda, fyrer þijna Forþenustu, AMEN.

## Utleggingen.

Da þeir høfdu Lof-Saungenn swnged, segia Gudspiallamennerner. Ad sønnu visse Lausnarenn allt þad yfir hann atte ad koma,

koma, Joh. 18. Ecke var honum þad Okuñugt, ad æalyktad var i þeirre himneſku Rꝏdſtofu, ad hañ ſkylde ofurſeldur verda i Syndugra Hendur, og hvad herfileg Pijna þad verda munde, þeckte hann giörla, þvi hann viſſe alla Hlute, ſagde Petur fordum; Hverrar ſkelfileg Minning ad miög ſo nærre hefur genged hanns Hiarta, þegar hañ, ſꝏm Dogum ꝏdur enn þetta ſkede, innreid til Jeruſalems Borgar, uñ þenna ſama Veg, med Vegſemd mikelle, og Fognude þeſs Foolkſins, ſem ꝏ epter fylgde, og hroopade: Hoſianna Syne Davids, bleſſadur ſie ſꝏ ſem kemur i Nafne DROttens; Er hann andvarpade ſiꝏlfur, og ſagde: Mijn Sꝏla hryggeſt i mier, og hvad ſkal eg giora? Fader, hiꝏlpa mier af þeſſum Tijma, Joh. 12. Enn þo hañ viſſe allt þetta, ſamt gleymer hann ecke ſijnum himneſka Fodur Þacker ad giora. Þegar hiner Ogudlegu Gydingar med Juda voru ad rꝏdſlaga uñ Nætur-Tijma, hverneg þeir ſkyldu hann af Dogum rꝏda, og hann viſſe alla þeirra Rꝏdagiord, þꝏ var ſw hanns Ydia, ad Lofſyngia Gude og Fodur. Uñ Svanenn er þad ritad, ad hann ſynge hvad fegurſt adkomeñ Dauda; JEſus vor Brwdgume er einum Svan lijkur, hanns Rodd er þuſundſinnum fegre enn Svana-Saungur, þad er Evangelii Predikun, og ſꝏ Hlioomurenn, ſem wt er genginn uñ alla Heims Bygdena; Og þoott ad oſs

ætte

ætte Brwdgumanns Raust jafnann fogur að hykia, christner Menn, þa mætte hun þo hvad betst lꜳta i Eyrum vorum æ deyanda Dege, þar Evangelii Lærdoomur og allt Guds Ord, tekur allann sinn Krapt og Megn, af hanns Vanmætte, i hanns Dauda-Strijde, so þad, fyrer hanns bitru Pijnu og Dauda Skulld, verdur Kraptur Guds til Sꜳluhiꜳlpar, øllum þeim sem trwa. Med þessum Lof-Saung hefur DRottenn gefed oss eitt blessad Dæme, til ad þacka Gude, bæde fyrer Medlæte og Mootlæte; Hversu brennheitur Ofn meinar þu, christenn Madur, ad Guds Heiptar Reide vered hafe hañs eingetnum Syne, þar hann sveittest Bloodenu, og hanns Sꜳla vard hrygg allt j Daudann; Enn eige ad sijdur, ædur hann geck til þessa Bads, þa syngur hann Lof sijnum Fødur. Vilier þu nu vera hanns Læresveinn, þa giør slijkt hid sama. Hvad kom DRottne vorum til ad audvirda so siꜳlfann sig i þijnu Holde? Hvad þrijste honum til ad þola Kvøl og Krosseñs Dauda, þa hañ mætte vel Sælu hafa? Hvad annad enn hin guddoomlega Elska, med hverre hann þig elskade, þa þu enn varst hanns Ovinur? Elldur Kvalanna var ad soñu heitur, enn þo sie eg hier, ad Elldur Elskunnar yfirgnæfer hann: Helvijte kunne aldrei ad verda so kreptugt, til ad pijna þinn Brwdguma, ad hanns guddoomleg Elska til þijn (sem þo hafder

drijgt

Nrijgt Hooraner med morgum Elſkhuga) ad hun ſoyrde kroptugre, til ad vilia þinna vegna lijda: Gud er oblugre i þvi Gooda, enn Andſkotenn kann ad verda i þvi Vonda: Elſkan til ſyndugra Manna i Gude, er heitare i ſinne Kynſlood, heldur enn Straff Syndareñar, ſem er Daudenn, i ſinne; Þad ſie eg a Chriſto, þar hann ſeger: Verde þiñ, eñ ecke minn Vilie. Efnu ad hanns Elſka var ſo mœttug, i hinne bitru Pijnu, til þijn, ad hann jafnvel giørde Gude Þacker, fyrer þad ſem hann leid ſaklaus; Kañ þa ecke þijn Elſka til hañs, ſo mikid ad megna, ad þu þolennmoodlega lijder, þad þu fyrer þijnar Synder lijdur, og hann kallar þo ad þu lijder ſinna vegna? O hvad ſælann maa eg David kalla! ſem midt i ſijnum Mootlætingum ſagde: Þo Lijf og Saal vanmegneſt, þa ertu ſamt mitt Hiartans Trauſt og Hlutſkipte. O hvad farſælann Job! er talade þeſſum Ordum: Þo ad Drottenn deyde mig, vil eg þo ſamt vona a hann. O hvad ſæla JEſu Chriſti Poſtula! hverier, er þeir hwdſtrijkter, kvalder og kroſsfeſter voru, hieldu þeir þad hina meſtu Sœmd, ad meiga lijda allskonar Hrellingar Chriſti vegna.

Þegar JEſus geck wt af Herbergenu, þa var Noott, þvi Johannes ſeger, Joh. 13. ad þa Judas geck wt, hafe Noott vered, og er hann kom i Gethſemane, kom Judas med Bliſum, ſo ſem a Noottu. Af þeſſu kemur mier i

Hug,

Hug, ad bannad var ad ganga wt, þa somu Noott, sem Paaska-Lambed var eted, so ecke fiellu Menn i Hendur Fordiarfarans. 2 Mos. 12. Enn DRottenn JEsus, uppa þad hann audsynde sig ad vera: Þad saklausa Guds Lamb, sem ber Heimsins Synder: Þad sanna Paaska-Lamb, sem slaatrad er i fra Heimsins Upphafe: Vort Paaska-Lamb, sem fyrer oss er foornfært; Hann geck wt þa somu Noott, er hann hafde Paaska-Lambsins neytt, til þess ad gefa sig viliande i Hendur Forrædaranns.

Þegar DRottenn var wt af Herbergenu gengenn, þa seger Sagan: Ad hañ hafe genged yfir uñ Lækenn Kedron; Hann rann epter þeim Dal, sem liggur a millum Jerusalem og Fiallsins Oliveti. Yfir uñ þennann Dal geck JEsus, fra Jerusalem, til hinnar fyrstu Orustu, sem hann haade vid Daudann. Sa Dalur var miog Ofrægur: Hann var Gehenna nefndur: J honum voru Hræ Oodada-Manna til Osku breñd, og þau Saurende er wt voru boren af Jerusalem; Og med þvi Nafne var Helvijte a stundum teiknad: So seger DRottenn, talande þo epter mannlegum Plagsid, hvad miked ad gylde jafnvel hinar minnstu Synder fyrer Guds Doome, (hann seger): Hver sem seger vid Broodur sinn: Þu Vitfyrringur, hann er sekur Baals Gehennæ. Matth. 5. O Herra Gud! Skule

nu

nu Reikningſkapur gioraſt fyrer hvert Onytiu Ord i Doomenum, hvad Obæreleg munu þaa verda oll Reide-Yrde, Spott-Gloosur, Bryxle, Bakmælge, Smaanar-Ord, Roogur, Lijge, Illmæle og Flaattſkapur, ad hverium ſynduger Menn leika ſier, eins og ad odru Table? So audvitad er, ad vier vorum alleina þeſs vegna, ecke einungis tijmannlegs Ellds-Loaa verduger, heldur og Guds ſaarheita Reide-Ellds, ſem brennur allt til nedſta Helvijtis. 5. Moſ.B. 32. Þeſs vegna er þa JEſus igegnum Gehenna gengenn, til ad laata ſig fiotra af Ogudlegum Skaalkum, ſo vier ſkyldum ecke bundner aa Hondum og Footum, verda Ofurſelder Kvolurunum, og wtſnarader i hin ytſtu Myrkur, hvar vera mun Op og Taña-Gnijſtran. Hvad ſkulum vier ſegia, Born mijn? Hvad eru ſynduger Menn annad, enn eitt lifande Hræ eins Oboota-Manns, ſem hefur fyrergiordt Fie og Fride vid hinn rettlaata Doomara? Hvad eru þeir ed ydrunarlauſt i Syndunum framfara, annad enn Uthreinſun af Jeruſalem, þad er, af chriſtelegre Kyrkiu? Eitt aavaxtarlauſt Tre, ſem ei duger nema til ad upphoggaſt og i Elld kaſtaſt? Matth. 3. Eitt Hey-Straa, ſem til alls er Onijtt, nema i Ofnenum ad uppbreñaſt? Hvad annad, enn Þyrnar og Þyſtlar, hverier Bolvanenne eru naalæger, og hverra Endalok eru afbrennder ad verda, og þad i eilijfum Helvijtis

Loga? Ebr. 6. Eñ JEsus hefur i Gehenna brunnið i Ellde guðlegrar Reide, so hann frelsa oss fra þvi eilijfa Gehenna, og Oendañ. Helvijtis Baale. Þar voru Hræen uppbrend sem straz sagda eg; Enn vier vorum, fyrer Banskopun Syndarennar, dauder i hinni Rom. 5. og lifande Hræum lijker orðner, þar allt Hofuded var siwkt, allt Hiartad veikt, fra Hvi. ...e og allt til Ilia, var þar eckert, nema Saar, Beniar og Prote, Es. 1. Þvi hefur vi Sonur Guds lifanda, gegnum þenna viður styggelega Reit daudra Beina genged, til sijns Dauda Strijds, og er vorra vegna so sem eitt Hræ wtsnaradur. O HErra Gud! Hvørn enn er hiñ fegurste a medal Mannaña Sona ut leikenn hërsilega? Vier saaum hañ, seger Esaias Cap. 53. Og þar var eckert Alit, ad vier girn tuskum hann: Hann er burtkastadur med Mannanna, og Madur Hormunganna. og en forsmaadur er hann, og vier konnudustum ej vid hann framar. Þesse Dalur var og so Tophet kalladur, og hefur hann þad nafn af Ordenu Toph, hvert ad Trumbu merkir Þeirrar Ordsakar vegna, ad þegar Heidingiar offrudu Bornum sijnum Moloch i þessum Stad, og brenndu þau lifande i Fadme hanns; Ba uppa þad, ad Foreldrunum ecke ofbioda skilldu Vein Barnanna, þa slætu þeir Trumbur sla Þetta gefur mier Ordsok til ad hugleida þad, ad

vier hofum allt ofmikid Mann-Bloot giordt a Krossanum, og allt ofdꜳtt fadmad Dioful-inn, og elskad hanns Athæfe; enn kastad Guds Ottu og hanns Bodum a Bak ofs aptur, so mꜳrgre hefur leiged tijdt og opt, ad Sꜳl og Lijf mundu standa i biortu Baale; Þar fyrer hofum vier og forþenad eilijflega ad foornfæraft, i þeim svola Jlfrunar-Dal, hver ed rijkur af Ellde og Brennesteine, og þad ei til Sætleiks Jlms, heldur ad kiæla Guds Reide, so sem seger hiꜳ Ezech. 16. Enn JEsus er þeigiande gengenn i gegnum Tophet, til ad foornfæra siálfum sier Gude, so vier skyldum ecke eilijflega enia i Helvijte. Honum sie Prijs og Vegsemd ad eylijfu, Amen.

Hvad þvi Sijdara vidvijkur, þꜳ hofum vier fyrst ad athuga, ad Gudspialla-Mennerner seigia: Ad Christur hafe genged inn i einn Alldin-Gard, sem hiet Gethsemane. Adam var settur af Gude i einn Alldin-Gard, i allskonar Sælu, hveria hann braut af sier, med Oleifilegre Nautn, af þvi Trenu, sem honum bannad var. 1. Mos. B. 3. Þar fyrer vard hid sanna Lijfsins Tre, hvers Blod ad gagna til Lækningar Heidingianna, þad vard plantad i alldin-Gardenum, þegar hann lꜳ flatur a Jordu, og þolde allskonar Hormung, ad hann afrekade ofs eilijfa Sælu, og einn Arf a Himnum, sꜳ ed ecke mꜳ skiemast, og ecke saurgast,

og ecke rotna. J 2. Mos. B. 24. Cap. lesum vier: Ad þegar Moses geck uppa Fialled fyrer Gud, þa liet hann þa Siotyger Olldungana epter vid Fialls-Ræturnar, enn took med sier þa Þria, Aaron,, Nadab og Abihu, eñ geck so siidarst allra alleinn inn fyrer DRottenn i Elldenn. Ei er JEsus i þessu Moysi Olijkur, og er þad hier medal annarra rætt, sem hann hafde adur fyrersagdt: Ad Spamann munde Gud uppvekia þeim af Brædrum þeirra lijkann sier; Þegar hann inngeck i sijns himnesk'a Fodurs brennande Reide-Elld i Grasgardenum, til ad forlijka fyrer þær Syndernar, sem moote Mosis Logmale giordar voru, og gioraſt mundu, Þa tekur hann med sier Petrum, Jacobum og Johannem; Enn sijdarst allra gengur hann alleina i hid bitra Daudañs Strijd, sem þad alleina kunne ad wtstanda. Hann alleina lagde sinn Hrigg under Guds elldlegar Reide Svipur, sem alleina hafde þær ecke forþenad: Hann alleina drack hiñ fleite-fulla Guds Reide-Kaleik, i hverium honum alleina velþocknast. Matth. 3. Hann geck alleina afsijdes i Allden-Gardenum, sem alleina hefur Vijnþressuna troded, og þar var eingenn af Foolkenu medur honum. Es. 63. Enn hvijlijka Vijnþressu, christner Menn? Vier vilium strax sia, hversu miked þad hefur kostad hinn Frumgetna, ad lita sinn Mottul i Vijn-Beria Bloode: 1. Mos.

Mos. B. 49. Hann took til ad hryggiast og skialfa og harmþrwngenn ad verda. Vidlijkt wtmala Gudspialla-Mennerner þessa skelfilegu Daudanns Angist, so sem þa nockur tekur hastarlega Bana-Sott, og þar er eingen Lijfs Von framar, hverier med sterku Osbode plaga ad slijtast i sundur, Lim fra Lim, allt til Daudanns, hvad ecke er ad undra, a þeim, sem ad Syndarennar vegna eru Soottum og Siwkdoomum underorpner; Enn ad hann, sem er an Synda getenn og fæddur, hann, sem er Gud alleina sæll, hann, i hverium ad bioo oll Fylling Guddoomsens lijkamlega, ad hann skylde wt af hinne bitru Daudanns Angist titra og skialfa, sokum uppalagdra Synda, fyrer hveriar Daudeñ er innkomenn i Heimenn, þad er undarlegt fram̄ yfir alla Hlute. David seger: Ad þegar Israel geck wt af Egypto, þa hafe Fiollen dansad fyrer Gude, so sem Sauda-Hiord, og Halsarner stocked upp, so sem hin wngu Lomben; Enn hier meigum vier sia, ad hann, iklæddur voru Hollde, sem þesse Stoor-merke giorde, hann sialfur tekur til ad skialfa og harmþrwngenn ad verda. Esaias seger: Ad hann sie so sterkur, ad hann vegie Halsana og Fiollen a Vigt, og innclyke Sioafar-Hafed i sijnum Hnefa; Enn hier er hann þo so van-burda ordenn wt af Megne Kvalanna, ad hann fellur fram̄ a Asioonu sijna. Þad lesum vier

vijda hia Gudspialla-Monnunum, ad þa hann beiddest fyrer, hafe hann Augu sijn til Himens hafid, enn hier hefur hañ ecke Maatt edur Megn til upprettur ad standa. Hier liggur þad sanna Forlijkunar Offur a einu Jard-Alltare, sem Moses umgetur, 2 Mos. 20. Englanna Drottenn liggur flatur a Jordu, og beiger sig samañ af Hormung, eins og einn Madkur, Ps. 22. Og hann sem talar eitt Ord, og þa skedur hvad hann seger, hann fær ecke, med morgum og heitum Bænum, Lausn fra hinum stora Kaleik. Og er hier af audsied, hvad Synden munde hafa orded Obæreleg ollu Hollde, þar hañ, sem ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, hann verdur so vanburda under henne, fyrer uppalagda Syndanna Byrde.

Mijn Saala er hrygg allt i Daudañ, seger Lausnarenn. J Lofkvædenu seger hann: Ad Eitkan sie sier so sterk sem Daudenn; Hier verdur honum Hrygden þrong inn til Daudanns. Þetta Ord: Allt til Daudañs, merker so stoora Angist, ad hun sie reidubuen ad taka hanns Lijf af honum. Sama Ord brwkar Paulus uñ Epaphroditum, ad hann hafe vered sjwkur allt til Daudañs, Phil. 2. þad er, Daudsjwkur; Og uñ Ezechiam seger Esaias hid sama. Es. 38. Jonas sagdest vera reidur allt til Daudanns, þar hann vard, sokum Angurs og Oþarfrar Vandlætingar, so reidur, ad hann vilde heldur deya,

deya, enn lifa. Enn Frelsarenn, sokum brennande Elsku til syndugra Manna, hann verd hryggur allt til Daudans, þviad hañ var reidubwenn ad gefa sitt Lijf wt fyrer sijna Saude. Mijn Saal er hrygg, seger Lausnarenn; Hvar af vier sieaum hanns sannann Manndoom, ad hann hefur ei sijdur funded til Saalar og Lijkamans Hormungar, heldur enn adrer Menn; Þvi kallar og Paulus hann freistadann a allañ Hætt, lijka sem oss, þo aan Syndar: Ebr. 5. Ei i þeirre Meiningu, ad i Christo hafe vered nockur Ofullkomlegleike, þo hanns Saala hrygg giørdest, heldur vard hanns Endurlausnar Embætte þar fyrer fullkomnara, þvi fyrer sijna Hrygd, hefur hann wtvegad oss eilijfa Glede. Vier hryggiumst giarnann nauduger, hann oldungis viliugur: Vier fyrer vorar eigenn Synder, hann fyrer annarlegar: Vor Hrygd forbliudar Skinseme vora, Christur hrygdest epter Raade sinnar Alvitsku: Vor Hrygd er ætijd blondud med Synd, Christur var allur aan Syndar: Vorar Tilhneigingar standa i gegn Gude, Christi Tilhneigingar giørdust Fødurnum hlijdugar inn til Daudans; Og so sem eingenn tekur hanns Saalu fraa honum, heldur leggur hann hana sialfur fraa sier, so hrygger og eingenn hanns Saalu, aan hanns Vilia. Enn epter þvi vier med Tilhneigingunum, sem hvad mest eru Bwstadur hinnar syndumspilltu Naatt-

uru, vier hofdum med þeim allra heldst Gud styggdann, þa byriade Christo ad lijda a hañs allra heiloguſtu Tilhneigingum, þo an Synd- ar, so vorar yrdu hreinſadar. Minna hefde hann veitt oss, hefde hann ei Hrygdena lided, hann er þar fyrer vor vegna hryggur ordenn, ad hann hafde eckert til Hrygdar fyrer sialfann sig. Hann vilde ecke a medann hafa Unadſemd af Fagnade Guddoomſens, sem i honum bioo, ad hann kynne hryggur ad verda, og sampijnast vorum Eymdum. Hann vilde Hrygd hafa i voru Holde, ad vier i honum hefdum eilijfa Glede. Hann geck eiñ Hrygdar Ferel allt til Daudañs, so ad hann þar med leidde oss til eilijfs Fagnad- ar, a Veg Lijfsins. Honum byriade Hrygd- ena a sig ad taka, ad hann ecke fære a mis vid, heldur sigrade Hrygdena. Þu ert hryggur ord- enn, O HErra! fyrer vorar, eige fyrer þijnar Synder, eige Saker þijns Dauda, heldur vors Veikleika. Þier sie Lof, Heidur og Þacker ad Eilijfu, Amen.

Framar stendur i Textanum: Hañs Sveite vard sem Blood-Dropar, þeir ed fiellu a Jørdena. O HErra Gud! Hver hefur þvi- lijkt heyrt? Hver vill nu ecke med bloodugum Tarum medkenna þad satt ad vera, sem Esaias fyrer spaer? Cap. 53. Sannlega bar hann vorn Siwkdoom, og hlood a sig voru Krankdæ- me, vorra Synda vegna er hann slegenn, og Hegn-

Hegningen hefur a honum leiged, ad vier hefdum Fridenn, og fyrer hanns Beniar erum vier heilbrygder ordner. Menn vita, ad þegar eiñ erfidar kappsamlega, þa dynur Sveite af hañs Lijkama; Hvilijk Ofraun mun þa hafa kvaled Saalu vors Frelsara, þar hann hrærde sig ecke, heldur laa framfallenn a Jordu, ad hañ sveittest Bloodenu? Menn vita, ad þeir sem eru plaagader af banvænum Soottum, þeir sveita ecke Bloodenu, heldur raudlitum Sveita, sem þo er ecke Blood, heldur hefur Farfa lijkann Bloode; Enn JEsus var ad sonnu heilbrygdur, fyrer utann vora Siwkdooma sem hann bar, og þau Orkumslen er hann a sig hlood: Hanns Sveite var og ei sem annarra Mañа, þvi Gudspialla-Mennerner segia: Ad hanns Sveite hafe vered so sem Blood-Hniklar, þeir ed fiellu a Jordena. O HErra Gud! Þegar adrer Menn lijda nockra Kvol a Saaluñe, þa safnast Blooded ad Hiartanu, hvert ad er eins og Slot Lijkamanns, hvar Saalen hefur sinn Bwstad sierdeiles, eins og þa einn Lands-Her a Ofridar Tijmanum safnast ad Kastalanum, til ad forda sier, og veria sinn Hofdingia; Enn i JEsu Dauda Strijde skedur þad odruvijse: Hier stockur Blooded, i hveriu Saalen er, seger Moses, þad stockur wt af Lijkamanum. Þvi sokum þess, ad Guds Kraptur var i honum, so hann giœte stadest Ofbod Kvalanna, þa hafa

Natturunnar Kraptar matt vijkia, Ædarnar sundur þanest, og Samteingd Lijkamañs glidnad, þa gudlegur Kraptur bardest i mannlegu Hollde, ecke einungis vid Daudann, helldur og vid hann, sem Daudañs Vald hefur.

Siaed hier ydar Lausnar Giald, christner Menn! Hier er sw Laugenn, hverre þier erud i Skijrneñe þvegner, i hverre þier eiged ad þvaga ydar Skrwda Op. B. 7. sijdann: Hier er Guds eiged Blood, Post. G. B. 20. med hveriu hañ hefur endurkeypt Hiord sijna, hier er Leoned af Kyne Juda, sem hefur litad sijn Klæde i Vijne, og sinn Mottul i Vijn-Beria Bloode, 1. Mos. 49. Minn HErra JEsu! Hver er sa, sem kemur af Edom, i raudum Kyrtle, hañ sem er so skrautlegur i sijnum Bwninge, og frambrunar i Magt sinne hinne miklu? Es. 63. Það em eg, sem tala Rettvijsena, og er mattugur ad hialpa, seger DRottenn: Hvar fyrer er þitt Fat so raudt, og þijn Klæde so sem þess, er Vijn-Pressu tredur? Þviad þinn Vijngardur, vid hvern þu hafder þo allt giort, sem einn kunne ad giora vid sinn Vijngard, Es. 5. hann hefur byred þier swr Vijn-Ber; Þar fyrer ertu inn i Alldengardenn gengenn, einsamall Vijn-Pressuna ad troda, og hefur litad Mottul þiñ, ecke einasta i þijnu eigenn, helldur og i Edoms Barna, hinna slægu, hinna stolltu Israels Fiandmanna Bloode. Jorden var bolvud

fyrer

fyrer Adams Blood (so kallast Synden optlega i Ritningunne) hveriu hann steypte yfir sitt og allra Barna sinna Høfud; Enn fyrer þinn blodugañ Sveita, O Rottenn minn, þær er hun oss aptur blessud. Adams Synda-Straff var þad hann skylde i Sveita sijns Andlites sijns Brauds neyta, 1. Mos. B. 3. Enn fyrer þinn Sveita, er vor Sveite og vort Erfide blessad. Um̃ einn Orm er þad skrifad, ad hvern hañ bijtur, sa verde albloodugur; Enn Satan, hiñn gamle Dreke og Hoggormur, hann hafde so bited oss til Bloods, ad vier lægum i voru Bloode, og vor Nafle var Oum̃skorenn, og þar var eckert Auga, sem myskunade oss, þegar þu geckst þar fram̃ hia, og sagder til vor i voru Bloode, þad vier skyldum lifa; Þess vegna ertu i einum Elldraudum Orme fyrermindadur, Joh. 3. og a Gaalganum bloodrisa uppheingadur, ad vor Skrwde, sem̃ af oss sialfum til var verr wtleikeñ enn Nidlags Fat, ad hann yrde faagadur i þijnu Bloode, þu Lambed Guds, sem bored hefur Veraldarennar Synder.

Lætum oss nu renna nockud i Skap vid sialfa oss, Guds Viner, hverra Bloodskam̃er ad eru med Guds Sonar Bloode kvittadar. Hversu Ovidurkvæmelegt er nu þad, ad Herrann pijnest, enn Þrællenn er all-kaatur? Christur sveitest Bloodenu, fyrer vorar Synder, enn vier, fyrer hinar somu, er þo hafa Gud krossfestann, vier

vier fellum ecke eitt Taar af Augum vorum. Ecke einungis hanns Augu gretu, helldur allur hanns blessadur Lijkame floode i Taarum ; Enn oss kemur ecke til Hugar, ad wtausa beiskum Taara-Floode sannrar Ydrunar af Hiarta voru, þegar hanns Kvøl i Grasgardenum verdur oss fyrer Augum afmaalud. Vorar Synder voru so sterkar, ad þær gaatu pressad Blooded wt af hanns Hollde; Er þaa Minning DRottenns Dauda ecke so sterk hiaa oss, ad hann faae einn Vatns Dropa af Augum vorum? Valla eru Hiortu vor mykre enn einn Klettur, þvi Moses feck þo Vatn wt af Biargenu, er hañ sloo Sprotanum þar aa, enn Guds Ord, sem er bitrara enn tvijeggiad Sverd, þad vinnur nærsta lijted aa Gedsmune sumra Manna. Eg grraatbæne ydur þo, fyrer Guds og vorrar Velferdar Saker: Hugleidum þau Ord, er skrifar St. Paall: Ad Jorden, hver ed inndreckur Regned sem yfir hana fellur, hun bere Þyrna og Þystla, hver-ier Bolvanenne eru nalæger, og þeirra Endalok eru ad uppbreñast, Ebr.6. So eru og ydrunarlaus Hiortu, sem med heilnæmu Regne JEsu Bloods-Sveita eru aadreifd, enn skipast þo ecke þar vid, þau munu ecke laangt fraa eilijfre Fordæmingu, og hinum saara Kvalanna Ellde, sem ecke slocknar, hvers Reikur uppstijga mun um Allder Allda. Hugsum til þess, ad saa Dagur kemur, þad vier skulum og so þreyta vid

Daud-

Daudann, hver ed vard Gude Odaudlegum so hardur, ad hann striidde vid hann, og took ækaflega ad bidia, ad Daudañs Skaal mætte fraa sier takast; Hvad beiskur mun hann þaa verda þier, sem valla annad giörer, enn ad vinna til Daudañs? Nema þu hafer ædur so bwed þig i Alvæpne Guds, ad hann vilie veita þier Lid, sem Daudann hefur uppsvelgt, hver ad er Helviites Drepsoott, og Daudañs Daude, og þu voger i þiinu Dauda Striide ad segia med Paulo, fulloruggur i Gude Heilsugiafara þiinum: Daude, hvar er þinn Broddur? Helviite, hvar er þinn Sigur? Gud er saa oss hefur Sigurenn gefed, fyrer Son sinn JEsum Christum. So ad lifa, og so ad deya, unn þu oss, goode Gud, eiliife Konungur Diirdarennar, fyrer hann sama þinn eingetenn Son, Amen.



## Aunnur.

# Midvikudags Predikun i Føstu.

## Textenn.

OG jafnsnart sem hann var enn ad tala um þetta, sia, einn af þeim Toolf, sem Judas hiet, þaa er hann

hañ hafde nu til sijn tekeð, Flock Mãña og Penara Kennemaña Hoͤfdingiãña og Phariseanna, kom hann þanngað og með hønum Flockur mikell, með Blysum, Lømpum, Sverdum, Staungum og Vopnum, wtsender af Kennemañna Hoͤfdingium, Skriftlærdum og Olldungum; Og hann geck fyrer þeim.

Sem JEsus visse nu allt hvað yfir hann atte að koma, geck hann frañ, og sagde til þeirra: Að hverium leiteð þier? Þeir svørudu hønum: Að JEsu af Nazareth. JEsus sagde til þeirra: Eg em hann. Enn Judas, sa eð sveik hann, stood eiñneñ hia þeim. Enn sem JEsus sagde til þeirra: Eg em hann Hoͤrfuðu þeir Bak aptur, og duttu til Jardar. Hañ spurde þa eñ einusinne: Að hverium leiteð þier? Eñ þeir søgðu: Að JEsu af Nazareth. JEsus svarade: Eg sagda yður það: Eg em hañ. Þar fyrer, ef þier leiteð að mier, þa læteð þessa i burt fara. So að uppfyllteſt það Orð, hvað hann hafde sagt: Að eingum glatade eg, af þeim, sem þu gafst mier. (Joh. 17.)

Enn

Enn Svikaren̄ hafde gefed þeim sameiginlegt Teikn, og sagt: Hvern heldst eg kysse, sa er þad, griiped hann, og leidid i burtu vareigdarlega. Og þa han̄ kom, nalgadest hann JEsum, ad hann kysste hann, og jafnsnart geck hann til hanns, og sagde: Heill siertu Rabbi! Rabbi! og kysste hann. Enn JEsus sagde til han̄s: Vinur, hvar fyrer ertu komenn? Juda, sviikur þu Mannsins Son med Kosse? Pa gengu þeir þangad, og løgdu siinar Hendur a JEsum, og gripu hann. Enn þa ed þeir sem hia honum voru, sau hvad verda vilde, søgdu þeir til hanns: HErra, skulum vier sla med Sverde? Og sia, ad ein̄ af þeim, sem med JEsu voru og þar stoodu, Simon Petur, hafde eitt Sverd, rette wt Høndena, og rickte þvi, og sloo til Presta Høfdingianns Þenara, og hioo af honum hanns hid hægra Eyra: Og sa Þenare hiet Malchus.

Enn JEsus svarade og sagde: Leifed þeim ad giøra enn frekar; Og sagde til Peturs: Sticktu þiinu Sverde i Sliidrer; Þviad, hver ad Sverded tekur, sa

mun

minn fyrer Sverde saraſt. Eda meinar þu, ad eg kunne ecke nu ad bidia minn Fødur, þad hann sende mier meir enn Toolf Legion Englä? Skal eg ecke drecka þann Kaleik, hvern ed minn Fader hefur mier gefed? Enn hvernenn ſkyldu þaa Ritningarnar uppfylldar verda? Þvi þad hlijtur ſo ad ſkie. Og hann athrærde hañs Eyra, og læknade hann.

A þeim Tijma ſvarade JEſus og ſagde til Foolkſins, og þeirra Preſta-Høfdingia, og Høfuds Manna Muſtereſins og Olldungaña, ſem til hañs voru komner: Þier erud, ſo ſem til annars Ræningia, wtgengner med Sverdum og Staungum ad grijpa mig. Daglega hefe eg hiaa ydur vered, ſeted og kennt i Muſterenu, og þier hafed eingar Hendur aa mig lagt, og ecke griped mig; Helldur er þetta ydar Tijme og Magt Myrkranna, ſo ad Ritningarnar uppfylldust. Enn allt þetta er ſked, ſo ad uppfylleſt Ritningar Spaamañaña. Þaa forletu hañ aller Læreſveinarner, og flydu. Og þar var einn wngur Mann, ſaa ed hønum epter fylgde, hañ var med Lijne klædd-

klæddur yfir bert Hørund. Og Ungmeñe
gripu hañ; Enn hañ snarade Lijn-Klæ-
denu, og flyde nakenn i burt frá þeim.

## Exordium.

I Fyrre Samuelis Bookar 28. Cap. lesum vier, ad þegar Saul Konungur foor til Fretta vid Galdra Konuna i Endor, þa hafi hun sagdt: Eg sie Gudena uppstijga af Jørduñe; Og er Saul spurde ad, hvernig hønum hättad være, svarade hun: Ad þad være Madur nockur aldradur i sijdum Stacke. Malmureñ er Gud Veraldar þessarar, hañ er af Jørduñe uppstijgeñ, þvi sijdañ ad Mañkyned ecke vilde nægiast med þad, sem ai heñe ver og foostrast oss til Næringar af Gude gefid, þa hafa Menn grafist i Yður hennar, til ad leita epter meire Giæfu, sem þo mørgum hefur ad Ogiæfu orded: Þadañ er komed Gull og Silfur, af hvøriu sumer Meñ steypa Baal, so sem ORottenn ad Orde kemst fyrer Muñ Spamañsins: Þad skedur, þegar Meñ leggia meire Trwnad a þeñañ þietta Leyr, heldur eñ hiñ lifanda Gud, sem bæde hañ og alla Verøldena skapad hefur. Ecke veit eg til þess, ad Samuel hafi Keñemadur vered, so ad Meñ kuñe þar fyrer ad segia, ad hann hafi byrtst Konu-þessare i Aarons Skrwda. Spamadur var hañ og Doomare i Israel. Post. G. B. 13. Hitt er vijst, ad hann hefur audþecktur vered af Bwningе sijnum, þvi Saul kannadest strax vid, ad hañ være þad, þegar Konan sagde hønum frá Syn sinne, hafe hun þo nockurn sied, sem Kouungurenn sa ecke sialfur, og þetta hafe ei alleina vered Prettur heñar, til ad villa hañ raadlausann Mann, og af Gude forlaatenn. Enn hvernig sem þvi er vared, þa er eg viss þar um, ad ecke hefur Gud gefed Fiandanum Magt yfir Lijkama Sa-


muelis,

mucliß, heldur hefur þetta vered Apa-Spil Satans, og Mißsyningar einar; Og hlijder þar vel uppá, þad sem Paulus skrifar, 2.Cor.11. er hañ talar um falska Postula, og seger: Ad Satan nūmindest i Liossens Enge., þvi sie þad ei ad undra, þvott hañs Þienarar breite sier, so sem være þeir Þionar Rettlætesins. Tvo Hlute brwkar Andskotenn sier i Lage til þessa, sem er, Fie og Flærdskapur: Hañ steyper fyrst eitt God af Silfre og Gulle, og sijdann bijr hañ þad i Skart med Samuelis Kyrtle; So kalla eg flærada Vinattu, og Skyn Heilagleikañs. Fyrer þvi er Guds Børnum vandfared, ad ei laite þau sig locka af þvilijku Tale, til ad syndga, og styggia Gud. Optlega hefur Diøfullenn þenna Prett i frame hast, enn þo hefur hann synt Meistara-Stycke sitt ad Sløtunarennar Syne Juda, sem med øllum Rette kallast mæ Høfdinge Fals-Postulanna, og þeirra Forgaungu-Madur; Þvi skømu epter þad, ad Diøfullenn hafde giørt einn Afgud i hañs Hiarta, wr þeim Priatyger Silfur-Peningum, er hann took af Kennemaña-Høfdinginum, til ad svijkia sinn HErra, þa gaf hañ hønum fagrann Kyrtel, þad er, Blijdskapar Ord og Liwfmæle, til ad fullgiøra sitt Verk, so sem framar muñ sagt verda, i Textañs Utleggingu; Af hvørium vier vilium Tvennt hugleida: 1. Hvad vier eigum af Svikarañs Dæme ad fordast. 2. Hvad vier eigum af Frelsarañs Hoogværdar Andsvare ad læra. Bw þu sialfur i þijnu Orde, O Drottenn minn, og lát eingañ so kyssa þad i Dag med siinum Eyrum, sem Judas þig kyste med siinum flæradum Muñe. Bænheyr þad, O Herra! fyrer þijna Forþienustu, Amen.

## Utleggingen.

Hvad hinu Fyrra vidvijkur, þa hofum vier Tvennt ad varast af Dæme Judæ, sem er, Agyrne og Flærdskapur. Hañs Agyrne

Ægyrne fiaum vier af þvi, ad hañ selde HErra sinn fyrer 30. Silfur-Peninga, og hefur Svikare þesse hverium Mamons Þræl heimskare vered, þar hañ selde hann, sem allt Gull og Silfur ꝏ, og øll Eudemørk Jardarennar, fyrer 30. Silfur-Peninga, hann er situr og bræder og Silfred hreinsar, fyrer so lijted Silfur, og hid saklausa LambGuds, med hvers dijrmætu Blode øll Verolden er endurkeypt, fyrer so litla Femune. Priatyger Silfur Peningar voru almennelegar Þræls Bætur, epter Løgmaleinu, 2.Mos. 21. Og þo Utlendings, og ecke hinns Innlenda. Fyrer so smaanarlegt Lijtelræde, er Konungur Himeñs og Jardar seldur, af einum gudlausum Ødygda Þræl; Og hefur hann blessadur i þvi hvad mest audsynt, ad hañ hafe audvirdt siaalfann sig, ad Þræls Mind ꝏ sig tekenne, Phil. 2. þar Frelsare allra Manna, er, þo ecke so sem friaals Madur, heldur so sem ꝏnaudugur, i burtu seldur. O HErra! Hvar fyrer ertu so mijnkunarlega seldur? Ad vier ei yrdum Kvølurunum ofurselder. Hvar fyrer ert þu so sem einn Þræll keyptur? So þu keypter oss eilijft Vellde ꝏ Himnum uppe. Hvar fyrer ert þu fyrer soddann Lijtelræde seldur? So ad Guds Blood, sem i einne Þijons Mind var lijtels meted, þad yrde þess dijrmætara fyrer Gude. Enn giæte þess christner Meññ, ad eingann af þeim hende neitt, þad er ꝏ nockurn

Heatt sambiooda mege edur lijkiast þessu Meist-ara-Sticke Andskotans, þar vier høfum slijkann Vidbiood œ þessu Dœme. Hvad giora þa aller þeir, ed lœta Oleifilega Aura Elsku, Agyrnd og Fesynkne, draga sig frœ þeim Kiærleika, sem er i Christo JEsu? Hafa þeir ecke ad nockru Leite med Juda selt sinn Herra? Vel talar Paulus hier um̃, er hann seger: Ad þeir ed Rijker vilie verda, falle i Diøfulsins Snørur; Enn hvad er annad ad vera fastur i hans̃ Snøru, enn ad hafa seldt, þad er, yfirgefed Christum? Sicœum hvad nœkvœmlega Andskoten̄ foor ad veida Judam: Ei hefur hann rœded hønum i fyrstu, ad selia DRottenn fyrer Peninga, heldur skoted hønum i Brioost Or Sierplœgnennar, ad han̄ skylde plocka nockud af þvi, sem Christo og han̄s Lœresveinum lagdest til Uppheldis, þvi seger Johannes, Cap. 12. ad hann hafe Þioofur ver-ed, og bored Fe-Pyngiuna. So leikur Diøf-ullenn vid þœ, sem giarner eru œ Fie: Hann telur þeim þessar Tolur: Þoott eg gyrnest þetta, þad er eckert Stoorrœde, ecke Þioofnadur nock-ur, hier af mœ eingenn stoorann Skada bijda, margur hefur meira i rœdest, og hefur ei til Rœnglœtis reiknad vered: Eg vil ad eins sicœ mig vid þeim stœrre Glœpunum, sem adrer fremia. Enn þu heimskur Madur, þu giæter ecke ad þvi, ad œdur enn Gollturenn vard so stoor, ad hann giørdest Mann-skiædur, þœ var

hann

hann wngur Grijs, og madur enn einn myrdte Mann til Fiaar, þa skal hañ Saudnum. Andskotenn lædest inn i Syndaranns Hiarta, eins og Þurfa-Madur, enn nær hann er innkomeñ, setur hann sig i Boonda Sæted, og rædur slijku er hann vill, og giorer Salomonis Svipur ad Roboams Hoggormum, þar til hann drottnar i Syndenne, enn Synden i þess auma Manns daudlegum Lijkama. Nu þar ed Judas meinte, ad Lausnarenn, sem visse alla Hlute, hann munde sia i gegnum Fijngur vid sig, og lijda so Tijma Ovitskuunar, þvott hañ smaa-stæle, þaa giordest hann diarfur i Heimskunne, hvar fyrer hann reiddest Mariu, er hun smurde Fætur Christi med dijrmætu Salve, þaa gat hinn bolvade Agyrndar Ormur ecke þolad vid, og giægdest wt med Hofdenu, er hann sagde: Hvar fyrer voru ei Smyrsle þesse seld fyrer 300. Peninga, og gefed Faatækum? Joh. 12. Eigesagde hann þad af þvi, seger Johannes, ad hañ hyrdte uñ Faatæka, heldur sokum þess ad hann var Þioofur. Og allra sijdarst lagde Dioføllenn hier Smids-Hogged aa Ohæfuna, og synde þad, ad hann være med ollu i hann farenn, þar hann kom honum til ad selia sinn eigeñ Herra. Þañenn er nu Synden, hver ad er Andskotanns Dootter: Hun er eitt frioofsamt Kvikende, þvi nær hun fædest, gengur hun þwngud med adra, hun hætter ei þar sem hun byriar, heldur getur

af sier einn vondañ Innblaastur, Innblaasturen Sambycke Viliañs, Viliann Giorningenn, af Giorningenum framkemur Uggleysed, af Uggleysenu Forherdingen, af Forherdingunne Orvæntingen, af Orvæntingunne eilijf Helvijtis Pijna, sem er Verdlaun allra Ogudlegra um Allder Allda, med Dioflenum og hanns Arum, i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Breñesteine. Þetta vottar Jacob, i sijns Pistels Cap. 1. med færre Ordum, segiande: Sierhver verdur freistadur, nær hann tilteigest af sinne eigenn Gyrnd, og lockadur verdur; Og sijdann þad Gyrnden hefur geted, fæder hun Syndena, eñ nær Synden er fullkomnud, fæder hun Daudañ. Þar fyrer skyldu christner Menn siaa til, ad þeir kefie hina fyrstu Neysta Agyrnennar, so ad Guds Hws, sem er vort Hiarta, brenne ei til kaldra Kola. Þannig byriar ad skioota Dreka Unganu i Bælenu, aadur hann verdur fleygur, og slijta Hoggormenn, þad er Diofuleñ, wr Barme sijnum, aadur enn hañ styngur til Hiartans. Vel sie þeim, er so kunna ad taka Babylons Smaa-Born, aa medann þau hraa-blaut eru, og slaa þeirra Hofde nidur vid Stein, Ps. 137. Þvi hvad gagnar þad Mannenum, ad hann eignest allann Heim þenna, og lijde so Topun aa Saalu sinne, seger Frelsarenn. Matth. 16.

I odru Lage heyrum vier af Historiuñe: Ad Judas, þaa hann hafde til sijn teked, Flock Manna,

Manna, og Pioonustu-Menn Biskupanna, Phariſæaña, Ølldungaña og þeirra Skriftlærdu, þaa hafe hann viked ad JEſu, kyſst hann og ſagt: Heill vertu Meiſtare. Þetta er hin meſta Ohæfa, er Dioſulleñ framed hefur i ſyndugu Hollde. Margur hefur Vine og Frændur af Dogum rææded: Nero liet fyrerkoma Moodur ſinne: Abſalon offookte Fodur ſinn: Joab ſveik ſinn Vin: Cain vo Broodur ſinn; Enn ad brugga Svikræde ſijnum Gude og Skapara, þad eru Fœdæme Satans, þar ed einn ſyndugur Ormur forrædur þann, ſem er hauns Fader fyrer Skøpunena, hanns HErra fyrer Verudena, hanns Brooder fyrer Manndooms-Tekninguna, hanns Heilſugiafare fyrer Endurlauſnena, hañs Meiſtare fyrer Uppfrædinguna, hanns Doomare fyrer Urſkurd Verdlaunanna. Hann ſem Mann vegur, hann er Manndræpare: Hann ſem myrder, hann er Mordinge: Hann ed ſinn Herra forrædur, Drotteuns-Svikare: Hann ſem Frændur edur Vine af Lijfe tekur, hann er Nijdingur kalladur; Enn hveriu Nafne ſkal eg hann þaa nefna, ſem rædſt a moote DRottne Gude ſijnum, fyrer hvers Skuld, vier ecke alleina ſkylduger erum Fødur og Moodur ad yfirgefa, helldur og einnenn Lijfed ad laata, ef hann þad bijdur. ?

Nu veit eg, mijner Elſkuleger, ad þar er eingenn af ydur, ſem ecke i Hiarta ſijnu fordæme

Svikarann Judas; Enn giætum þess, ad nu er Christur ad synelegum Vistum fra oss vikeñ, og situr til Kraptareñs hægre Handar, so eingenn mannlegur Kraptur, og ecke sialfur Andskotenn, fær honum Mein unned; Enn ei ad siidur er hann oss a margann Hatt nalægur. Paulus seger: Eph. 5. Ad Christur sie Safnadareñs Hofud; Hygge þar ad aller þeir, ed heita vilia hañs Limer. Judas kysste Hofuded med flaradum Kosse; Siaum til, Limerner, ad vier ei þannig innbyrdes kyssunst, þvi hver ed JEsu Lime falsklega kysser, hann kysser hañs andlegañ Lijkama, sem er hin christelega Kyrkia. Guds Born, a fyrstu Dogum Christnennar, hofdu þa Veniu, ad nær þeir hieldu siinar Agapas, edur Kiærleiks Samkomur, þa kysste hver annañ med heilogum Kosse, um hvern Paulus talar, 1.Cor. 15. hvers og Petur miñest, er hann seger: Heilsed hver odrum med Kiærleikañs Kosse. 1.Pet. 5. Þadañ er enn nu i Dag sw Venia medal vor, ad vier mynnunst hver vid annann, adur enn vier etum Guds Lijkama og dreckum hanns Blood, i H. Kvoldmaaltijd DRottenns. Þesse Sidur christenna Manna ætte ad miña oss a brooδurlegañ Kiærleika innbyrdes; Enn Gud nade oss Syndarana! Ad valla mun af þvi veita a Stundum, þegar vier gaungum til HErrañs Altaris, til ad fridmælast vid Gud i helgum Stad, ad sumer

er af oss hafe þœ vel þurkad allt Flœttskapar Kœm af Vorum Hiarta siins, og er þœ nærsta hætt vid, ad þeim verde hid sama og Judœ, ad biooda JEsu falskann Koss. A Jerusalems Mustere var eitt Port, inn um hvert ad gengu ydrande Manneskiur, med huldum Vorum; Hvad oss minner þar œ, ad JEsus er þær Dyrnar, um hveriar vier, sem støndum rauder af Ovirdingu, fyrer Hœdungar vors Ungdooms, eins og Ephraim, vier eigum ad gœnga inn i Jerusalem fyrer Gud, til ad offra vorre Gœfu fyrer Altarenu; Enn þad er ei meir enn skyldugt, ad vier œ medann hylium Varer vorar, med hverium kannskie margur hefur tijdt boded siijnum Nœunga flœrœdann Koss, og hvatt Tœngu siina, eins og Høggormur, og smurt Varer siinar med Nødru Galle. Ps. 140. Eg vil ei um þœ tala, sem med heiptræku Gede mynnast vid Holld og Blood DRottenns, og ætla þo ad sier mune i þeim heilaga Stad uppgefen verda þau Tiju Þusund Punda, um hver þeir eru hinum rettlœta Dijrdarennar Konunge skylduger; Enn ecke vilia þeir uppgefa siijnum Samþioon, þœ Hundrad Peninga, er þeir œttu honum ad lwka. Um Joseph, hvern hanns Brædur seldu i Þrældoom, ei Oliijkt og Judas sinn HErra, um hann stendur skrifad, 1. Mos. 45. ad hañ hafe falled um Hœls þeirra, og kysst þa med grœtande Tœrum; Gud giæfi, ad all-

aller þeir, er sig Christna nefna, væru eins lynd- er, og sæ Guds Madur var, i þvi, ad fyrer- gefa hver ødrum wt af Hiarta sijnar Misgiørd- er, þvi annars mun vor himneskur Fader ei til- gefa oss vorar Synder. Matth. 6. Eg vil spyria: Hvad skilur Judam, er kysste JEsum, og sagde: Heill vertu Rabbi; Enn droo þo epter sier Flock Manna, med Sverdum og Staungum, til ad grijpa hann? Hvad skilur hann, sege eg, og þæ, sem stadder i heiløgum Stad, segia: HErra! HErra! Forlæt mier Synder mijnar; Eñ i þeim sama Munne, med hverium þeir JEsu Lijkama og Blood medtaka, þæ geymer hann, ecke Joabs, heldur Jessabels Sverd, og hann er nockurskonar Orvamæler, fullur af Mord-Pijlum, til ad skioota ad sijnum Næunga, þegar honum Fære gefst?

Þad var Sidvane Gydinga, ad þa þeir sææu æleingdar nockurt Gøfugmenne, og gæætu ei til hanns næd ad kyssa hañs Hond, epter þvi sem Sidur var til, þæ kysstu þeir sijnar eigenn, og veittu honum Lotning þar med. Þetta minner mig æ, ad vier støndum fiærre vorum Lausnara, so sem hiner Lijkþrææu i gamla Testamentenu: Vier erum hææser eins og þeir, so vier getum ecke Gud ækallad so sem ber: Vorar Synder ad- skilia millum hanns og vor, og vier støndum længt fræ med Tollheimtu-Mannenum, og þor- um ei upp ad lypta vorum Augum til Himens, þvi

Þvi vier hofum styggt hañ sem i Himnenum byr; Enn ei ad sijdur vilium vier kyssa vorar eigenn Hendur, þad er, Lime þess Lijkama, hvers Liner vier erum, og vera ei afundner þeim sem oss bidia, edur þeim sem vid oss misgiora, og under eins beria oss á Briostt, med vorum eigenn Hondum, segiande: Gud vertu mier syndugum lijknsamur. Þannig byriar ad leita ad JEsu, med einum Audmyktar og Kiærleiks Kosse, enn ei so sem Judas og hanns Forunepte, med Lyktum og Logbrondum. Gydingar leitudu Drottenns med Lyktum og Blisum, ad eige meiddu þeir uñ Nætur-Tijmann Fætur sijna á Steinunum, eda fiellu i Grifiur; Enn þeir giættu þess ecke, ad þeir steittu allt of fast á þeim Hyrningar-Steinenum, uñ hvern talad verdur, Es. 28. og fiellu þess vegna i Grifiu þá, hvar eckert Vatn er inne. Enn þu skalt ei so leita ad JEsu, christen Sála, heldur med Angre og Trega Hiarta þijns: Eige med Lyktum, heldur med hiartgroonne Elsku: Eige med Logbrondum, heldur med einum Hor-Kveik sannrar Trwar; Sie hann Log-lijtell, þá vill hann þo ei slocka hann: Eige med Sverdum og Staungum, heldur med brákudum Reir Vonarennar; Sie hann veikur, þá er hann samt i þijnum Veikleika máttugur. Hann talade einasta eitt Ord, segiande: Eg em hañ, og þo fiellu hinar vopnudu Hetiurnar á Bak aptur; Hinum somu Ord-

Ordum mun hann til þijn tala, nær þier mest liggur. Bloſtre þier Synder þijnar, þa muntu heyra: Eg em hann, sem afplaana allar þijnar Synder, og afmæe þijnar Misgiørder. Ef Mootlæted kremur þig, so ad þu valla edur ei þykest meiga under rijsa, og þu kallar til hanns i Neydenne, þa svarar hann þier: Ottast ecke, þvi: Eg em hann, sem er trwr, og freista einkis yfir Megn fram, og gef Freistingunne þann Enda, ad þu fær vel stadest. Ofbioode þier Guds Reide, þa seger þinn Frelsare: Eg em hann, sem Gud hefur þinna vegna straffad: Eg em Bølvan ordenn þinna vegna, so þu yrder Blessan Guds i mier: Hegningen hefur a mier leiged, uppa þad þu hefder Fridenn: Mun Fader minn himneskur taka Giøld af bаadum ockur fyrer Syndena? Siert þu Trwar-veikur, þa seger hann: Laat þier nægiast mijna Naad, þvi: Eg em hann, hvers Kraptur ad fullkomnast i Breiskleikanum. Kvijder þu vid Daudanum, af þvi þu hefur illa lifad, þa mun hann senda sinn gooda Anda i Hiarta þitt, til ad dreypa a Saalu þijna, i hinum sijdurstu Andarslitrum, af þessum Kaleik: Vertu hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergefnar, þvi: Eg em hañ, sem þad hefe afrekad i minne Kvøl, med mijnum Dauda, ad hver sem trwer a mig, hañ skal lifa, þoott hañ deye. Honum sie Lof og Dijrd ad Eilijfu, Amen.

Og er þad nu so wt-talad um̃ hid Fyrra.

Vier vilium med søam Ordum yfirvega hid Siidara. Vinur, hvar til komstu hijngad, seger Endurlausnareñ; Af hvørre Spurningu Þijns Frelsara, Þier ætte fyrst til Hugar ad koma, Guds Barn, hin Oum̃rædelega Hoogværd og Þoleñmæde Guds eingeteñs Sonar. Hversu smæanarlega ad Judas hafde breitt, Þad høfum vier heyrt til forna, og hvad sæart Þad mune hafa ruñed DRottne til Rifia, ofañ æ alla adra hañs Kvøl og Angist, ad hañ sviekeñ var af siinum eigeñ Lærefveine, Þvi mææ hvør einn nærre geta, sem nockra Tilfinning hefur i siinu Hiarta; Eñ i øllu Þessu er JEsu guddoomlega Hoogværd hin sama, og hañ talar ecke eitt Styggdar-Yrde vid Þeña Skæalk. Hvør kañ nu med Hiartanu ad i-minda sier, læangt siidur med Ordum wt ad skijra, so Oum̃rædelega Gedsgiædsku! Margur Þikest giøra vel, ad hann Þeger vid Ovin siinum, og virder hañ ei Vidtals. *Fabio Maximo* er hroosad fyrer Þad, ad hañ Þagde eins og Fiskur, Þegar hann æakiærdur var af Romverium fyrer siin mørgu Afreks-Verk. *Socrates* er og viidfrægur, fyrer hañs Hoogværd, Þar hañ ecke lauk upp Muñe siinum, Þegar hañs eigeñ Kviña giørde hønum Þwngar Aræsir. Lijklegt er, ad søddañ Meñ hafi Þagad i Mootgæange siinum Þess vegna, ad Þeir hafi ei Þokst geta hañ med Ord-

um wtmœlad, edur og dreped Reidena med sier ad hun ei giorde Twnguna Ostoduga. JEsus þeger ecke vid Juda, heldur talar til hañs med Hœglæte: Hañ er ecke einasta i Þaunkunum hoogvær, heldur syner hañ Gnægd Hiartans med Muñenum: Ecke þeger hañ vid hinum gudlausa Svikara, heldur œmiñer hañ med hoogværum Anda. Þad hefur sked, ad þegar einum Konunge hefur byrlud vered nockurskonar Olyfian, og þeir hafa þess œskynia orded, ad þeir hafa lœated hiñ sama afdrecka, sem œskeinkte. Hver kañ i moote ad mæla, ad þad sie rettviist i allañ Mœata? Hvad skulum vier hier til segia? Kuña nockud veraldleger Konungar ad hafa soddañ Rett yfir Þegnum sijnum, so sem Jesus hafde yfir Juda? Kañ Madur Mañe so rettviislega ad reidast, so sem Gud Mañenum? Kañ ein Skepna añare Skepnu so undergefiñ ad vera, so sem Skepnan Skaparanum? Kañ eiñ Syndugur so stoorlega œ moote ødrum Syndugum ad brioota, eins og Syndareñ moote Gude? Hveriu er þa lijk sw Owtsegiannlega Þoleñmœden, ad JEsus brwkar ecke siñ Rett vid Judam? Judas var fremstur i Flocke ad byrla honum þañ swra Kaleik, sem hañ grœatande beidde, ad mætte frœ sier takast, og mœatte þo ecke bœnheyrdur verda, hañ, i hvors Nafne allar Guds Barna Bæner eru þo Jœ og Amen. Miñ Herra, hvad miklu verdugre var hiñ flær=

dorfulle Svikarans Munnur, ad afdrecka þeñan hin banvæna Kaleik, heldur eñ þijnar blessudu Varer, a hveriar Naaden er wthellt? Hvad hægt var þier ad læta Jordena opnast og svelgia Skalken, eins og Chore, Datan og Abiram? Þad var Furda, ad hun skylde taka vid þijnum blooduga Sveita; Eñ þola ad slijkur Dioful Sonur skylde standa a Jordunne: Hvad lijted kostade þig ad læta Lijkþraa uppeta hans Hold, eins og Mariu? Hvar var nu þijn Vandlæting, sem eydde Sodoma og Gomorra med Ellde, hver ed sloo Egyptaland med Plaagum, og dreckte Pharaoni og hans Lide, sem kiest uppvisna Jeroboams Hond, a moote Guds Mañe wtretta, sem uppbrende þa tveña 50. Meñ Ahasiæ Konungs og þeirra Hofdingia, sem umsnerer Nebuchadnezar i Villudijr, þu, er sloost Giezi med Lijkþraa, sem lietst Hundana sleikia Achabs Blood a Naboths Akre, og drapst Usa, er hañ snerte DRottenns Ork af Gaaleysi? Eñ hañ, er mynnest vid þig med folskum Kosse, sem ert hin saña Guds Ork, hann lietstu heilañ standa: Fyrer adra vandlætter þu, O Herra! Eñ fyrer sialfañ þig villder þu i þetta Sinn ecke vandlæta. Hier mætte eiñ syndugur Ormur skamast sijn, sem er giarn a Reide, hvers Bræde er þyngre eñ Sandur, og þryngbærare eñ Kletturen, hver æfvalt hefur þau Ord i Muñe: So sem hañ hefur giort mier, so vil eg

giora

giora hønum, og gialda lijku lijkt.

Þu aumur Madur, sem ei kañt upp ad reikna hvad opt þu syndgar: Ef nockur giorer Orett þijnu Hwse, hvad gott hefur þu þar af, ad þu hlauper til þinna Mord=Vopna med Levi og Simeon? Ef einn virder þig ecke, so sem þier synest þinn uppblæsenn Rodru=Belgur skiled eiga, þa fylleſt þu af Reide, eins og Haman, og ert ecke sættur med eins Høfud. Ef þinn Yfir=Madur talar þier nockud nær, enn þinn Eyrna=Klæde bijdur, þa virder þu ecke fyrer þier, ad giora so sem Abner vid Isbozet. Vilie nockur forsvara Sakleyse sitt, moote þijnum raungum Aburde og illum Aaustre, munder þu þa ei læta kasta hønum i Fiotur, eins og Zedechiæ Kounungs Høfdingiar vid Jeremiam breittu, ef þad stæde i þijnu Valde? Gange nockrum vel, muntu lijta rettara Auga til hañs, eñ Saul til Davids? Vilie nockur Dad og Dugnad fremia, hvad fliootur verdur Eliab til ad smæna David i Ordum? Sie nockur Gude og Moñum þeckur, hvad snart rijs Cain upp, og slær sinn Broodur i Hel, ef ecke med Sverde, þa med banvænne Twngu? Talar eiñ Guds Erende, hvad fliott bitna Balachs Raser a moote Bileam? Mun ecke hiñ heimske Asa Konungur brenna af Reide vid Siaandans Atolur? Ef Rabot vill ei standa af sijnum Vijngarde og sinne Fodurleifd, þa verdur Achab siwkur af Heipt. Vill nockur

for=

forsvara siñ Broodur, þa hlijfest Sauls Reide ecke vid Son siñ Jonathan. Hefur nockur umsfiwed Viel og Prette hiñs Hreckviijsa, þaa tekur Herodes Stefnuna af Smaa-Bornunum. Ef hinum aagiarna Bloot-Mañe er Hindrun giord i hanns raangsinnum Fe-Drætte, þaa hleypur hann med Demetrio, og vill hafa Christs Penara af Dogum raaded. Sier nockur aumur aa einum Vesæling, sem villt hefur fared, þaa reidest hañs Brooder, og fæst meir uñ hiñ slaatrada Kaalf, eñ siñ Broodur aptur fundeñ. Hinn lijkþraae Naaman fær ei uñbored þad, ad Elisæus ei geck wt til hañs, og bad siñ Gud fyrer honum standande, so þar var skamt til, ad hañ munde fara aa mis vid Heilsu sijna, sokum Reidennar. Þu villt og kañskie þañig breita, sem wtvortes ert heilbrygdur, enn innann hvijtur af Lijkþraa, sem utann ert skynande, enn fullur allrar Obecktar hid innra, eins og daudra Manna Grafer, jaa, verre enn Thyestes, hver ed var Grof sinna eigenn Barna; Samt boolgnar þu upp af Hatre, ef nockur þier aa moote briitur, og veitst ecke nema þijn Reide þvi valde, ad þu hliooter ad deya i þinne Lijkþraa, og þo villtu eñ þaa christenn Madur heita, og JEsu Læresveiñ, sem ecke eitt Ofug-Yrde talade, aa moote þeim er hann sveik; Enn þad er ecke noog, ad vera Christi Læresveinn, eins og Judas var. Þar fyrer, vilie Reiden koma þier til ad stela Hefndenne

enne fra Gude, gete Stoorlæte þitt ecke þolad Sannleikann, ef Øfunden vill koma þier til ad umſitia ſaklauſt Blood, edur Skap þitt er a einhvern Hatt bwed til Hefndar, til ad giora Skada med Orde edur Verke; Þa lat ſem JEſus til þijn tale: Vinur, hvar til komſtu hijngad? Meinar þu ad þijn Reide verke Guds Rettlæte? Ert þu Chriſtenn, þa ert þu minn Læreſveinn; Ert þu minn Lærefveinn, þa munt þu af mier læra: Vilier þu af mier læra, þa lær ad vera hoogvær og af Hiarta lijtillatur, ſo ſem eg var, aſnars ert þu mijn ecke verdugur! Vilier þu fylgia mier epter inn i mijna Dijrd, þa fylg mier epter i minne Hoͤrmungu: Deil ecke mejr a Vege þinnar Saaluhialpar, vid þijna Brædur i Heimenum, enn eg deilde a Vegenum til minnar Pijnu, vid þan̄ er mig ſveik: Legg af Reide og Illgyrne, Col. 3. og lat ei Sool ena undergaanga yfir Reide þinne: Lat ei yfirſtiga þig hid Vonda, heldur yfirvinn þad Vonda med Goodu. Mijn er Hefnden, eg vil endurgialda. Ebr. 10. Hver hann Orett giorer, hann mun þad aptur medtaka, og nema þu fyrergefer wt af Hiarta þijnum Brooður hanns Misgiorder, þa mun minn himneſke Fader ecke tilgefa þier þijnar Synder. Jminda þier JEſum med þeſſu Tale, ſtandande fyrer Augum þier i Reide þinne, og munt þu ſkialdnar reidaſt Oſyrerſyniu.

Enn

Enn þu saklausa Guds-Lamb, sem ecke uppslaukst þijnum Munne, helldur enn einn Saudur til Slatrunar leiddur, þegar þier hallmælt var, þegar þu svikenn og af Dogum rædenn varst: Drep þu i oss þvotta Spillingareñar, enn lat oss þykia þad hina mestu Æru, ad lijkiast þier i Angistenne, i Ofsooknunum, i Forsmæneñe, so ad þegar vier erum veiker, þaa sieum vier mættuger, fyrer þig, sem oss mættuga giörer. Veit oss þad, goode JEsu, og styrk oss þar til med Krapte þijns Anda, Amen.



# Þ r i d i a
# Midvikudags Predikun
## i F ø s t u.

### T e r t e n n.



NN Flockurenn, og hiñ ypparste Høfuds-Madur, og Þenarar Gydingaña, gripu JEsum og bundu hañ, og leiddu hañ fyrst burt til Hannam, sa var Fader Konu Caiphæ, hver ed þa var þess Ars ædste Prestur. Og þeir burt leiddu Jesum fangeñ til Caipham Keñe-

maña Høfdingia; Eñ Caiphas var sa, sem Gydingum gaf þad Rad, ad betur være þad eiñ Madur dæe fyrer Foolked.

Og þeir innleiddu hann i Hws þess ypparsta Prests, þar ed med hønum aller Kennemaña Høfdingiar, Skriftlærder og Olldungar voru samannkomner. Enn Simon Petrus fylgde JEsu epter ælengdar, allt i Forstofu Kennemanna Høfdingiañs, og eiñ annar Læresveiñ, sa same Læresveinn var kuñugur Keñemanna Høfdingianum, og geck inn med JEsu i Forstofu Kennemaña Høfdingians, enn Petur stood þar wte fyrer Dyrunum. Þa geck wt sa annar Læresveinn, sem Kennemaña Høfdingianum var kunnugur, og talade vid Dyravørdslu Konuna, og leidde Petrum inn leingra i Forstofu Kennemanna Høfdingiañs. Og hañ geck inn, þviad Penararner høfdu Elld kveiktañ i midre Forstofunne, og setst til samañs; Eñ Petur sette sig a millum þeirra, og vermde sig vid Logañu, ad hann sæe hvør Ender þar a yrde. Enn Petur sat utar i Forstofunne, og þar hann var frambetur i

For-

Forstofunne, kom ein af Ambættum Kennemaña Høfdingiaña; Og þa hun leit Petrum sitia vid Logann og verma sig, leit hun til hanns og starde a hann, geck til haña, og sagde: Hvørt ert þu og einn af þess Manns Læresveinum? Og þu varst med JEsu þeim Galilæiska af Nazareth. Enn haň afneitade hønum fyrer øllum, segiande: Kona, ei er eg, eg þecke hann eige, og ei veit eg hvad þu seger; Og hann geck wt i Fordyred, og Hanenn gool. Eñ Prælarner og Þenararner stoodu, sem giørt høfdu Kola-Elld, og vermdu sig, þviad Kulde var; Petur stood þar hia þeim, og vermde sig.

Enn Kennemaña Høfdingeñ spurde JEsum þa ad, uñ haňs Læresveina og hanns Kenningu. Og JEsus svarade hønum: Eg hefe opennberlega talad i Heimenum: Eg hefe og med Jafnade kennt i Samkundu-Hwsum, og i Musterenu, þar ed Gydingar allstadar ad koma til samaňs, og eckert hef eg i Leynum talad: Hvad spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þa þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefe talad til þeirra; Sia þu, þeir

 hiner

þiner somu vita hvad eg hefe sagt. Eñ sem hañ talade þetta, þa gaf einn Þenaranna sem þar stood hia, hønum einn Kinn-Heſt, og ſagde: Skalltu ſo ſvara Biſkupenum? JEſus ſvarade: Hafe eg illa talad, þa bevijſa þad, ad þad ſie Orett; Enn hafi eg ſatt ſagt, hvar fyrer ſlær þu mig? Og Hannas ſende hann bundenn til Caiphan Kennemanna Høfdingia.

Eñ Ambatten, þar hun ſa Petrum, took hun aptur til ad ſegia þeim ſem þar hia ſtoodu: Þeſſe er eiñ af þeim. Enn ſem hañ geck wt uñ Dyrnar, leit hann eiñ ønnur Ambatt, og ſagde til þeirra ſem þar voru: Þeſſe var og med JEſu af Nazareth. Og litlu ſijdar þar epter ſa hann einn annar, og ſagde: Þu ert og einn af þeim. Og Simon Petrus ſtood þar og vermde ſig; Þa toludu þeir til hañs: Ertu af hañs Læreſveinum? Og i annad Sinn neitade Petur aptur med Eide, og ſagde: Madur, eige em eg, ecke þecke eg þann Mann.

Enn þeir ædſtu Preſtar, og Ølldungar, og allt Raded, leitudu Lijwgvitna i gegn

gegn JEsu, so ad þeir giæte hønum i Hel komed, og fundu ecke. Og þo marg-er Liwgvottar genge þar fram̄ ad, þa fundu þeir eckert; Þviad marger bæru Fals-Vitne i moote hønum, enn þeirra Vitnesburder voru ecke samhlioda. Enn ad sijdurstu stoodu upp og gengu fram̄ nockrer Tveir Fals-Vottar, og bæru Liwgvitne i moote hønum, og seg-du: Vier hofum heyrt hann segia: Eg kann og vil nidurbrioota þetta Mustere Guds, sem med Hondum er giort, og a Premur Døgum uppbyggia eitt annad, þad ei er med Høndum giort; Eñ þeirra Vitnesburder urdu enn þa ecke sam-hlioda. Sa ædste Prestur stood þa upp midt a millum þeirra, spurde JE-sum ad, og sagde til hanns: Svarar þu eingu? Hvad vitna þesser a moote þier? Enn JEsus þagde, og svarade eingu. Þa ansade enn aptur sa ædste Prestur, spurde hann ad, og sagde til hañs: Ertu Christur Sonur hinns Blessada? Eg sære þig vid lifanda Gud; ad þu seger oss, ef þu ert Christur Sonur Guds. JE-sus sagde til hañs: Þu sagder þad, eg

em; Enn þo ſege eg ydur: Hier epter munud þier ſiaa Mannſins Son ſitia til hægre Handar Kraptareñs, og koman-da i Skyum Himens. Þaa reif Kenne-manna Hoſdingenn ſijn Klæde i ſundur, og ſagde: Hañ gudlaſtar. Hvad þurf-um vier nu framar Vitnaña vid? Siaa, þier heyrdud nu ſiaalfer hañs Gudlaſtan. Hvad virdeſt ydur? Enn þeir fordæm-du hann aller, ſvøruduog ſøgdu: Hann er Daudanns ſekur.

Og litlum Tijma þar epter, nær eiñe Stundu, ſtyrkte nockur annar þad, og ſagde: Ad ſøñu var eg þeſſe med hønum, þvi hañ er einn Galilæare. Og aptur gengu þeir ad, er hiaa ſtoodu, og ſøgdu til Peturs: Sañarlega ert þu af þeim, þvlad þitt Twngumaal er ſamhlioода, og opennberar þig. Þaa ſagde einn af Kennemanna Hoſdingiañs Þenurum, Frænde þeſs ſem Petur hioo af Eyrad: Saa eg þig ecke i Grasgardenum med hønum? Þaa neitade Petur þvi enn aptur, og ſagde: Madur, eige veit eg hvad þu ſeger. Þaa took hañ til ad for-mæla ſier, og ſveria: Eige þecke eg þañ Mann;

Mann, um̃ hvern þier taled. Og jafnsnart er hañ nu talade enn framar, gool Hanenn i añad Sinn. Og DRottenn snere sier vid, og leit til Peturs; og Petur minnteſt Ordaña JEſu, er hañ hafde ſagt til hañs: Adur eñ Hanenn galar Tviſvar, muntu afneita mier Priſvar. Og hañ geck wt, og griet beiſklega.

Pa tooku nockrer ad ſpijta a hann, i hanns Aſioonu, og bordu hann med Knefum; Enn Þenararner, og þeir Menn, ſem hieldu JEſu, dærudu hañ og ſloou, og byrgdu hanns Aſioonu, og ſloou hañ med Knefum, ſpurdu hann, og ſøgdu: Spaa þu oſs, hver er ſa þig ſloo? Og margt annad hæduglegt ſøgdu þeir vid hann.

## Exordium.

PAD er Plagſidur goodra og vitugra Hers-Høfdingia, nær þeir draga wt i Heruad, ad þeir eggia Lid ſitt, og ſegia þeim fyrerfram̃, hvad mikell Haſke þeim bwen ſie, nema þeir berieſt vaſklega; Og ſo heita þeir øllum þeim Launum, ſem gooda Fram̃gaungu veita, eñ ſialfur er hann fremſtur i Flocke, ef vid þarf, ſo adrer fylge honum þeſs Otraudare a epter. Þannig hefur breitt hin mikla Hetia, DRottenn JEſus: Hann hefur ecke einaſta einſamall Wijn-Preſſuna troded, adur enn hann

 fram-

framburnade af Bozra i Edom, i skrautlegum Bwningę, Es. 63. Þad er, ad ur enn hann hroosade Sigre, yfir sijnum og allra þeirra Ovinum, sem honum vilia eptersylgia i Kvolenne og Fyrsmaunenne, so þeir meige med honum Hlutskipte taka i Sælunne og Dijrdenne; Heldur hefur hann þar ad auke sagt þeim fyrer, hverra Launa þeir mættu vænta sier; So seger hann: Matth. 5. Sæler erud þier, nær þeir lastmæla ydur og offækia, og tala i gegn ydur alla Vondsku fyrer mijnar Saker, þo liwgande; Fagned þier og vered glader, þviad ydar Verdkaup er nooglegt a Himnum. Stoor mа sw Sæla vera, sem Guds Bornum er bwen i Eilijfdenne, þar Mootlætingar þessara Tijma eru so lijtels verdar hia henne. Paulus, sem hier um vottar, hann ma, an Efa, hafa fenged nockurn Smeck af henne, þegar hann var upprícktur i hinn Þridia Himen, þar hann hiellt sijdann alla Hlute Þreck ad vera, hia þvi ad avinna Christum. Enn þoott ad Gud hafe ecke so giørt ollum Monnum sem Paulo, um hvern hid sama ma segia, so sem DRotten sagde vid Thomam fordum: Af þvi þu saust mig, Thoma, þa trwder þu; Þa skorter þo Gud enn nu ecke i Dag sijns Anda Krapt, til ad styrkia þa veiku Fæturnar, og hinar vanmattugu Hendurnar, þeirra sem ecke sia og trwa þo, til ad beriast med sijnum Hertoga JEsu, under hans Merkium. Þad ma vera einn daufur Christenn, sem ecke er so fullhuga, so sem einn Strijds-Madur, og þad er verra ad vera Gudlaus enn Ærulaus. Nu hleypur einn ravdvandur Strijds-Madur aldrei fra Merkenu, þvi hann veit þad er Skøm so mikel, ad hann sijdann verdur aldrei neinnar Æru verdur; Skyldu þa Christi Her-Menn vera so blauder, ad flya fra hinne føgru JEsu Blood-Fanu, under hveria þeir svarest hafa i Skijrnenne? Einn Fullhuge gengur oruggt fram i Bardaganum, af þvi hann veit hann mune heidradur verda og Giøfum sæmdur, og berst hann þo uppa hid O-

vissa, og slær ai stundum i Vedred, so sem Paulus ad Orde kemst; Enn þad giører ecke hiñ Christne: Hann getur aldrei Osigur hloted, ai medañ hann brwkar somu Strijds Adferd og hañs Hertoge, þvi þad sem hinum er hinn meste Skade, þad er þessum hinn mesta Abate, sem er: Forsmain, Bryxle og Haidungar Veraldareñar, og ad sijdurstu Daudeñ, hvern Guds Børn reikna sier fyrer Avinning med Paulo, þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke holdleg, 2. Cor. 10. so sem hann seger. J þeirre Grein af Pijslar-Søgu DRottenns, sem strax var upplesen, verdur oss synt: Hversu mikla Smaan, Bryxle og Vanvirdu, ad hañ hefur þolad vor vegna, af Kennevaldenu i Jerusalem, og Þrælum þeirra; Hvar um eg vil nu nockud framar tala, epter þvi sem Gudspialla-Mennerner hafa oss þad ritad epterlated, uppai þad eingenn skore sig undañ, ad lijda nockud þvilijkt Christi vegna, ef hønum kañ þad til Handa ad bera. Gef þu oss þinn H. Anda, DRotteñ minn, til ad framkvæma þetta Erende, sialfum þier til Lofs og Dijrdar, enn þinne Christne til Uppbyggingar, Amen.

## Utleggingen.

Menn þeir Menn sem hieldu JEsu, spottudu hann, seger i Textanum. Hver er þesse hin fæheyrda Mijnkun, DRotteñ minn, ad þeir blindu Hundar spotta þig, Konung Dijrdarennar? David seger, ad hann sem a Himnum situr, hæde ad þeim Ogudlegu; Enn hier sie eg, ad þeir Ogudlegu hæda ad honum, hvers Hæsæte ad er Himenenn, og Jorden Skør hanns Foota. Stoor var Fæsinna Hanons Ammonita Konungs fordum, er

David

David sende honum hina betstu Menn sijna, til ad hugga hann epter Lꜳt Fødur sijns, þar hañs Rꜳdgiafar komu honum til þeirrar Illmennsku, ad leggia þeim Hꜳdungar til, og senda þa aptur hædda og Spie-skorna til Davids, 2. Sam. 10. Enn þo var sw Vitfyrring øllu meire, ad Guds eiged Foolk skylde giøra Gis ad honum, er sendur var til fortapadra Sauda af Hwse Israels, til ad hugga þꜳ Sundurknosudu i Hiortum, epter Dauda sijns Fødur Adams, Rom. 5. i hverium ad doou aller hanns Epterkomendur. Hinn heimske Ammonita Konungur meinte, ad David hefde sendt sier Nioosnar-Menn fyrer Huggara, til ad ransaka Borg sijna, og um̃turna henne. So blies Diøfullenn Judum i Briooſt, ad JEsus komeñ være til ad uppleysa Løgmꜳled, hvers Erende þo var ad uppfylla þad: Ad um̃turna þeirra Setningum, hvers Embætte vär ad giøra sijns Fødurs Vilia. Rek burt Amꜳttena med Syne hennar, seger Ritningen, þvi Sønur Ambꜳttareñar skal ecke erfa med Syne hinnar Friꜳlsu; Hverneñ hefur þꜳ Israel broteſt inn i Ismaels Kyn, og er ordeñ einn Spottare lijkur hønum, yfirgefande sijna Kynſlood, enn hefur samlagad sig Diøfulsins Hyske, med Hædne og Spotte vid hiñ eingetna Son Guds, sem er Lioome hañs Dijrdar, og Mind hanns guddoomlegrar Persònu? Þetta hefur þu fyrer oss lided, minn HErra, sem

sem forþenad hefdum ad verda til Athlæturs, i Auglite Guds Utvaldra og heilagra Engla, um̄ alla Eilijfd.

Eñ vier, Guds Børn, þegar vier nu heyrum þessa smænarlegu Adferd Gydinga, vid Hertoga Dijrdareñar, þa ættum vier ad gialda Varhuga vid, ad ecke samløgum vier oss Illþijde þessu med vidlijkum Athøfnum, æ moote Christi Limum og vorum Brædrum i Heimenum. Fyrer hvad var Christur spottadur? Fyrer þad hañ geck i kring, giørde gott og grædde alla: Þad syndest, er þeir søgdu: Ad fyrer Belzebub Diøfla Høfdingia ræke hañ wt Diøflana; Jæ, ad hañ Samverskur være, og hefde Diøfulenn. Ecke eru synduger Meñ þess um̄komner, ad giøra so miked Gott af sier, so sem DRotteñ giørde æ Døgum Holds Vistar siñar. Eñ þo er eñ nu margur sæ, sem Christi Anda hefur, ad hañ giøre slijkt Gott, er hañ kañ, Guds voludum Saudum og naudstøddum, og vilde, ef hañ giæte, i Forsvar taka Eckiuna, hiñ Fødurlausa, og þañ sem Ræanginden lijdur; Eñ þetta hafa Veraldareñar Børn ad Athlætre, hvorium eckert svijdur, nema þad sem æ siælfum liggur, og dæra þañ sem nockurs vill i-missa fyrer Ræungañ, so sem þañ, er ause wt Goze sijnu ad Þarflausu, og hafi sijdañ ecke ad lifa af, edur hætta Femunum sijnum edur Virdingu fyrer Uppreist Løgræningsins, so sem þañ, er ecke ber Vitsmu-

ne til ad taka Vara a sijnum eigeñ Efnum, heldur stofne sier i Hæska, og voge sier i þær Hendur, sem honum eru mættkare; Eñ þvilijkt er rett ad spotta Gud og hañs Christ, hvorium valla nockur Hlutur er kiærare eñ þesse. Hvad vañ Christur meira til þess, ad hañ so hæddur var af þessum Spie-Fuglum? Þad, ad hañ giørde Verk siñar Kallanar trwlega: Hañ keñ-de opeñberlega i Musterenu, hvervetna i Sam-kundu Hwsum, og jafnvel i Eydemørku, so sem Gudspialls Søgurnar votta, og sialfur var hañ allar Nætur a Bænum. Eñ munu nu ecke siñast þeir, ed giora Gis ad þvi, ef nockur breiter epter sijnum Frelsara i slijku, og hlæa ad Gud-rækne hañs Barna, so sñ einum Oþorfum Hlut, þeim er ecke drage lengt a Veg til ad lifa far-sællega, og ei sie verdur til ad tapa fyrer Gagne sijnu? Soddañ Gearunggar eru rett eitt Diøf-uls Verkfære, þvi þeir ecke einasta ganga i Lid med Satan, heldur og koma ødrum þar til, sem i sialfum sier eru þo ecke so miøg vonder, edur Gude fraahverfir; Þvigad Heimsku mañlegrar Natturu er so vared, ad hun bygger Meiningu sijna helldur a añarra Doome eñ sijnum eigeñ, sierdeiles ihinu Vonda, hvar Diøfulleñ og Hol-ded eru jafnañ samverkande, so ad eg maa hier um segia, þad sem ad Christur sagde fordum Daga, um Fals Spaameñena, sem ad upprijsa mundu epter sijna Himnafør, Matth. 24. Ad

af soddañ Andskotañs Gamne kuña i Villu ad leidast, jafnvel ef skie mætte, Utvalder. Pad er ein stoor Heimska, ad hlæa ad einum fyrer Synder siinar, og eñ pa pott hañ hafi pær driigt med Asetninge, jafnvel pott pad sie nu almeñelegt, ad kasta einum pviliiku i Nasir, par Meñ ættu po ad aumka Syndarañ, hvad mest pess vegna, pvi pad steyper honum i pina mestu Eymd, sem ad er Guds Obliida. Eñ erum vier po ecke aller Syndarar? Og hvad brædt kañ oss hid sama ad henda, ef Gud slær Hendeñe af oss? Hvert peim er hvad mest bwed, sem henda Gaman ad añars Slisum, i Staden pess peir ættu ad leidretta hañ med hoogværum Anda. O Madur! pu sem stendur, siaa til ad pu faller ecke; Og ef pu kyñer i nockud pviliikt ad rata, hvad miklu pyngre mun pa verda piñ Doomur bæde i Guds og Mañá Auglite, sem madur hefur fellt Hardwngar Doom yfir piñ Broodur, pier kañ skie saklausañ, pvi hañ stendur og fellur siinum Herra, og mættugur er Gud ad reisa hañ, eñ fella pig, so pu aldrei meir uppstander? Nu er petta ein stoor Miinkun, og po er pad eñ meire Skom, ad fæta ad einum fyrer pau Liite edur Vansa, er hañ fær ei vidgiørdt, hvort heldur pad er a Saalu edur Liikama, pvi sa ed pad giører, hañ hæder ad Skaparanum, hvør ed giorde bæda pa epter Vild siñe. Paulus skrifar: Seger nockud Leyr-Kered til Smidsins:

Hvar fyrer giørder þu mig so? Eñ þa er sa heimskare eñ Leyreñ, sem vill segia: Hvar fyrer mun Skapareñ hafa giørdt þeña Mañ so hæt-adañ? Þu Vitfyrringur, eru þad Packer þær er þu Gude geldur, fyrer þad, ad hañ skapade þig fagrañ, eñ hañ liootañ, so sem þu kallar, þig vitrañ, eñ hañ fævijsañ, þig sniallañ, eñ hann mælhalltañ? Edur segest ecke Gud hafa giørt yckur bæda? Þu skinlaus Madur, þier er mikslu verr fared eñ hønum, Lijte hañs Lijkama mu-nu ecke standa hønum fyrer þvi, ad hañ ei verde æ sijdañ lijkur JEsu Christi dijrdlegum Lijka-ma, hañs Einfeldne mun ei hindra Guds Utval-ningu, sem hefur kiøred sier þad, sem er heimsku-legt fyrer Moñum, so hañ giørde Vitringana ad Hæde: Hañs Mælhellte mun ei baña hø-num ad lofa Gud med Englaña Twngu i Dijr-deñe, og eckert af þessu mun varna hønum Iñ-gaungu i þa himnesku Jerusalem; Eñ þu munt þar aldrei ad eilijfu iñkoma, nema þu stijnger wt þad Augad sem þig hneixlar. Og nu er þetta Tveñt so illt sem þad er, eñ þad er eñ þa miklu argara, þegar einhvør Veraldar Sonur giører Gis ad þeim, sem bera Ok DRottens, hvøriu heldst Nafne sem heiter, hvørt heldur þad er Fa-tækt, Heilsu-Brestur, Offsokner vondra Mañg, edur hvad añad sem Gud leggur æ nockurn, hvør ed alleina kañ ad fella og reisa, og eru so almeñeleger Veraldareñar Doomar, ad þvilijkt

hende

hende suma fyrer þeirra Synda Saker, jafnvel þoott eckert vite þeir med þeim, nema mannlegann Breisklleika, sem bæde þaa og adra hender; Og giæta þeir lijtt ad þvi, er Frelsarenn sagde vid Læresveinana, er friettu hann ad: Hvort hann, sem blindur var borenn, hefde syndgad, edur Foreldrar hañs? Enn hann blessadur svarade: Hvorke syndgade þesse, nie hanns Foreldrar, heldur so ad Guds Verk yrde opennber, Joh. 9. Villtu þaa hlæa ad þvi, Gloopurenn Vitstola? Villtu, sege eg, giøra Gis ad þvi, sem hinn alvijse DRottenn giører til Dijrdar sier? Jaa, hann sagde enn þaa, er hann heyrde um þaa i Galilæa, hverra Bloode ad Pilatus blandad hafde samann vid þeirra Foorna Blood: Meined þier ad þesser Galilæi hafe syndugre vered ødrum Galilæis, af þvi ad þeir lidu þetta? Luc. 13. Nei; Eg sege ydur: Ad nema þier aller ydrest, munud þier eins fyrerfarast. Og hvada Faasinna er þad þaa, ad brwka þad til Spotts og Athlaaturs, sem er af Gude giørt, til ad vekia i oss Ydranena fyrer vorar eigenn Synder, er hid sama, edur annad verra forþenad høfum, eñ þeir sem Meñ hæda ad? Og i Sannleika, þad er so Omannlegt, og eg maa segia, Diøflenum lijkt, ad hafa þad ad Haade, sem Gud leggur aa einn, hønum til Reynslu edur Sidboota, eñ ødrum til Vidvørunar, ad valla maa Ordum ad koma; Og talar David um þetta, so sem hid

 mesta

mesta Gudleyse, a þennann Hatt: Þeir hafa offookt þa, er þu hefur sleged, og þeir giora Sogur wt af þeirra Sorg, er þu sært hefur. Ps. 69. Aller christner Menn vita þad, ad þeim byriar ad hafa hina mestu Medaumkun med þeim, sem DRottenn hefur lagt sinn Kross a Herdar, og þar fyrer eru þeir laangt fra þvi, ad meiga Christner heita, sem vilia auka Sorg þeirra med Spieskap sijnum og Athlaatre; Hvad eru þeir þa? Diofulsins Born og Helvijtis Erendsrekar.

Nu eru þetta Hofud Skamer, sem eg upptaled hefe; Enn hveriu Nafne skal eg þad nefna, er eg fyrst umgat, sem er, ad hæda ad einum, fyrer þad hann gott giorer, og þad ad Ogudleger Menn sa ei lockad hann til ad syndga med sier? Eg vil segia: Þar er eckert Nafn til; Vilie eg segia, þeir sieu lijker Illmennsku Gydinga, er hæddu ad Christo, þa verdur þeim þo sagdt til Umbootar, þad sem Paulus hafde sier til Affokunar, er hann seger: Eg giorde þad i Ovitsku af Vantrw: Vilie eg jafna þeim vid Diofulen, og verdur þa ecke leingra jafnad enn til hanns, þa er þo þar um ad segia, ad hann veit, ad han a einga Mystunar Von; Enn þesser vita, ad a hveriu Tijma sem hinn Daudlege snyr sier fra sijnu Gudleyse, og fremur Rettvijsena, þa skal hann lifa, og ecke deya, allra hans Synda skal ecke ad Eilijfu minnst verda; Og þo æsa sumer Menn þvilijkt Gudleyse ydrunarlaust; allt

framm

fram̃ i Daudañ, hafa Gaman þar af, og meina litla edur einga Synd ad vera. O þier hin skynlausu Børnen! Legged af þvilijkañ Dæraskap, og læted JEsu sparu Pijsler kvelia i ydur Spottunarennar Anda, þegar hann tekur til ad kitla ydur, so ei verded þier sijdann til eilijfrar Skam̃ar og eilijfs Athlæturs, æ Lande Forsmænarennar. Hvar fræ Gud vardveite oll sijn Børn i JEsu Nafne.

Þeir hræktu i þitt Andlit, minn HErra JEsu. J 5. Mos. B. 25. Capitula, var þad Straff lagt æ hann, sem ecke vilde uppvekia sijnum Broodur Sæde, ad i hanns Andlit skylde Foolked hrækia. Adam var Brooder DRottens, þvi hann verdur og Guds Sonur nefndur, Luc. 3. Hann gat eingen Børn epter Guds Mind, heldur siñe eigen, og epter Holdsins Vild og Mannsins Vilia, Joh. 1. Enn JEsus hefur honum̃ Sæde uppvaked, þar vier erum i honum endurgetner t.l lifande Vonar, 1. Pet. 1. og aptur Guds Erfingiar ordner; Þo sie eg, minn HErra, ad þu verdur hier straffadur, so sem hann, er ei vilde uppvekia sijnum Broodur Sæde. So hefur Gud giort þig ad Synd, sem ecke varst Synd, og þu ert ein Bolvan ordenn, fyrer vorar Synder, sem ert Gud, blessadur um̃ Allder Allda, so vier yrdum Blessan Guds i þier. Þæ JEsus læknade hiñ Daufa og Blinda, þæ hrækte hann wt. Marc. 7.

Hiœ Joh. 9. Cap. lesum vier, ad hann giørde Leyr af Hrœka sijnum, og reid œ Augu hanns, sem blindur var boreñ. O HErra Gud! mun Soolen nockurn Tijma hafa þvilijka Hœdung sied, edur so vidurstyggelegann Glæp, ad hañ, sem jafnvel med Hrœka sijnum giørde þad bert, ad hann Guds Sonur være, hver ed grædde þa Blindu, hann verdur hier einn almennelegur Hrœka-Stadur þeirra blindu Hunda, Ps. 22. sem hann umkrijngdann høfdu? Um Mariam Systur Aarons Høfud Prests, sagde Gud fordum: Hefde Fader hennar hrækt i Andlit heñe, þœ hefde hun mœtt skamast sijn i Siø Daga, 4. Mos. 12. Þar med er meint, ad hefde Faderenn Ovirdt hana, fyrer Glæp nockurn, þœ hefde hun mœtt blygdast fyrer honum nockra Stund; Hvad miklu framar, þar hun hafde møglad œ moote DRottne Allsheriar? Þetta gefur mier ad hugleida, ad Brwdur hiñs ædsta Høfud Prests Sœlna vorra, hun hafde møglad œ moote Gude, og kastad hanns Bodordum œ Bak sier aptur, þvi hafde hun til þess unned, ad hrækt være i Andlit henne, og ad hylia sig fyrer Guds Nœdar Auglite: Ecke uñ Siø Daga einungis, heldur uñ alla Eilijfd Eilijfdanna; Enn uppœ þad, hun yrde keypt undañ Hrœkum Dioflanna i Helvijte, þœ seger heñar Brwdgume: Es. 50. Eg hulda ecke mitt Andlit fyrer Hrœkunum. Sw Ritning er hier upp-

uppfyld, þvi hans dÿrdarfulla Andlit, a hvers Varer ad Naaden er wthellt, hvert ad er þæalegt og miøg elskulegt, hvert ad er fegra enn allra Mannana Sona, hvers Augu ad eru skiærare enn Soolen, þad verdur, sege eg, afmindad af Hrækum Ogudlegra Mana; So ad vor Mind, sw ed af Hrækum og Saurendum verstu Synda og Glæpa var so afskræmd, ad hun vard ecke þveigen nema med Guds Bloode, ad hun yrde þess verdug ad kyssa Sonenn, so han yrde oss ecke reidur, Ps. 2. og vier þyrftum ei, fyrer Hadungar vors Ungdooms, ad standa rauder af Ovirdingu, fyrer hinum rettlaata Doomara a sijdarsta Dege. J Opennb. B. 3. Cap. seger DRottenn: Eg være til Frids, þu værer heitur eda kaldur; En fyrer þvi, ad þu ert volgur, þa vil eg skirpa þier wt af mijnum Munne. Vier meigum þad med bliwgum Munne jaata, ad vor Gudhrædsla er a stundum ecke nema Velgia fyrer Gude: Menn laatast dijrdka Gud i hans Mustere, enn offra þo a Hædunum Verøldenne, eins og Juda giørde: Laan sitt og Giæfu laatast Menn Gude þacka, so sem vera byriar, enn færa þo Foorner Nete sijnu margur hver, og gefa sier Dijrdena og Forsiia sinne, enn ecke hinum lifanda Gude, og giøra Sig ad Naunganum, sem midur lijdur: Menn segiast elska Gud, enn margur hatar sinn Brooður, og þo fyrer litla Sok: Gude laatunst vier þiooa-

na, enn Mam̃on maa þo ecke finnar Pioonustu i missa: Lambsins Brwdkaup vilium vier sitia, ef vier mættum þad vegna Akneytaña og Bwgardsins; So halltra Menn a baadar Sijdur med Prestum Baals. Hvilijk Velgia er nu ecke þetta, nema midur sie? Fyrer þessa Ohlutvendne i Guds Pioonustu, þaa hofdum vier til þess unned, ad hann spijtte oss wt af Munnenum, i þad Dijked sem rijkur af Ellde og Breñesteine; Þar fyrer er nu i JEsu allra-helgustu Asioonu hrækt, hver ed brunned hefur af guddoomlegre Elsku til vor, og þetta leid hann af hinum verstu-Synda Prælum. Sioaum nu til, ad vier ecke fyllum þenna Satans Flock i andlegann Maata. Vor Samvitska er so sem Andlit Saalar vorrar, sem er Brwdur Christi; Tökum oss Vara, ad ei asmindum vier Asioonu hennar, med swlum Hraakum Glæpa og Illgiorda. Christur bygger i hreinne Samvitsku, þviad i henne lyser Guds Andlit, so sem i fogrum Spegle: Þar fyrer seger DRotteñ, Matth. 5. Sæler eru Hreinhiartader, þviad þeir munu Gud sia; Enn aller þeir, ed ydrunarlaust fram fara i Syndum og Glæpum, og flecka þannig Samvitsku sijna, þeir mættu synast ad spijta Hraakum i Andlit DRottens. Gydingar þecktu ecke JEsum, er þeir fromdu Ohæfu þessa; Enn vier þeckium hañ, christner Menn: Hann er oss fyrer Augum maaladur i sijnu heilaga Orde: Vier

jaat-

jamtum hann sannañ Gud ad vera: Vier erum i hanns Nafne skijrder, til Fyrergefningar Synd-anna: Vier medtøkum hanns Holld og Blood i heilagre Kvøldmaaltijd, ofs til Myskunar og Saaluhiaalpar: Vier vitum ad hann er uppfar-enn i Hæđernar, og hefur Mennunum Gaafur gefed, og sendt sinn Anda, til ad sañfæra Heim-enn uñ Syndena, og uñ Rettlæted, og uñ Doomenn; Og skyldum vier nu gioraſt Lags-Menn hinnar vantrwudu Kynsloodar, til ad hrækia i Andlit JEsu ad niju, þar hann situr til Kraptarenns hægre Handar, þaa er ofs ollu midur fared, enn þessum blindu Gydingum.

Þesse Diofuls Samkunda lætur ei hier med bwed, helldur auka þeir Smaanena med Hogg-unum, og slaa JEsuin i hanns Andlit, seger Textenn; Þar uñ spaaer D Rottenn, Es. 50. segiande: Eg liet i tie minn Lijkama þeim er mig sloou, og minar Kinnar, þeim er mig reittu. Þad var Sidvane hiaa Gryckium, ad nær Præ-lum var Lausn gefen, þaa voru þeir Prwstrum slegner, i sijnar Asioonur; Enn JEsum, allrar Veralldarennar Lausnara, slaa þesser Oguðlegu Skaalkar Kinn-Hestum. Enn med þessare siñe Præls Mind, hefur Frelsarenn wtvegad ofs ei-lijfa Lausn af Prældoome Syndarennar og Diofulsins; Þar fyrer ættu christner Meñ þess minnuger ad vera, ad gefa honum ecke Prwstur med Oguðlegum Verkum. Eg hefe sett mitt

Andlit so sem Tinnu-Stein, seger hinn Utvalde Guds, Es. 50. Hvar med hann teiknar siina Osigrande Þolennmæde i Piinunne, ad hann hafe ei viked sier undann Hoggum Ogudlegra Manna, heldur enn þaa eitt Biarg er sleged. Enn þad er grœatlegt til ad vita, ad JEsu Prœst-ur, er hann saklaus þolde, jafnvel fyrer þaa er sloou hann, þau skule ei vinna aa eitt ydrunar-laust Hiarta, meir enn aa einn Tinnu-Stein, og þad er hverium Demant hardara. Þesser lemia JEsum med Hardwd sinne, med hverre þeir og safna sier Reide aa Dege Reidennar og Guds Rettlætes Dooms, um̃ hveria Paulus seger: Ad þeir krossfeste Christum ad niju, og Sœattmaalanns Blood almennelegt halde, med hveriu ad Syndarenn er endurkeyptur. Ebr. 9. Þeir gefa og JEsu Prœstur þrwng, er heyra hanns Ord med daufum Eyrum, og forsmaa hanns Þenara, er boda þeim Veg Fridareñs, og leggia þeim Hœadungar til, fyrer hid betsta Verk, sem er Astundan þeirra Sœalar Gagns, fyrer hvert þeir ættu þo tvofaldlegs Heidurs verduger ad vera, epter Paals Bode. Þetta var hanns Sok, hvar fyrer hann var slegeñ af gudlausum Monnum, sem er þeirra HErra; Enn seger hann ecke: Hvor hañ forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig; Enn hvor mig forsmaaer, hann forsmaaer þann er mig sende? Faa eru þau Dæme ad soñu, ad Guds Þenarar Hogg-

um ſæte af ſijnum Tilheyrendum, jafnvel þoott þau ſieu allt ofmørg; Enn ſumum ætla eg ad opt hamle meir Otte enn Giædſka, ad þeir mune geſaſt, er hugſa þad ſama um̃ Preſt ſinn, er Bileam ſagde vid Øſnuna fordum, er hun ecke vogade ad rææaſt a Engelenn, er ſtood a Vegenum fyrer henne: Være nu Sverd i Hende mier, þa munde eg drepa þig. Take Menn ſier þvi Vara fyrer ſlijku, þvi hver hann ſnerter Guds trwlynda Þenara med Heiptar-Hug edur Hende, hann ſnerter Guds Auga-Stein.

Þeſſa Hædne, þeſſa Hrææa, þeſſe Hogg og Slog, aretturu Gydingar med enn þa meire Hædungum: Þeir byrgdu hanns Andlit, og ſøgdu: Spaa þu oſs Chriſte, hver er ſar þig ſloo? Þeir viſſu ad Foolked hafde ſagt: Spaamadur mikell er a medal vor uppriſenn, og Gud hefur vitiad ſijns Foolks, Luc. 7. Enn nu vilia þeir med þeſſare ſmaanarlegu Adferd keſia þeſſa Almwganns Meiningu; So maa nu Speken rettlætaſt af ſijnum Sonum, Ordskv. V. 8. JEſus var hin eilijfa Speken Guds, og i honum biuggu aller Fiaarſiooder Vitſkunnar, Col. 2. Enn hier verdur hann ſo ſem einn Daare wtleikenn, og ſo ſem eina Leika-Fælu er med han̄ hondlad. Þad var Venia, ad þegar einn blygdadeſt fyrer odrum, þa huldu þeir Høfud ſitt, ſo ſem Rebecka, er hun ſaa Iſaach gangande a Akrenum; Enn hvad bar hier til

Blygdunar, DRottenn minn, fyrer hverium oll Skepnan ꝏ Blygdun ad bera, þad þeir blygdunarlausu Skꝏlkar huldu Hofud þitt? Vier vorum til Skam̃ar ordner, og hofdum byrgt vor Hofud med Juda; Þvi ollu Synder vorar, sem adskilia ꝏ mille Guds og vor, ad vier mꝏttum ecke Guds bliida Auglit siꝏ; En̄ hvad hafde þesse giort, þar hann var flecklaus, hreinn og heilagur, og frꝏskilen̄ Syndurunum? Ebr. 7. Þegar Adam hafde syndgast, þꝏ skijlde hann sier i Gardenum, þvi Synden gat ei leynt hanns Blygdun; Enn uppꝏ þad, ad hann og allt han̄s Hyske, þyrfte ei sijn eilijflega ad skom̃ast, þꝏ er JEsu bliida Andlit huled, sem þo upplyser þꝏ himnesku Jerusalem. Þeir sem til Dauda dꝏmder voru, og hverium Kongungurenn reidur var, þeir voru byrgder, so ad ecke sꝏu þeir hanns Andlit, so giordu Assveri Þenarar vid Haman fordum, Est. 7. Þad mꝏtte og segia, ad Gud Fader hafe lꝏted sijns eingetenns Sonar Asioonu byrgia, þegar hann var honum reidur, fyrer uppꝏlagdar Synder, og hann hafde ꝏlyktad, ad gefa hann i Daudann fyrer oss; Enn fyrer þessa Skylu þijns Andlites, hefur þu, DRottenn minn, i burttekid þꝏ Skijluna, sem fyrer vorum Augum var, þegar vier ecke þecktum Gud, og skyniudum ecke hvad hanns Ande var; Hver Skijlan ad enn nu hꝏnger fyrer Augum vesꝏllra Gydinga, so

ad siaande, þaa siae þeir ecke, og heyrande, þaa heyre þeir ecke, Rom. 11. Þar fyrer siaum nu til, chriſtner Menn, ad vier, sem betur upplyster erum enn Gydingar, ad vier gaungum forsiallega, so sem a Dege, og afleggium Verk Myrkraña; Fylgium ecke Dæmum þeirra Spottaranna, er segia: Hvar er Dagur hañs Tilkomu? Þeir ed sia einn Nakenn, og klæda hann ecke, Hwngradann, og metta hann ecke, Þyrstann, og gefa honum ecke ad drecka, og hylia sig þannig fyrer sijnu eigenn Hollde, þeir byrgia JEsu Andlit; Þvi hañ vill segia a efsta Dege: Hvad þier giordud ecke einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier ecke mier; Og þaa munu þeir ecke byrgia hanns Asioonu, þvi þeir munu sia hann, er þeir stwnged hafa, og hann þaa; Enn Hæalsinum munu þeir segia: Byrged oss! Og Fiollunum: Hrynied yfir oss! Þeir ed draga Syndar sijnar i Hlie fyrer Gude, og þær ecke jata vilia, þeir hylia og JEsu Andlit, so hann vill þeim ecke nadugur vera. O Manneskia! Hver ertu sem þad hyggur, ad þu faaer hanns Augu blindad, sem eru Þusundsinnum skiærare enn Soolen? Edur sett honum Brillur a Naser, sem graunt sier hvad i Myrkrunum er huled? Edur mun hañ ecke sia, sem Augad hefur skapad, edur heyra, sem Eyrad hefur plantad? Dyl ecke Saar þijn fyrer hinum gooda Meistara, sem

fyr-

fyrer þau Krœnkdæme, er hann bar, og þau Orkumſl, er hann a ſig hlood, kann betſt ad græda allar vorar Meinſemder. Enn Manneſkian er ſo ſœviis, eins og Smaa-Born, ef þau ſiaa Voda nockurn, þaa byrgia þau fyrer Augu ſier, og meina ad þeim ſie eingenn Hœtke bwenn, ef þau ſiælf eckert ſiaa; So erum og vier, ſem ſiaaum i gegnum Fijngur vid ſialfa oſs, og fyrergefum oſs ſiælfer marga Hlute, ad vier meinum þad verde þaa ſo ælited i Himnenum; Enn hvad er ſlijkt annad, enn ad ſmyria Kaun ſijn med Purpura Farfa, hver þo eru ſwen og roten þar under? Þvi hann ſem aa Stoolnum ſitur, hann dæmer ecke epter þvi ſemhanns Auga ſier, og ecke ſo ſem hañs Eyra heyrer. Jafnvel Þvi DRottne Misgiorder vorar med David, þaa mun hann fyrergefa oſs þær.

O JEſu, allrar Naadar og Myſkunar Bruñur! Lwk þu upp Augum vorum, ad vier þeckium vor Afbrot, og drogum ei Dulur aa vora Blygdan: Laat oſs kañaſt vid, ad vier ſieum nakter og hoſum alls Þorf; So þegar vier aa Dege alls Holds, ſkulum byrtaſt fyrer þijnum Doome, ad vier þa ei verdum nakter fundner. Fyrer þa miklu og Oforþentu Skom̃, er þitt Andlit huled heſur vorra Bloodſkaña vegna, þa virdſtu ad hylia vorar Misgiorder, aa þeim ſtraanga Dege, og fær oſs i eitt fagurt Klæde, ſo ad Blygdan vors Fatleyſis ecke opeñber ver-

de: Jaa, eiñ hvijtañ Skrwda, sem sægadur sie i þijnu Bloode, þu saklausa Guds Lamb, sem Veraldareñar Synder bored hefur. Þier, med Fodur og heilögum Anda, sie Speke og Kraptur, Dijrd og Velde, uñ Alder Alda, AMEN.



# Fioorda
# Midvikudags Predikun
## i Føstu.

### Textenn.

OG strax uñ Morgunenn, er Dagur var, søfnuduſt samañ og hieldu Raadſtefnu aller ædſtu Preſtar, med Olldungum Lijdſins og Skriftlærdum, og þar ad auk øllu Raadenu, moote JEſu, ſo ad þeir giæte hønum i Hel komed. Og leiddu hañ upp fyrer ſitt Raad, og ſøgdu: Ef þu ert Chriſtur, ſeig oſs þad? Og hañ ſagde til þeirra: Ef eg ſegie ydur þad, þa trwed þier þvi eige, eñ ef eg ſpyr ydur, þa ſvared þier mier eige, eda læted mig lauſañ. Nu hie-

dann i fra mun Mannsins Sonur sit-
ia til hægre Handar Guds Kraptar.
Eñ þeir søgdu aller: Ertu þa Guds
Sonur? Hañ sagde þa til þeirra: Pier
seged þad, Eg em hañ. Pa søgdu þeir:
Hvad þurfum vier nu Vitnesburdeñ
leingur, vier siælfer heyrdum þad af
hañs Muñe. Og allur sa þeirra Ska-
re stood upp, og bundu JEsum, og leid-
du hañ i burt fra Caiphas, og i Pijng-
Hwsed, og ofurseldu hañ Landsdoom-
aranum Pontio Pilato, eñ þad var
snema Morguns.

Pa er Judas, sa er hañ hafde forrad-
ded, sa þad hañ var til Dauda dæmd-
ur, ydradest hañ þess, og færde aptur
þeim ædstu Prestum og Olldungum
þa 30. Silfur-Peninga, og sagde:
Syndgad hefi eg, ad eg forried saklaust
Blood. Eñ þeir søgdu: Hvad kemur
þad vid oss? Sia þu þar fyrer. Og
hañ snarade þeim Silfur-Peningum i
Mustered, skundade þadañ, geck i burt
og heingde sialfañ sig. Eñ þeir ædstu
Prestar tooku Silfur-Peningana, og
søgdu: Eige hæfer ad vier latum þa i

Guds Kirtuna, þviad þad er Bloods-Verd. En þeir hieldu eitt Rad, og keyptu med þeim Leyrsmids Akur, framande Moñum til Greftrunar. Fyrer þad er sa Akur kalladur Bloods Akur, allt til þessa Dags. Þa er uppfyllt hvad sagdt er fyrer Jeremiam Spamañ, segiande: Þeir tooku þa 30. Silfur-Peninga, er hiñ Selde var med betaladur, hvørn þeir keyptu af Israels Børnum, og hafa gefid þa fyrer Leyr-Kera-Smids-Akur, epter þvi sem DRottenn hafde mier boded.

Og Høfud-Prestarner og Ølldungarner gengu ei sialfir iñ i Þijng-Hwsed, ad þeir saurguduft eige, heldur so þeir mættu neyta Paskaña. Pilatus geck þa wt til þeirra, og sagde: Hvørja Akiæru færed þier i gegn þessum Mañe? Þeir svørudu og søgdu til hañs: Ef þesse være ei Illrædes Madur, þa hefdum vier ei i Hendur fenged þier hañ. Þa sagde Pilatus til þeirra: Taked þier hañ þa og dæmed epter ydrum Løgum. Gydingar søgdu þa til hañs: Oß leifest ecke ad Lijflata nockurn,

urn, so ad þad Orded JEsu uppfylltest er han sagde: Teiknande þar med hverium Dauda hañ skylde deya. Enn JEsus stood frame fyrer Landsdoomaranum; Enn þeir tooku ad aklaga hañ, og søgdu: Þeñañ fiñum vier, ad hañ fraſnijr Foolkenu, og fyrerbijdur Skatt ad gefa Keysaranum, og seger sig ad vera Kongeñ Christum. Þa geck og i añad Siñ iñ Landsdoomareñ Pilatus, kallade Jesum, og sagde til hañs: Ertu Kongur Gydinga? JEsus svarade: Talar þu þad af siælfum þier, eda hafa adrer sagdt þier þad uñ mig? Þa svarade Pilatus: Er eg nockud Gydingur? Þijn Þiood og Keñemaña Høfdingiar ofurseldu þig mier; Hvad hefur þu giørt? JEsus svarade: Mitt Rijke er ei af þessum Heime, ef ad mitt Rijke være af þessum Heime, þa mundu mijner Þenarar strijda þar fyrer, so ad eg ofurseldest ei Gydingum, enn nu er mitt Rijke eige þadañ. Þa sagde Pilatus til hañs: Ert þu þo samt Kongur? JEsus svarade, og sagde til hañs: Þu seger þad, eg em og Kongur;

Til

Til þeß er eg fæddur og i Heimeñ kom-
enn, ad eg bere Vitne Sannleikanum,
og hvør hann er af Sannleikanum, sa
heyrer mijna Redd. Pilatus sagde til
hañs: Hvad er Sannleikureñ? Og
þa hann hafde þetta sagdt, geck hañ wt
aptur til Gydinga, og sagde til þeirra
yppurstu Presta og til Lijdsins: Einga
Søk finn eg med þessum Manne. Og
Høfud-Prestarner aklegudu hañ hard-
lega; Og sem hann aklagadest af þeim
ædstu Prestum og Olldungum, svarade
hann eingu. Pilatus spurde hañ apt-
ur ad, og sagde til hañs: Svarar þu
eingu? Heyrer þu ecke? Sia, hversu
hardlega þeir aklaga þig. Enn JEsus
svarade hønum eingu framar til nock-
urs Ords, so ad Landsdoemareñ und-
radest þad nærsta. Enn þeir voru þeß
akafare, og søgdu: Hann hefur uppæst
Fvolked, med þvi hañ hefur kennt a ollu
Gydingalande, og hefur til teked i Gali-
læa, allt hijngad. Eñ er Pilatus heyr-
de Galilæam nefnda, spurde hann ad:
Hvørt hañ være einn Galilæare? Og
er hañ fornam, ad hann var under Hero-
 dis

dis Vellde, sende hañ hann burt til Herodem, sem einnenn var a þeim sömu Dogum i Jerusalem. Enn er Herodes sa JEsum, vard hann nærsta gladur, þviad hañ hafde fyrer laungu gyrnst ad sia hann, af þvi hañ hafde margt heyrt af honum, og hann vænte, ad hañ munde sia eitt Teikn af honum, og adspurde hañ a marga Vega; Enn hañ svarade honum eingu. Eñ Kennemaña Hofdingiar og Skriftlærder stodu og aſökudu hann hardlega; Enn Herodes med sijnum Strijds-Mönnum, forsmade hann og spottade, færde hann i hvijtt Fat, og sende hann aptur til Pilatum. Og a þeim Dege urdu þeir Pilatus og Herodes Viner aptur, þviad adur voru þeir Oviner sijn a mille.

Enn Pilatus samannkallade Presta Hofdingia og Hofuds-Menn og Lijdeñ, og sagde til þeirra: Pier hafed þennañ Mañn til mijn haft, so sem þañ, er fransatir Foolkenu; Og sia ed, eg hefe yfirheyrt hann hier fyrer ydur, og a þessum Manne finn eg einga af þeim Sokum, þar um þier klaged hann, og ei heldur

Hero-

Herodes, þviad eg sende ydur til hañs, og ſiaed, eckert er af hønum giort, þad Dauda ſie verdugt; Fyrer þvi vil eg reſſa hønum, og læta hann lauſann.

Enn æ Hatijdar-Degenum hlaut Lands-Doomareñ, epter Veniu, Foolkenu lauſann ad læta einn Bandingia, hvørn helldſt þeir vildu, og epter hveriun þeir beidduſt. Enn þæ hafde hañ einn Nafn-kenndañ Bandingia framar ødrum, ſæ ed Barabbas hiet, med Upphlaups-Mønnum bundenn, hvørier i Upphlaupenu høfdu Vijg uñed. Sem þeir voru til ſamañs komner, ſagde Pilatus til þeirra: Pad er ydar Sidvenia, ad eg geſe ydur einn lauſañ æ Paſkum; Og Foolked kallade upp, og took til ad bidia, ad hann vilde giøra, ſem hann være vanur. Enn Pilatus ſvarade þeim, og ſagde: Vilied þier ad eg geſe ydur nu Gydinga Kongenn lauſañ? Hvørn vilied þier ad eg geſe ydur lauſann, Barabbam eda JEſum, ſem kallaſt Chriſtur? (Þviad hann viſſe vel, ad Høfud-Preſtarner høfdu af Øfund øfurſeldt hann.) Og ſem hann ſat æ

Doom-Stoolnum, sende hañs Hwss-Frw til hañs, og liet segia hønum: Haf þu eckert ad giøra med þann Rettlæta, þviad margt hefe eg lided i Dag i Draumnum fyrer hañ. Enn þeir ædstu Prestar og Ølldungar riedu Foolkenu og eggiudu, ad þad skylde bidia, ad hann giæfe þeim miklu heldur Barabbam lausann, enn JEsum skyldu þeir deyda. Þa svarade Lands-Doomareñ Pilatus, og sagde til þeirra: Hvørn af þessum Tveimur vilied þier ad eg læte ydur lausañ? Þa kallade upp allur Hoopurenn, og sagde: Tak burt þennann, og gef oss Barabbam lausann. Þa svarade aptur Pilatus, kallade og sagde til þeirra, og vilde JEsum lausañ læta: Hvad vilied þier þa, ad eg skule giøra vid JEsum, af hverium sagdt er, ad hann sie Christur Kongur Gydinga? Enn þeir kølludu þa aller aptur upp, og søgdu: Krossfestest hañ, krossfestu hañ. Þa sagde Lands-Doomarenn enn i Pridia Sinn til þeirra: Hvad Illt hefur þa þesse giørt? Einga Dauda-Sök finn eg med hønum; Fyrer þvi vil eg hegna hønum,

um, og lꝏta hann lausann. Enn þeir kølludu þvi meir, segiande: Krossfestest hann, krossfestu hann. Og aller kølludu aptur, segiande: Eige þennañ, heldur Barabbam. Enn Barabbas var einn Ræninge, hvør ed var fyrer Upphlaup og Mannslag, er sked var i Borgenne, innsettur i Fꝏngelse. Og þeir stoodu þvi fastara þar ꝏ, med miklum Hlioodum, Oskande þad, ad hann yrde krossfestur, og þeirra Hliood og Høfud-Prestanna tooku yfer.

Þa took Pilatus JEsum, og hwdstrijkte hann; Enn Strijds-Menn Lands-Doomarañs tooku hañ, og leiddu hann med sier inn i Pijng-Hwsed, kølludu samann og søfnudu ad hønum øllu Lidenu, og afklæddu hañ, og færdu hañ i eina Purpura Kꝏpu, og flettudu eina Koronu af Þyrnum, og settu hana ꝏ hanns Høfud, og Reyr i hanns hægre Hønd, og beigdu Knie fyrer hønum, spiodu hann, og tooku ad heilsa hønum, og søgdu: Heill siertu Konungur Gydinga, og gꝏfu hønum Pwstra, og hræktu ꝏ hann, tooku Reyrenn, og bordu

um̃ hans Høfud, fiellu a Knie, og tilbædu hann. Þa geck Pilatus wt aptur, og sagde til þeirra: Siaed, eg leide hann nu wt hijngad til ydar, so ad þier vited, ad eg finn einga Sek med hønum. So geck JEsus wt, berande Þyrne-Koronu og Purpura-Klæded; Og hann sagde til þeirra: Siaed Mañeñ. Þa er Kennemaña-Høfdingiarner og Þenararner sau hañ, kølludu þeir og søgdu: Krossfestu, krossfestu. Pilatus sagde til þeirra: Taked þier hann og krossfested, þviad eg finn einga Søk med hønum. Þa svørudu hønum Gydingar: Vier høfum Løg, og epter vorum Løgum a hann ad deya, þviad hann giørde sig sialfann ad Guds Syne.

## Exordium.

GUD rædur, eñ Mennerner þenkia, seger i hinum fornkvedna Ordshætte. Hinn alvijse Himens og Jardar DRotteñ, auglyste ad sønnu Mátt siñ og Speke, i þvi, ad hañ giørde alla Hlute af eingu; Enn þo mau þad synast ølln meira, nær hann giører hina betstu Hlute, af hinum verstu. Brædur Josephs seldu hann i Þrældoom Ismaelitum, 1. Mos. 37. Þad var illt Verk; Enn þad sama giørde þo Gud hønum til Uppreistar i Pharaonis Hwse, og so þeim og ølluu Hyske

þeirra

þeirra til Biargar i Hwngurs Neydenne; So þad er satt, sem Paulus seger: Ad þeim sem Gud elska, þeim hiálpe aller Hluter til hins Gooda. Rom. 8. Hverßu ad Ogudleger Judar høndludu med þid saklausa Guds Lamb JEsum, þad er kunnugt af þvi, sem Gudspialla-Meñerner hafa ritad epter sig latted, og er þad ecke hid minnsta af þvi, ad þeir hrøktu hañ bundenn frá einum raunglátum Doomara til annars, frá Kennevaldenu til Pilatum, frá Pilato til Herodem, og frá Herode til Pilatum aptur. Enn þoott ad þetta være giørt af þeim, til hinnar meßtu Hadungar, ad hann skylde ad Vidundre verda fyrer øllum Mønnum, þá hefur Gud giørt þad hønum til hiñar meßtu Vegsemdar, so ad hañs blessada Sakleyse yrde hvervetna kunnugt: Þvi epter alla þeirra Ransookn, kvadst Lands-Doomarenn einga Dauda-Søk med hønum finna, ecke heldur Herodes, þoott hann sende siálfa þá med hønum til hanns; Og hier ad auke hefur Frelsarenn þetta þola viliad, sijnum Børnum til Epterbreitnis, ad þeir ecke skore sig undañ ad lijda nockud þvilijkt med hønum, þar hann leid allt þetta fyrer þau, ad Menn ecke meine, ad sier hæfe ad tala, þar sem hañ þeiger, ad Þrællenn ei skule gialda Illt Illt, þar sem Herrañ kijdur saklaus. Þo Drottenn hefde skipad oss alleina ad lijda Oretteñ sinna vegna, þá værum vier skylduger til þess, jafnvel þoott ecke hefde hann siálfur þolad; Hvad þá mikliu heldur, þar hann hefur geféd oss Epterdæme, ad vier gaungum i hañs Footspor, so sem Petur vottar? 1. Pet. 2. Eg vil, ain leingre Inngangs, af Textanum i þetta Sinn Tvent hugleida: 1. Hvernig Herodes og hañs Hof-Foolk breitte vid JEsum. 2. Hvad hann lijda matte i Þijng-Hwsenn. Veit þu oss til þessa Naad þijna, goode Gud, ad vier þetta so sáman hugleidt, ad oss ydre Synda vorra, er þiñ eingeteñ Son kvaled hafa. Bænheyr þad fyrer JEsum Christum, Amen.

# Utleggingen.

Fyrst heyrum vier: Ad Herodes hafe orded miøg gladur vid, er hann sa JEsum, sokum þess, ad hañ hafde heyrt margt af hønum. Eingenn Efe er a þvi, ad Herodem hefur eitthvad grunad uñ Drottenn, þad hann munde vera odruvijse eñ adrer Menn, og þookt þær Søgur undarlegar, sem af hønum bææruſt; Enn ecke gefur hann sier Stunder til, ad ransaka þetta framar. So ſkedur a ſtundum enn i Dag medal ſyndugra Manna: Menn vilia ad ſonnu heyra JEsum med þvi eina Eyra, þvi vier høfum heyrt ſagdt miked af hønum i hanns Orde; Enn ad bidia hønum bæde, þyker oſs miked fyrer: Vier vilium heyra hann ſegia: Komed bleſſud Børn mijns Fødurs, og eigneſt þad Rijked, ſem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veraldar; Enn þetta: Ad vier ſkulum taka uppa oſs Kroſseñ, og fylgia hønum epter, þad vilia Meñ ecke heyra: Vier vilium heyra af hønum: Ad hann ſie kom̃enn i Heimenn, ſynduga Menn ſaluhoolpna ad giøra; Enn þetta: Þier kunned ecke under eins ad þioona Gude og Mamona, þad ſturlar Hiarta vort: Vier vilium fylgia hønum uppa Fialled, og ſia Teiknen, eins og Herodes, og mettaſt af Braudunum; Enn þegar Menn koma aptur ſamann i ſinne, þad er, i Veraldarennar

Sam=

Samkundu, þa þrættar Hollded vid hañ, og vill ecke trwa, nema þad Teikn siæe, eins og Gydingar giordu. Hvad veldur þessu? Hiñ fagre Dans Herodiadis Doottur, hinnar flærædu Veraldar, sem Mannenum kemur til ad Hæls-hogga Baptistam, so ad Hroopandañs Rodd i Eydemorkenne veke ecke hinn gamla Adam, sem nu er ad soñu Elle-moodur og syfiadur under Heyrn Guds Orda, enn þo kaſtur og ern til allra illra Verka, og vill ecke heyra Ord þess, er sagde: Ad allt Holld sie Hey, og allur þess Goode, so sem Bloomstur Akursins, Es.40. og hennar Hofmenn valda þvi, sem kenna oss ad væra Christum med Herode, og nælægiast hann med Vorunum, jafnvel þoott Hiartad sie længt þar fra. Þesser eru: Agyrnd, Ofund, Loſte, Agg, Reide, Hatur, Tviidrægne, Hofmoodur, Flættskapur, er daglega þioona under hina Syndum-spilltu Natturu, med Fysn Auganna og drambsomu Liiferne; Þegar einhver af þessum leikur fyrer oss, þa gleymum vier þvi fullskioott, sem vier heyrt hofum af JEsu, og allt þad sem oss er um hann kennt, og vier leseð hofum, þad snyst a stundum upp i Værakap og DRottenns-Svik, þar vorar Athafner samhiooda so lijtt vorre Jætningu og vorum Skiijrnar Sættmæla, hvar vier afneitudum Dioflenum og ollum hanns Verkum. Hyggium ad þessu, christner Meñ, og leitum ecke ad Christo i

hanns Orde til Skemtunar oss, heldur til Uppfrædingar: Spyr ecke epter honum i Dæmafroodum Æfenntijrum, heldur i heilsusamlegum Lærdoomum: Grunnst ecke JEsum ad sioa i hañs Orde, med Herode til Forvitnis, heldur med Simeone til Hiælpræðis: Ecke med Herodis Vildar-Monnum, er spottudu hañ, og vildu ei trwa, heldur med Abraham og hanns Heima-Foolke, sem ed trwde Gude i Vonenne, þar ed eingen var Von til, og þad vard honum til Rettlætes reiknad. Vilier þu nockud nijstaarlegt hafa, þa leita ecke epter nijum Kenningum i heilogu Guds Orde, þvi þad er alltijd hid sama, heldur leidrett þinn Lifnad af Heyrn Guds Orda; Þvi eckert er so nijtt, sem þad, ad þu verder Goodur af Vondum, og þitt Hiarta kiotlegt, af einu Stein-Hiarta, og ad þu iklædest nijum Manne, sem epter Gude er skapadur, enn aflegger hinn Gamla, er sig fordiarfar i Girndum Villudoomsins. Betra so þig og þitt Framferde, a Guds Vege, Dag epter Dag, so hefur þu alltijd eitt ødru nijrra.

Sw var oñur Ordsok til Kiæte Herodis, þad hañ meinte ad hañ munde sia eitthvert Teikn af hønum: Hefde ecke Gud vered i Christo, þa hefde þad maatt stoorum ebla Kvol hañs, ad þesse Haad-Fugl skylde nu hid fyrsta fara ad leita epter Teikne af honum, þar hañ hafde giort so morg Teikn og Stoormerke i hanns Rijke.

Þu

Þu Resur, voru þad Þacker þær, er þu ætter ad kuñа ÐRottne, fyrer allt þad Gott, er hañ hafde giort Þegnum þijnum? Trwad hefur Herodes þvi, ad JEsus hafi giort Kraptaverk, þvi hañ giorde sier Þvanka af þessare Ordsok, ad Johannes munde upp aptur risiñ vera, samt bidur hañ hañ þo uñ Teikn ad niju. Þesse er Jllsku-Kraptur Dioful sins, sem i Vantrwñe verkar: Gydingar ætu þau Brauden og Fiskana, sem JEsus blessade, og vissu ad hañ var komeñ yfir uñ Siooeñ fyrer utañ Feriu, ei ad sijdur sogdu þeir i Samkundunne i Kapernaum: Hvada Teikn giorer þu, ad vier siaum þad og trwum þier? Þeir sau hann reka wt Dioful þann er dumbe var, og Oskudu þo Teikns af Himne. Keñemeñerner hofdu Spaadoomana, og vissu Ritningarnar, ad ei skylde Veldes Spijran takast fra Juda, og ecke Doomareñ fra hanns Footum, fyrr eñ Schilo kiæme, og jatudu, þegar Schilo dæmast ætte, ad ecke hæfde þad, ad þeir dæmde nockurn; Samt hroopudu þeir: Krossfestu hañ, krossfestu hañ. Og er Dioful leñ alltijd sialfum sier lijkur eñ þa i Dag; Þvi hvad giora þeir, sem heyra Guds gooda Ord, og añadhvort trwa þvi ecke, edur lifa so sem þar være ecke eitt Ord satt: Og so sem Jsaac þottest vita, ad þad være Rodd Jacobs, sem hia honum var, eñ hañ þenkte Skiñen væru Hond hiñs frumgetna Sonar sijns Esau; So lætast

Meñ ad ſoñu þeckia Rauſt DRotteñs, eñ bera ſijnar Athafner lijtt samañ vid þad hañ bijdur, og ſumer eru eins heimſker og Judar, ad þeir ſpyria epter Kraptaverkum: Eñ þeim byriar ad vijſa til Moyſen og Spaamañaña, ſo ſem Abraham giorde hinum Rijka, Luc. 16. Þu gyrneſt Kraptaverk, eñ Kraptaverken voru giord fyrer Vantrwareñar Saker: Vilier þu ecke trwa, nema þu ſiaer Teikn og Stoormerke, þa jaatar þu aa þig Vantrwareñar Villu, og ſver þig i heñar Barna Tolu. Gydingar ſøgdu aa Chriſti Tijmum: Hefdum vier lifad aa Dogum Fedra vorra, þa vildum vier ecke hafa afliijfad Spaameñena. Gydingar vildu þo ecke trwa Johanni, ſem var meire eñ nockur Spaamadur, edur Chriſto, um hvorn aller Spaameñ vitnudu, og þeir Oſkudu epter Teikne af honum, til ad ſtyrkia þañ Mindugleika, er hann hafde til ad keña, ſtraffa, Ogna og aamiña. Hvort vill þetta aafram um ſijder? Vier lifum og aa þeſſum Dogum, vier þenkium kañſke ſumer: Hefde eg vered ſamtijda JEſu, vilde eg ecke hafa ſviked hañ med Juda, ecke aaklagad hañ med Keñemoñunum, nie gabbad hañ med Herodi, eg vilde hafa vitad hvad eg hefde giort, og bored Ritningarnar ſamañ vid allt þad er fram vid hañ kom. Eñ ſamt lifa ſumer Meñ, tala og giora ad ſo miklu Leite ſem i þeirra Valde ſtendur, eins og hiner, jafnvel þott Keñingarnar um JEſum

sinn sieu a vorum Dogum eñ þa liooſare, heldur eñ Spaadoomarner, sem af honum vóru ĩ gamla Testamentenu, og uppfylla þañig Mæling þeirra sem fyrer þa vóru; So Meñ siaa ad þetta Hcorunar Slekte er eñ þa ecke oldunges wt af daudt: Er eg þvi hræddur um, þeim mune eckert añad Teikn gefast, eñ Teikn Jonæ Spaamañs, þviad Ninive Borgar-Meñ giordu Ydran vid Predikun Jonæ: Eñ JEsus Christus, sa ad er eiñ og hiñ same i Giær og i Dag i sijnum Keñingum, allt fraa þvi hañ hoof ad laata predika Ydran og Syndaña Fyrergefningu i sijnu Nafne; Hañ fiñur so lijted af Trwñe, edur heñar Avoxtum i sumra Manna Fare, jafnvel þott hañ einusiñe sagdt hafi: Sæler eru þeir sem ecke siaa, og trwa þo. Villtu siaa Christum, þa lijt hañ med Trwareñar Augum: So giordu morg Þusund H. Maña, sem hañs Vitnesburd hafa med sijnu eigeñ Bloode underskrifad: Villtu heyra nockud af honum, þa spyr hañ, ecke so sem Herodes, heldur so sem hañs Læresveinar; Hañ mun svara þier: Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau, Luc. 11. Villtu vita af honum hvad þu skallt giora, þa adspyr hañs Munn, hañ mun svara þier: Leita fyrst Guds Rijkes og hañs Rettlætes, þa mun þier allt añad Gott til-leggiast; Afneita so siaalfum þier, og tak þiñ Kross uppaa þig, og fylg mier epter. Villtu vita hvad þu skalt trwa, þa

heyr

heyr hañ til þijn talande: Þad er hid eilijfa Lijf, ad þeir þeckе þig saman Gud ad vera, (þad er Fødureñ) og þañ þu vtsender JEsum Christum, Joh. 17. Þa þu stendur under hanns Krosse, mun hañ segia: Eg skal aldrei sleppa þier, og aldrei yfirgefa þig. Þa þu ert freistadur, mun hañ hugga þig, og svara: Eg em freistadur æ allañ Hætt, lijka sem þu, þo æn Syndar, þvi kañ eg, og vil hiælpa þeim sem freistader eru. Þu berst vid Daudañ, og getur ecke leingur adspurt, heldur andvarpar med Hiartanu, þa mun hañs Mÿskunar Eyra hvad best heyra, þvi Bruñur Giædskuñar veit, ad þa er ecke Tijme til ad draga Hiælpena undañ leingur, so hañ mun svara: Kom þu blessadur, Barn mijns Fødurs, og eignast þad Rijked, sem þier er tilbwed fræ Upphafe Veraldar. Spyr þiñ JEsum þannig, eñ ecke eins og Herodes, og mun hann ecke vid þier þegia.

Eñ hvad giører Herodes nu framar? Sagan seger: Ad hann hafe gabbad hann med sijnu Hof-Foolke, og fært hañ i hvijtt Klæde; Textenn kvedur þar so ad: Ad hann hafe eckert wr honum giort. O hvilijk Vanvirda er þetta! ad hann, sem er allt i øllu, Col. 3. hañ verdur ad eingu hafdur: Fyrer hvørs Næd vier erum þad vier erum, 1. Cor. 15. hann reiknast so sem være hann ecke: Hann sem allt hefur af eingu giort, og allt kañ aptur ad eingu ad giøra,

hañ

hañ er einkis metenn. Þetta er nu þad Lausnar-Giald, miñ HErra, sem vier daglega erum ad syndga uppa, þegar vier forsmaaum hvor aññan, og med Kieskne og Hæde meidum Sæmd annarra: Allt er þetta fyrer vorar Saker skied, vor ecke sijdst, sem af Heidingianna Bornum erum Guds Born ordner, og vorum hiá Utvalningunne, þad er, Guds Foolke, fyrer eckert reiknader. Þess vegna er Mannsins Sonur einkis virdtur, Marc. 9. aller þeir ed hañ saau, hæddu hann, Ps. 22. Speken maa rettlætast hier af Sonum sijnum, so hañ yrde oss ad Speke Guds, oss sem heimskare vorum enn Asnenn og Nauted, er þeckia Iotu sijns Herra, Es. 1. ja, argare enn Hestar og Mwlar, er Meñ verda Bitel og Beitsl i Munn ad leggia; Og ofann aa allt þetta, færa þeir hañ i hvijtt Klæde. Hvilijk er Smaan þesse? Romveriar hofdu þañ Sid, ad þeir sem epter Nafnbootum sooktu, þeir bіuggu sig hvijtum Stacke, til ad byrta þar med Hreinlynde sitt, og goodann Þocka til Þioodar sinnar; Enn af þvi, ad Gydingar kiærdu þad til DRottenns, ad hann hefde sier Konungs Nafn gefed, þaa er hann klæddur hvijtum Bwninge. Enn þo ad gudlauser Menn giordu allt þetta til Mijnkunar honum, þa maa þo hier med teiknast hanns eilijfa Konungs Tign, Þviad i þessu hvijta Klæde, hefur hann broted sig til Rijkes yfir Zion, yfir Guds heilaga Fialle, sem

er

er hañs Christne, hvert aldrei mun Enda taka. Hvijtur var Skrwde hiñs ypparsta Keñemañs, a Døgum gamla Testamentesins; Þessum vilde DRottenn klædast, þa hann offrade Gude sialfum sier til eins Sætleikañs Ilms, Eph. 5. fyrer vorar Synder, ad hañ synde þad, ad hañ være einn heilagur Biskup, og an Flecks, og fraskilenn Syndurunum, og afrekade sier þar med eina flecklausa Brwde, sem eingann Fleck nie Hrucku hefde: Ja, hann klæddest hvijtum Brwninge, so hann wtvegade oss þad retta Brwdkaups Klæde, Matth. 22. og einn hvijtann Skrwda, med Pálma-Vidum i Hondum vorum. Þesse er sa Skrwdenn og þad Skart, er hanns Brwdur hroosar sier af, hia Es. 6. segiande: Eg fagna mikellega i DRottne, og mijn Ønd gledst i mijnum Gude, þvi hañ hefur fært mig i Hialprædesins Fat, Rettlætesins Kyrtle hefur hañ mig i-fært, so sem einn Brwdguma i kennemannlegum Skrwda, og so sem eina Brwde, er byst um i Skarte sijnu. Hvad skal eg nu hier til segia, miñ HErra JEsu? Skylda eg nu reikna mier þad Vanvirdu, fyrer þijns Nafns Saker, ad lijda nockud af þvi, sem þu hefur miklu meira lided minna vegna? Nei; Sæmd er þad, enn eingen Van-Æra: Þad hefur Moses kennt oss, med sijnu Dæme, ad Vitne St. Páls, Ebr. 11. er hañ seger: Ad hañ halded hafe Bryrle Christs fyrer

meire

meire Audlegd, enn Fesioodu Egyptskra Maña. Þad er nærsta gledelegt ad hugsa, ad allt þad sem fyrer Adams Synd var i sialfu sier Mijnkun hin mesta, þad er allt samañ i JEsu heidurlegt orded, øllum þeim sem hann elska, og honum vilia epterfylgia: Hina verstu Hlute hefur hann giort ad þeim betstu, hina audvirdelegustu ad þeim kostulegustu, hina vesælustu ad þeim farsælustu: Stallenn giorde hann virdulegann i siñe Fædingu, sijna Vøggu i Reisunum, Vøtnen blessade hann i Skijrn sinne: Allt hvad hañ snerter, þad er hañs Børnum blessad: Bønden i sinne Herleidingu, Svipur Bødlanna i sinne Hwdstroku, Krossens Gcalga i sijnu Lijfláte, og sialfa Smæanena og Fyrerlitninguna hefur hann giort ad Dijrd og Heidre. So eg sege eñ nu, sem til forna: Ad ef þad er hin ædsta Vegsemd, JEsu ad lijkiast, þa er þad eingen Vanæra, af Heimenum fyrerlitenn ad vera, fyrst JEsus er adur fyrerlitenn. Honum sie Dijrd og Heidur, um̃ Alder, Amen.

Nu vilium vier gaanga med vorum Lausnara fra Herode til Pilatum, og sia hvad þar giordest, oss til Huggunar og Synda-Bootar. Þa took Pilatus JEsum, og hwdstrijkte hann, seger Textenn. Þad var ecke Venia Gydinga, ad hwdstrijkia nockurn, adur enn hann lijflátenn var: Romveriar lietu ad sonnu hwdstrijkta Menn-afhøfda; Enn þau Dæme vita Meñ ecke,

 ad

ad nockur Illrædes Madur hafe so glæpafullur gefest, ad hann hafe hwdstrijktur vered under Krossfestingu. JEsus einn, sem var hiñ allra Saklausaste, hann fær ei þaa Vægd, ad deya so sem hinn Ranglaataste: Konungur Gydinga verdur af Lijfe tekenn, verr enn einn Heidinge: Hañ sem mijskunar sia yfir oll siin Handa-Verk, hann fær einga Myskun af Syndurunum, og þeim Dege, er hañ hid mesta Myskunar-Verk giorde, aa syndugum Manne. Guds Logmaal var so vægdarsamt, ad ei maatte slaa nockurn meir enn 40. Hogg, 5.Mos.B. 25. Hvilijkt er þaa Laga-Brot þetta, ad hañ maa ei somu Laga niota, sem Logenn skipad hafde? Pilatus hafde ecke i Sinne ad laata hañ krossfesta, heldur ad fullnægia Gydingum med Refsingu þessare; Er þvi lijklegt, ad hun hafe so gruñ vered, ad Lands-Doomaranum synst hafe, ad eingenn Fiand-Madur munde æskia meire Hefndar yfir Ovin siinum, og i þeirre Meiningu liet hañ JEsum wtganga, berande eitt Purpura Klæde, og eina Koronu af Þyrnum, og sagde: Siaed Mannenn. Hvar fyrer? Miñ JEsu! Hvar fyrer ertu so hormulega wtleikenn? Af þvi, ad margar voru Hwdstrokur Syndarañs: Allt Mannkyn hafde eriad Vondskuna, og uppskored Bolvanena, þar fyrer hafa Ploog-Mennerner eriad aa þijnum Hrigg, DRottenn. Ps. 129. Hwdstrokur voru Præla-Straff i

gam-

gamla Daga, og miøg smanarlegt halded, þvi var ecke leifilegt ad hwdstrijkia Romverskann Borgara. Post. G. 22. Slijka Pioons Mind hefur DRottenn Himens og Jardar a sig teked fyrer einn vondann Pioon, ad hann hefur, so sem einn Prææll, lated sinn nakenn Lijkama Svipum lemia. Þvi er þinn Brwdgume so wtleikenn, christen Sæla? Hver hefur hann flett sijnum Klædum? Þitt Fatlepse. Hver hefur bunded hanns Hendur? Þitt Hand-Ede. Hver hefur reirt Fætur hanns vid Kagann? Þinna Foota Fimleike. Hvar fyrer er þad Mustered, sem oll Fylling Guddoomsins i bygger, so nidurbroted med Svipum Bodlanna? Þess vegna, ad i þier, þad er i þijnu Holde bioo eckert Gott, heldur lietstu Syndena drottna i þijnum daudleguın Lijkama, og lieder Limu þijna henne til Ibwdar, fra einne Rænglætingu til annarar. Michol Dootter Sauls Konungs sa wt af Vindauga sijnu, og hædde Konung David, þar ed hann dansade afklæddur fyrer Ørk Drottenns, 2. Sam. 6. Enn Zions Dootter, hveria JEsus Sonur Davids hafde trwlofad sier i Raad og Myskun sinne, hun afklædde siaalf Herra sinn, med Hondum Omildra Manna, og lieb hann af-hijda. Hvad var þier, O! Israel? Hefur Andskotenn blindad þig a badum Augum, ad þu þeckter ecke þinn Vitiunar Tijma? Var þier þad ofijted, ad Gud er þinna vegna

 Mad-

Madur ordenn, þad þu lietst honum wthyſa? Er þad oflijted, ad honum wthyſt er, þad þu lietst hann offækia? Er þad oflijted, ad hañ of-ſooktur er, þad þu lietst hann fanga og binda? Er þad oflijted, ad hann fangenn og bundeñ er, þad þu ſpottader hann, og lietst i hanns Andlit hrækia? Er þad oflijted, ad hann ſo ſpottadur er, þad þu lietst hann Kinn-Heſtum liooſta? Er þad oflijted, þad hann Kinn-Heſtum loſtenn er, þad þu lietst hann affklæda og hwdſtrijkia? Er þad oflijted, ad hann hwdſtrijktur er, ad þu ſetter Koronu af Þyrnum a Hoſud honum, og feckst Reyr-Legg i hanns hægre Hond? O Iſrael! Mig ſkal ei furda, þoott ad Guds Reide haſe bruñed yfir þier allt til nedſta Helvijtis, og JEſu Blood ſie yfir þig og þijn Born komed. Hvor hañ heyrer þetta Dæme, hann hygge þar ad, og forherde ecke ſitt Hiarta, ſo Chriſtus verde ecke ad niju kroſsfeſtur a medal vor! Þijnar Hwdſtrokur voru margar, Barn mitt, þvi þu ert eiñ Syndare, og epter Maata Syndareñar, ſkal vera Mæling Refſingarennar, ſeger DRottenn i Logmaalenu, 5. Moſ. B. 25. Og þar a ofann hafder þu forþenad, ad fleingiaſt eilijflega med Guds elldlegum Reide Svipum i Helvijte; Enn þinn Brwdgume er fyrer þig, ſo ſem Þræll hwdſtrijktur, a moote hverium þu misgiorder: Hañ er þrælkadur i þijnum Syndum, og þu heſur honum Erfide auked, med þijn-

um

um Rœnglœtingum, Es. 43. Þu varst frœ Hvirfle og allt til Ilia eckert nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote, Es. 1. Enn hanns blessadur Lijkame er so af Ogudlegra Manna Svipum i sundurslitenn, ad frœ Hvirfle og allt til Ilia, var þar ei heilt œ hanns Hollde; Þar fyrer er þad skied, ad so margt Ben, sem þar var œ hanns Lijkama, so margar, og þusundsinnum fleire Affsakaner, hefur þu i Himnenum fyrer Gude, og hanns Blood lœtur hœrra i Eyrum þess himneska Konungs, þier til Synda-Lausnar, enn Blood Abels rettlœta yfir Cain, honum til Fordœmingar.

J annann Mœta stendur i Textanum: Ad þeir hafe fært vorn HErra i eitt Purpura-Klæde; An Efa epter Plagsid Romveria, er þañig kœddu Hofdingia sijna, nær þeir tooku Keisara Velde. DRottenn afklæddest sijnu eigeñ Fate, christeñ Madur, og took uppa sig Heidingianna Bwning, ad hann þar med audsynde, ad fyrer þessar og adrar Hœdungar, af Heidingium i frañe hafdar, þa vilde hann lœta heidna Menn iklædast Christo, hverium hañs eiged Foólk afklædde sig, og færdu sig og sijna Epterkomendur i þa Olucku, ad fyrst þeir hofnudu Guds Rijke, þa vard þad frœ þeim teked, og Heidingium gefed. Post. G. 13. Purpurenn var i Orma-Bloode litadur; Enn þad mœ uñ DRottenn segia, ad hann hafe Mott-

ul sinn i Orma-Bloode litad, þar hañ er Madkur og ecke Madur orden, og i þeim rauda Eyr-Orme fyrermindadur, sem Moses uppheingde i Eydemørku, til Lækningar þeim, sem af Orm-enum bitner voru. Ecke er þad um Skør fram, ad Christur er a sijnum Pijnu-Dege i eitt Purpura-raudt Klæde færdur, þvi under þessu Fate hefur hañ huled vorar Synder, sem eru raudar sem Purpure. J 4. Mos. B. 4. Cap. var Js-raels Sonum boded, ad nær þeir fluttu Her-budernar, skyldu þeir yfirklæda Gull-Altared med raudum Purpura: JEsus er þad sanna Gull-Altare, christner Menn, hann er hier med Purpura-Klæde sveipadur: Legg hier uppa þitt Offur, þad eru þijnar gudrækelegar Bæner; Hañ mun þær upptendra med Ellde sijns Anda, so þær uppstijge fyrer Gud i Himeninn, til eins Sætleiks Ilms. Minn HErra JEsu, þessar Haadungar hafa afrekad oss eilijfa Vegsemd: Þetta spottlega Klæde hefur huled Fatleyse vorrar Blygdunar: Þesse hin konunglega Asynd hefur giørt oss ad Konungum og Keñemoñum. Hvers-su ert þu lijtels verdur, i Augum þiña Kvalara? Enn hvad frijdur ert þu i Augum þinna sorg-mæddra Brædra, sem lata sier þad til Hiarta ganga, ad þeirra bloodugar Hendur hafa þinn mislita Kyrtel riodrad, og eitt Darga Dijr, sem eru Synder þeirra, þær hafa þann himn-eska Joseph i sundur rifid? Þier sie Lof, Heid-

ur og Vegsemd, ad Eilijfu, Amen.

J þridia Maata getur Textenn um: Ad þeir hafe flettad Koronu af Þyrnum, og sett a hanns Høfud. Allt er þetta epter Heidingia Vijsu, þvi Romveriar plogudu ad brwka Kransa af Grosum, Bloomstrum og Greinum Eikanna, fierdeilis Tignar-Menn; Enn hvilijk er nu Korona þesse? Af Þyrnum var hun flettud, seger Textenn. Adam leidde þaa Bølvan yfir Jordena, ad hun skylde Þyrna og Þystla bera, 1.Mos. 3. Adams gulldu aller hanns Nidiar epter hann, allt til þessa Dags: Adams Skom og Synda-Straff maa bera hinn annar Adam, sem er DRotten af Himne, so Adams Bølvan skylde ecke stijnga øll Adams Børn eilijflega. Med þessare sinne Þyrne-Koronu, hefur Guds eingetenn Sonur, wtvegad oss Koronu Lijfsins, Openb.B. 2. Koronu Rettlætesins, 2. Tim. 4. Koronu Dijrdarennar, 1.Pet. 5. Koronu Myskunarennar, Ps. 103. og Koronu eilijfs Fridar og Fagnadar, a Lande lifandi Manna. Salomon seger, ad Vegur hinns Lata sie eins og Þyrne-Gardur, Ordskv. 15. Þad feck Christur ad finna, sem vorrar Heimsku vegna hefur genged þessa Þyrne-Gøtu. Sorg og Audæfum þessa Heims, Gyrndum og Vellystingum, lijker Christur vid Þyrna, Matth. 13. Fyrer þessarra Þyrna Saker, verdur JEsus hier Þyrnum kryndur. Ein good Eigen-Kvinna

er sijns Egta=Manns Hofud Korona; Enn hvad syneſt þier, Dootturen Zion? Hlijtur ecke Meiſtare þijns Ungdooms, ad bera hier þijna Mijnkun a Hofde sijnu? Hvad ſaart hefur þad ſtwnged þiñ Elſkuga, ſem þu hefur a ſtundum kiæraſt allra Hluta? Þad ſem þu elſkar þræle=ga meir enn Lijfed, þad hefur kvaled hañs Hofud allt til Daudañs. Gaanged wt, þier Dætur Zion, ſeger i Loſkvædenu, og ſkoded Salomon Konung, med þeirre Korónu, ſem Moodur hanns koronade hann med, a Dege ſinnar Trwloſunar, Loſkv. 5. Enn eg vil ſegia til ydar: Gaanged wt um Stundarſaker, chriſtner Menn, fraa vondre Verold þeſſare, og hennar Lauslætis Glaume, og ſkoded þann eiliiſa Fridar=Hofdingia, berande þaa Koronu, ſem hañs Brwdur hafde flettad honum, a þeim ſtraanga Dege, þegar hann drack ſitt Brwdkaup til hennar, ſem hañs Hiarta elſkade, i ſijns himneſka Fodurs beiſkum Reide=Kaleik.

Þanneñ geck JEſus wt, ſegia Gudſpialla=Menn erner, berande eina Purpura=Kaapu, og eina Þyrne=Koronu; Og Pilatus ſagde: Siaed Manneñ. HErra Gud! Eg vil fara og ſkoda Syn þeſſa hina miklu, ſagde Moſes fordum, 2. Moſ.B. 3. þar Runnurenn logade, enn brann þo ecke; Enn miklu er Syn þeſſe furdanleare, þar JEſu Þyrne=Bwſkur logade af Guds Grimdar=Reide, ſem allraa

Ver=

Veraldareñar Synder hofdu tilunned, enn gat
þo ecke uppþurkad hañ sterka Guddooms Krapt,
sem i honum bioo. Minn HErra JEsu!
Þegar eg ligg Daud-siwkur i Bondum Synda
minna, og get mier eckert Lid veitt, þa vil eg
þo skrijda nær, ef eg ma, vesol Manneskia, og
sia þessa miklu Syn, þar allur Mañsins Son-
ar Lijkame og Sæl kvelst i þessum Loga: Hof-
uded pijnest med Þyrnunum, Andlited verdur
Hnefum sleged, og med Hrækum afmindad,
allur Lijkamenn er Svipum lamenn, og med
hræsnisfullre Lotningu spottadur, hañs Hendur
Bondum reirdar, og hanns Fætur Kialfa af
Vanmætte: Þetta einasta, og ecke annad, kañ
mier daudvona Manneskiu ad biarga; Þvi eg
veit, ad þar Syndarenn hafde med ollum Lim-
unum illa breitt, þa hefur Skaparenn a oll-
um Lijkamañs Portum allt illt þolad.

Framar stendur i Textanum: Ad þeir hafe
lated Reyr-Legg i hañs hægre Hønd, fall-
ed a Knie, spottad hann og sagdt: Heill
vertu Konungur Gydinga. Hvad vantar
nu Christ DRottenns hier a fulla Konungs
Tign? Med Oleo var hann smurdur, þar hañ
allur lagade i sijnu heilaga og saklausa Bloode:
Purpura-Skrwdann hafde hann uppa teked:
Þyrne-Koronuna bar hann a Hofde sier: Og
so ad eckert vante til hinnar mestu Hædungar,
og hvad skule odru sambiooda, þa gefa þeir

honum einn Reyr-Staf i Hondena fyrer Velldes-Spijru. Minn HErra JEsu! Hvar var nu þad Oleum Fagnadareñs, sem Gud, þinn Gud, hafde smurt þiñ Manndoom med? Hvad Olijkur er þesse Bwningur þeim Klæda-Fallde, sem uppfyller þaa himnesku Jerusalem? Es. 6. Hvar er nu sw Prijden þijns Hofuds, hveria Englarner og Hofud-Englarner tilbidia? Hvar er sw sterka Jaarn-Spijran, med hverre þu sundurbrijtur Heidingiana, eins og annad Leyr-Ker? Ps. 2. Skrifad er, ad i Nafne JEsu skule øll Knie sig beigia, bæde a Himnum, og a Jorduñe, Phil. 2. Enn hveriu gegner þetta, ad Jorden getur þad stadest, ad Ogudleger Prælar þad giorde til Spotts og Hædungar, sem oll Verolden er skyld ad giora til Vegsemdar? Enn hvad vil eg hier um annad framar tala, eñ ad heimfæra þetta, so vel sem allt þad, er DRottenn leid, syndugum Manne til Nota? Endurlausnarenn seger um Johannem Baptistam, ad hann sie ecke lijkur Reyr þeim, sem af Vinde er skekeñ, teiknande þarmed hañs Stødugleika i Lærdoomenum, i Trwnne, i Poleñmædenne, i Kiærleikanum, i Vandlætenu. Gud næde oss syndugar Manneskiur! Hvad faa sijna Lijka hefur Johannes af ollum Tilheyrendum sijnum, sem eru aller christner Meñ? Hvad lijted Mootkast skelfer Trw vora? Hvad lijtell Krossenns Þytur brister vora Polennmæde?

Hvad

Hvad lijtel Mootgiord wtslokur hiaa oss Kiærleikann? Hvad lijted Swr-Deig spiller fyrer oss Lærdoomenum og goodum Sidum? Hvad lijtell Aaustur kiefur nidur vort Vandlæte? So vier meigum medkenna, ad vier i ollu þessu erum ecke sterkare enn hinn brotne Reyr-Sprote af Egyptalande, vid hvorn ef nockur stidur sig, þaa gengur hann i Hond honum, og stijngur hana i gegnum; Enn JEsus hefur sett Andlit sitt so stødugt, sem einn Tinnu-Stein, og so sem einn Klett, fyrer Reyr-Slogunum, og hefur þo hverke kallad nie hroopad, og hañs Raust hefur ecke heyrst aa Strætunum, þar fyrer mun hañ ei heldur hiñ brakada Reyr i sundur briooта, edur þann lijtt-loganda Hor-Kveik wtslocka. Es. 42.

O HErra JEsu Christe! Eg hugsa til þess kalda Dags, þegar Reyr-Flake vors Lijkama tekur til ad skekiast af Daudanns Andvidre: Minnstu þaa, O HErra! aa þesse þijn Reyr-Slog, og alla adra Kvøl og Pijnningu, sem þu þolad hefur vor vegna, og laat þaa ecke hinn brakada Reyr vorrar Trwar sundur-brotna, nie hinn lijtt-logande Hor-Kveik Vonarennar wtaf slockna; So ad nær vier stigner erum af Hroose þessarar vesælu Tialdbwdar, aa Land lifande Manna, þaa mættum vier heilsa þier, Konunge Dijrdarennar, med Kosse vors Muñs, og eilijfre Lofgiord. Bænheyr þad, HErra, fyrer þijna Forþenustu, A m e n.

Fimta

# Fim̃ta
# Midvikudags Predikun
## i Føstu.

## Textenn.

Ha Pilatus heyrde þad Ord, Ottadest han̄ enn meir, og geck aptur i Þijng-Hwsed, og sagde til JEsum: Hvadan̄ ertu? En̄ JEsus gaf hønum eckert Svar. Þa sagde Pilatus til han̄s: Talar þu eige vid mig? Veitstu ecke ad eg hefi Raad til ad kroßfesta þig, og eg hefi Rand til ad gefa þig lausan̄? JEsus svarade: Eige hefder þu nockud Vald yfir mier, nema þier være gefid þad hier ad ofan̄, fyrer þvi hefur sa meire Synd, er mig ofurselde þier. Og epter þad leitade Pilatus vid, hvørnen̄ han̄ giæte læted han̄ lausan̄. En̄ Gydingar hroopudu og sogdu: Ef þu lætur þen̄an̄ lausan̄, þa ertu ecke Keisaran̄s Vinur; Þviad hver sem sig giører ad Konunge, han̄ er á moote

moote Keisaranum. Þa Pilatus heyrde þad Ord, leidde hañ JEsum wt, og sette sig a Doom-Stooleñ, i þeim Stad sem kallast hiñ Steinlagde, eñ a Ebresku Gabbatha, eñ þad var Adfanga-Dagur Paaska, nærre siøttu Stundu. Þa seger hañ og til Gydinga: Siaed, þad er ydar Kongur; Eñ þeir kølludu: Burt, burt med hañ, krossfestu hann. Pilatus sagde til þeirra: Skal eg krossfesta ydar Konung? Keñemaña Høfdingiarner svørudu: Eingañ Konung høfum vier, nema Keisarann.

Þa er Pilatus sa þad, hañ kom eingu til Vegar, heldur þad, ad þar yrde eñ meira Upphlaup af, took hañ Vatn, og þvode Hendurnar fyrer Foolkenu, og sagde: Saklaus em eg af Bloode þess hiñs Rettlaata, siaed þier til. Þa svarade allur Lijdur, og sagde: Hanns Blood kome yfir oss, og yfir Børn vor. Eñ Pilatus þenkte Foolkenu Fullnægiu ad giøra, og dæmde ad skie skylde þeirra Beidne, gaf þeim Barabbam lausañ, þañ er iñ var settur fyrer Upphlaup og Mañdrap i Myrkvastofu, uñ

hvorn

hvørn þeir bádu; Eñ Jesum hwdstrijktañ framselde hañ þeim, epter þeirra Vilia, ad hañ krossfestur yrde.

Pa tooku þeir JEsum, epter þad þeir høfdu spottad hañ, færdu hañ wr Purpura Kápuñe, og færdu hañ i sijn eigeñ Klæde, og leiddu hann wt, ad þeir krossfestu hañ, og hañ bar siñ Kross og geck wt. Eñ i þvi þeir gengu og leiddu hañ wt, fundu þeir eiñ Mañ siñ frañ hiá geck af Cyrene, Simonem ad Nafne, hvør ed komeñ var af Akre, Fødur þeirra Alexandri og Ruffi; Hañ høndlúdu þeir, og þreyngdu hønum, ad hañ bære hanns Kross, og løgdu Krosseñ uppá hañ, ad hañ bære hañ epter JEsu. Eñ hønum fylgde epter mikell Fiølde Foolks og Kveña, hvøriar ed gretu og hörmudu hañ. Eñ JEsus sñerest til þeirra; og sagde: Þier Dætur af Jerusalem, gráted eige yfir mier, helldur gráted yfir ydur sialfum, og yfir Børnum ydar. Þvi siaed, þeir Dagar muñu koma, á hvørium þeir segia: Sælar eru Obyriur, og þeir Kvider er el hafa fædt, og þau Briooste, hver eige

eige voru mylkt. Þa munu þeir taka ad segia Fiøllunum: Hrynied yfir oß; Og Hælsunum: Hylied oß. Ef þeir giøra þetta vid bloomgada Træd, hvad mun þa skie vid hid þurra?

Eñ tveir Spillvirkiar adrer leidduſt og wt, ad þeir være afteknir med hønum. Og þeir leiddu hañ wt i þañ Stad, sem kallaſt a Ebresku Golgatha, hvad ed þijdeſt Hausaskelia Stadur, og þeir gafu hønum ad drecka, i Vijne, Myrru og Edik, Galle blandad, og hann took þad eige til sijn, þvi þa hann smackade þad, vilde hañ ecke drecka. Og sem þeir komu i þañ Stad, sem kalladeſt Høfud-Skelia-Stadur, þar kroßfeſtu þeir hañ, og med hønum tvo adra Ræningia a bædar Sijdur, eiñ til hægre Handar, og añañ til hiñar vinstre, eñ JEsum i Mided. Eñ þad var nær um þridiu Stund, er þeir kroßfeſtu hann. Þa vard sw Ritning uppfylld, sem seger: Medur Illvirkium er hann reiknadur. Eñ JEsus sagde: Fader! Fyrergef þeim, þvìad þeir vita ei hvad þeir giøra. Pilatus skrifade þa eina Yfirskrift, og

sette hana upp yfir Krossen. Upp yfir hans Høfde festu þeir hans Dauda Søk. Eñ Yfirskriften, og hvør Søk hønum var gefiñ, var ritud yfir hønum med Gri-skum, Latinskum og Ebreskum Bookstø-fum: Þesse er JEsus af Nazareth, Konungur Gydinga. Þessa Yf-erskrift læsu marger af Gydingum, því ad sa Stadur var nærre Borgeñe, þar JEsus var krossfestur. Þa søgdu þeir ædstu Prestar Gydingaña vid Pilatum: Skrifa þu eige: Konungur Gydinga; Heldur þad, hañ hafi sagdt: Eg em Konungur Gydinga. Pilatus svarade: Hvad eg skrifade, þad hefi eg skrifad.

## Exordium.

SO sem einum mær virdast ad gaunga einn torfæran Veg, so Vidurlita miked þiker mier, aumum Manne, JEsu Blood-Ferel i hans Kross-Gaungu med Ordum ad rekia: Ecke einungis þess vegna, ad eg veit, ad mijnar syndugar Hendur hafa þær Gøtuna lagdt, hverrar Klungur ad hefur stunged hans Fætur, heldur og þess annars, ad Syndum-spillta Natturu hryller vid þar epter ad gaunga; Enn veit þo, ad eg ecke fæ inngeng-ed i hans Dijrd, nema eg adur fylge hønum i hanus Hørmungu. Eg sie ad sønnu Dyrnar, i gegnum hverjar oss byriar inn ad gaunga i Sauda Hwsed: Eñ þad fæler mig, ad Vegurenn þangad er allur Bloode stockt-ur.

ur. Eg vil ad sønnu bera mig ad fylgia Christo inn i Biskups Hollena; Enn ad játa þvi, ad eg sie hanns Læresveinn, med sannarlegre Kross-Gaungu, þad veiter Holde mijnu og Bloode nærsta tregt. Vær høfum ad sønu lagdt hønum uppá þa þwngu Krossens Byrde; Eñ siaulfer vilium vier ecke snerta hana med einum Fijngre, ef vier meigum hiá þvi komast. Vier vilium aller inngánga til hañs Hvijlldar, og siáum ad Landed er gott; Enn hiñ gamle Adam vill ecke beriast vid Canaan. Vier vilium þo i DRottens Nafne gánga nockud nær, og siá hier einn heilagann og rettlátañ Mann, i hvers Munne eingen Svik eru funden: Hann vilium vier siá eins og Saud til Slátrunar leiddann, Es. 53. þad saklausa Guds Lamb, sem ber hier allar Veraldareñar Synder á sijnum særþiáda Lijkama: Já, einn Gud og Mann, ecke Mann, heldur Madk ordenn, og hann, sem geck uñ krijng, giørde gott og grædde alla, af øllum illa wtleikenn án allrar Vægdar, fyrer utañ Ordsøk alla; So ad ef nockur þykest i Heimenum Orett lijda, og verr vera vid sig høndlad, heldur enn hanns Sakeyse stiled ætte, þá skule hann siá hier eitt lifande Dæme sannrar Hoogværdar og Poleñmæde, og þenkia med sier, ad ef þad er hin stærsta Vegsemd, Guds Syne sem lijkastur ad vera, þá sie þad eingen Ovirding, hanns Kross epter hønum ad bera, i þolennmoodn Uñburdarlynde Osorþientra Meingiørda. Og vil eg so, af þessare Grein Pijslar-Søgu DRottenns vors, Tvennt hugleida, sem er: 1. Hañs Utgaungu af Jerusalem wr Pijng-Hwsenu. 2. Hverning med hann høndlad var i Aftøku-Stadnum. Hiálpa oss hier til, DRottenn, med Nád Þijns Anda, i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingen.

UM Utgaungu Lausnarans talar so Textenn: Þaa tooku Strijds Meñerner JEsum, epter þad þeir høfdu spottad hann, og færdu hann wr Kaapunne, og færdu hann aptur i sijn eigenn Klæde, og leiddu hann wt, so hann krossfestur yrde, og hañ bar sinn Kross. Seged mier, Børn mijn: Hvad skilde JEsus epter i Þijng-Hwsenu? Blood-Lækena, sem dundu af hañs blessudum Lijkama, Hørunded, þad er med Svipunum var af-stroked, Haared, sem af Þyrne-Broddunum var burtu slited. Hvad færer hañ med sier þadañ? Eiñ bloodrisa Lijkama, Hraakana i Andlite sijnu, Þyrne-Koronu aa Høfde sier, og Krossenn aa Herdunum: Epter sier hina Oguδlegu Gydinga, undann sier eiñ Stadareñs Þræl, sem wthroopad hefur Søkena hañs Dauda ad Beniu, og i krijngum sig Flock Heidingianna; Olijk er nu þesse Utgaanga hanns vegsamlegre Innreid fyrer Atta Døgum: Þaa reid hann so sem einn Konungur; Hier er hann aafram drifenn, so sem einn Illrædis-Madur: Þar breidde Foolked sijn Klæde aa Vegenn; Hier slijta þeir Purpura-Flijkena fraa hanns alblooδugum Lijkama: Þar hiuggu þeir Kvistu af Trianum, og dreifdu þeim aa Gøtuna; Hier er þad sanna Lijfsens Tre dreged uñ grijttann Veg: Þar fylgdu honum hañs elskuleger Læresveinar; Hier fylgia honum Tveir Ofrææger

Ræningiar: Þar hroopudu þeir: Hosianna Syne Davids, bleſſadur ſie ſœ ſem kemur i Nafne DRottens; Hier hroopa þeir: Kroſsfeſtu hann: Þœ reid hann inn til Muſtereſins, og vandlætte vegna Guds Hwſs, vid þœ er þad vanhelgudu; Hier er hann rekenn wt til Golgatha, og Vandlæting hans Fodurs-Hwſs hefur uppeted hann. HErra Gud! Er ecke þetta han, ſem leidde Fedur þeirra wt af Egypta-Lande, berande Gull og Silfur Egyptſkra Manna? David ſeger: Ad i þeirra Utfør hafe Sioorenn hlaüped til Baka, og Jordan horfad aptur œ Bak, Pſ. 114. Enn hier umkrijngia Belials Becker han, og hann er wthelltur, ſem annad Vatn. Pſ. 22. Hvad var þier Sioor, ſeger David, ad þu hlioopſt ſo til Baka, og þier Jordan, ad þu horfader ſo œ Bak aptur, og ydur Fioll, ad þier ſtuckud upp ſem Sauder, og ydur Hœlſar, ad þier ſo donſudud? Enn eg mætte vel ſegia: Hvad var þier Sool, ad þu ſkylder horfa œ Lijk-For hinns lifanda Guds i mannlegu Hollde? Og þier Golgatha, ad þu kynner ad liœ þig til ſoddann Ohæfu? Og þier Jord, ad þu ſkylder ſtandaſt under ſoddann Þwnga? Og ydur Hœlſarner, ad þier gœtud þad lided, ad hann fære titrande og ſkiœlfande um ydar Gotur, ſem ydur vegur œ Vigt, og Jardareñar Þwnga med ſijnum litla Fijngre?

Og hann bar ſinn Kroſs, ſeger Textenn.

Esaias i 9. Cap.. þegar hann spaaer um̃ Christ, þaa seger hann aa medal annars: Ad hanns Hofdingia-Doomur sie aa hanns Herdum, og ad hann mune margfalda sitt Rijke: Hvort Esaias hefur hier med meint Kross-Tre Drottẽs, sem aa hanns blessudum Herdum laa, edur ei, þad kann eg ecke fyrer vijst ad segia; Hitt veit eg, ad þar sem Veraldar Hofdingiar auka Rijke sitt med holdlegum Arme, og hinne miklu Magt sinne, þaa hefur Christur sitt Rijke auked, alleinasta fyrer þad Orded af Krossenum, og fyrer Hormungar og Forsmaaner, sem hanns Elskendur hafa lided i hanns Nafne, so þad er so megtugt orded, ad þad hefur jafnvel hin stærstu Hofdingia-Dæme innteked. Þeir orgustu Skaalkar voru i gamla Daga Kross-Berendur nefnder, af þvi ad þetta Straff var so smaanarlegt, og þeir siaalfer baaru sinn Kross til Aftoku-Stadarẽs; Eñ nu er DRottẽs Kross-Berenda Nafn heidurlegt orded, aa medal allra þeirra, sem Christum medkeña, so ad einnig Oviner Krossens Christi, þeir skirrast vid ad tala miøg illa þar um̃, jafnvel þott þeir skore sig undann hanns Ok ad bera. Hier af sie eg, ad Christi Rijke er ecke af þessum Heime, og þad sem veikt er fyrer Heimenum, þad hefur Gud utvaled, ad hann til Skam̃ar giorde hid oblúga, og þad foragtannlegt og Otijged er fyrer Heimenum, og þad sem eckert er, ad hann af-

mœe þad sem nockurt er, uppa þad, ad eckert Holld hroose sier fyrer honum. J 3. Mos. B. 11. Cap. er ad lesa: Ad hañ, sem snerte Dauds Jbled, skylde Ohreinn vera; Enn hier skedur þad þvert a moote, ad allt þad, sem snerter Christi blessadann Lijkama, jafnvel andvana a Krossenum edur i Grofenne, þad er øllum þeim hreint og heilagt, sem ordner eru eitt med honum, og Krossinn, sem i sialfum sier er bølvadur, hañ er øllum Guds Børnum blessadur ordenn, og gagnar til heilsusamlegrar Lækningar andlegra Meina. Adur helldur enn Christur bar sinn Kross, edur forlijkade fyrer oss a Krossenum, þa hefur hann nefnt þær Mootlætingar (i gegnum hveriar oss byriar inn ad ganga i Guds Rijke) med þessu Nafne; So seger hann: Luc. 14. Sa sem ecke tekur sinn Kross uppa sig, og fylger mier epter, hann kann ecke ad vera minn Læresveinn. Ecke i þeirre Meiningu, ad Krosseñs Nafn edur Teikn kunne nockurn Hlut andlegann edur lijkamlegañ ad verka; Helldur so sem þad, ad Moses baud Jsraels Foolke i Guds Stad, ad þeir skyldu binda Guds Logmaal a sijnar Hendur, og skrifa þad a sijna Dyru-Stafe, uppa þad, ad þad være þeim alltijd fyrer Augum, og i ferskri Minne; So virdest mier ad Christur hafe epter skiled sijnum Læresveinum, bæde þeim sem nu eru, og hafa vered, Krosseñs Minningu, til þess, ad vier

aavallt hugsa skyldum, til þeirra Hluta, er oss, epter hans Bode, þiena til Saaluhiaalpar: Þvi sa sem Christi Kross uppaa sig tekur (þad er; hañ sem krossfester Hollded fyrer Christi Skuld, ad þad hverke fremie þess Gyrnder, nie mogle under Krossenum) hann hefur, ad mier virdest, uppfyllt Christi Logmaal, þad hann baud sijnum Læresveinum hiaa Matth. 16. Cap. segiande: Ef nockur vill mier epterfylgia, hann take siñ Kross uppaa sig, og fylgie mier epter; Og i þessare Meiningu mun Krosseñs Teikn vera fyrst iñkomed og brwkad i christelegre Kyrkiu: Ecke af þvi, ad Krosseñ sie heilagre enn Bonden, Svipurnar, Hraakarner, edur hvert annad Pijslar-Fære, sem DRottenn var kvaleñ med; Helldur sökum þess, ad Kross-Burdur vors HErra wt af Jerusalem til Kvala-Stadareñs, og Fullkomnan Lausnar vorrar aa Krossenum skien, þad synest allra heldst, ad kuñe ad minna oss aa þad Tvennt, sem christenn Madur aa daglega sier fyrer Augum ad hafa, sem er, ad bera Krossenn epter Christo, og so ad trwa aa hiñ Krossfesta.

Þañig var nu JEsu Utgaangur af Jerusalem, og þad Foruneyte, er honum fylgde fraa Raad-Hwse hinns heidna Lands-Doomara; Enn so sem aavallt skiptest Foolked i Tveña Flocka, sem ad eru Guds Born og Heimsins, so skede þad einnenn hier: Þoott þeir væru flester, sem wtgengu til ad sia Vild sijna aa þvi saklausa Guds

Lambe,

Lambe, og ad wtausa þeirre Grimd, er Dioſ-ullenn hafde leinge med þeim ſafnad; Ei ad ſijd-ur gꜵnga jafnframt þeſſium nockrer, ſem af gud-legre Rækt og Elſku til ſijns Meiſtara, vildu leit-aſt vid ad giora honum þꜵ ſijdurſtu Þenuſtu, er þeir giora kunnu; Þar um getur ſo Texten: Og hønum fylgde mikell Fiølde Foolks, og ſo Kvena, þær ed gretu han og aumkudu. Kalled ꜵ Sorgar-Konur, ad þær kome, ſeger D Rottenn, Jer. 9. þegar han hafde ꜵlyktad, ad tortijna hine fyrre Jeruſalem med Herſkylde; En hier þarf ecke ad kalla, þær koma ſiꜵlfkrafa Okalladar, þar Guds Foolk wtgeck af Jeru-ſalem, til ad kalla þꜵ Olucku yfir ſig, ad þeirra Hws ſkylde þeim i Eyde lꜵted verda. Sagan ſeger, ad þeſſar Kvinnur hafe vered wr Galilæa; Enn eg hugſa til þeſs, er Lauſnarenn ſagde ford-um, Luc. 13. Meine þier, ſagde hann, ad þeſſer Galilæi hafe ſyndugre vered ødrum Galilæis, af þvi þeir lidu þetta? Nei; Heldur, nema þier ydreſt aller, munud þier vidlijka fyrerfaraſt. Eg mætte og ſegia ꜵ þeſſare Stundu i hanns Orda Stad: Meined þier ad þeſſar Galilæiſku Kvinnur hafe haft meire Ordſok til ad grꜵta, i JEſu Kroſs-Gaungu, enn vorar Sꜵler hafa? Ad vijſu ecke; Þvi, nema vier aller eins lærum JEſu grꜵtande epter ad fylgia, þꜵ munum vier ecke inngꜵnga i Guds Rijke. Þær gretu, þvi þeirra Meiſtare var tekenn frꜵ þeirra Hofde;

Vær mættum grœta af þvi, ad vær hofum hanns Hofud Skomenne huled: Þær, sokum þess hann var til Krossens leiddur; Vær, af þvi vier hofum hañ krossfestann: Þær, vegna þess, ad hann, sem Blindum gaf Syn, hann er af þeim blindu Hundum so kvalenn, ad hann sær ecke Vegenn fyrer Footum sier; Vier, af þvi, ad Sysn Augna vorra hefur hanns Augu sliofgad: Þær, fyrer þvi, ad hann, sem læknade hina Holltu, hanns Huiæ-Lider skiælfa, hañs Foot-Legger titra, hann hefur eckert Megn edur Mœtt, ad bera hinn þunga Kross; Enn oss ætte þad Sorg ad afla, ad hann er þess vegna so vänburda ordenn, ad vier erum skiooter ad hlaupa þæ breidu Gotuna, sem liggur til Glotunarennar: Vier holltrum optsinnes æ beadar Siidur, og hofum ei wt-talad þæ Þrætu vid Holld og Blood, hvert vier heldur viliumf Gude þioona edur Mamona: Þær gætu ei Tæarunum halded i Hofde siinu, nær þær sæu JEsum, er læknade hina Liikþræu, allann Benium hladenn, verr wtleikenn af syndugra Manna Hardydge, heldur enn einn Liikþræv af Guds fodurlegu Vandlæte; Hañ, wtrekeñ af ollum, sem ollum hefur iñboded, i þad Riiked, sem fyrerbwed er fræ Upphafe Veraldar: Jæ, wtdrifeñ af siinum Brædrum, sem eingañ af siinum Ovinum vill fræ sier reka, er til hañs kemur: Yfirgefenn af ollum, af Juda sviken, hverium Petur afneitad

hafde: Af ødrum Læresveinunum forlaateñ, sem þo, hangande a Gaalganum, i sterkasta Ofbode Saalar og Lijfs bitrustu Kvala, ecke forliet sijna Moodur, standande under Krossenum, ecke sinn Læresvein, þar naalægann, og ecke einn Glæpa-Mann, a hægra Veg sier til Smaanar uppheingdann; Enn þitt Hiarta klocknar ecke, O þu hin þverbrotna Manneskia! þoott ad Guds Sonar Hiarta sinelltest i honum, so sem annad Vax, i þvi Bade sem þu hefur kindt, og þu blygdast ecke ad sim Gud i þinne Fordæmingu. JEsus gret ecke wt af Minningu Pijslar sinnar, þegar hann saa þad Mordingia-Bæle, sem hann krossfestu, heldur af þvi, þeir þecktu ecke sinn Vitiunar-Tijma; So munde enn nu i Dag, ef honum mætte nockur Hlutur til Angurs vera, þar hann situr a hægra Veg Gude i Dijrdenne. Hann telur ecke epter oss allt þad hann þo þolad hefur vor vegna; Enn þo munde hann hafa Ordsok til ad graata yfir Borgenne, þad er yfir Christnenne, þar Monnum finnst so lijtt til hanns Pijnu, og so lijtt færa Menn sier hana i Nyt almennelega. O! hvad skamt mun þar til vera, ef Gud hiñ alleina sæle kynne ad graata, ad hann munde soddann Harma-Graat kveda yfir oss, sem hann kveda liet yfir sijnu Foolke i gamla Daga: Jer. 8. Eg hefe afskræmt mitt Andlit af Harme, mitt Hiarta kleñest i Sorg, siaed Hroop Dootturennar

mijns Foolks er af Fiarlægd ; Ja, eñ framar munde hann vilia til vor segia : Standed vid Doomara-Ported i Jerusalem, um̃ hvert miñ eingetenn Sonur geck wt til Kvala-Stadareñs, og lijted wt a Hausa-Skielia-Stadenn, þar hann pijndur var! Siaaed þar ydvarn Doom, a honum, sem ydar Synder bar! Lijted hversu ad hann nær þvi skrijdur eins og Madkur, og varla geingur so sem einn Madur, under allrar Veraldarennar Syndum! Siaaed þar Liooma minnar Dijrdar, og Jmind guddoomlegrar Personu minnar, hversu hañ framenn er, under ydar Synda-Byrde! Lijted þann gooda Hyrderenn, hversu eg hañ sleged hefe! Siaaed þaa Speke, sem eg aatte i Upphafe Vega miña, hvernig maa hun nu rettlætast af Sonum sijnum! Siaaed minn elskulega Son, i hverium mier allèina velþocknast, hversu eg hefe hann yfirgefed, hvern eg hefe fyrer ydar Ohlijdnes Saker straffad, minn trwlynda Þioon, sem giordest mier hlijdenn allt til Daudañs, jaa, allt til Krossens Dauda! Laated ydur þad svijda, ad Hegningen hefur a honum leiged, so þier kynnud ad hafa Frid vid mig, hversu hann er þrælkadur i ydar Syndum, sem er Konungur Konunganña, og DRottenn Drottnaña! Hversu ad hann er Bolvan ordenn, sem er Gud blessadur um̃ Allder! Og ef þad ei kann ydur til Hiarta ad gannga, ad hann er minn Sonur, þaa laated ydur

þad

þad ofbiooda, ad hañ er ydar Brooder, Holld af ydar Hollde, og Bein af ydar Beinum, hluttkande Hollds og Bloods, eins og Smaa-Bornen: Hann hafe þier ſært med ydar Syndum, og auked hønum Mædu med ydar Misgiordum: Þad er hann, hvers Foorn i ydar Hollde offrud er, ſem ad þvijngar mijn Ydur til Myſkunar daglega, ſo eg hlijt ydur nadugur ad vera: Þad er hann, ſem Daglaatannlega bidur fyrer ydur, ad eg laate þad avaxtarlauſa Tre ſtanda enn eitt Ar, ad hann mege grafa i krijngum þad, og leggia þar Myke ad; Enn þier bered ſwr Vijn-Ber, og vilied ecke aflaata! Eg hefe ſleged ydur, enn þad hefur ei ſvided! Eg hefe fullkomnad ydur, enn þier vilied ecke Aganum taka! Þannig munde Gud til vor tala, ef vier mættum ſiaa hann og Lijfe halda; Enn þad vantar þo ecke: Allt hanns Ord, ſem er aa medal vor, þad er fullt af ſlijkre Kløgun, ſo vier þurfum ecke ad fara i Himeneñ upp, til ad leita ad hanns Vilia. So høfum vier nu þannig heyrt vors Endurlauſnara Utgaungu af Jeruſalem, og uñ þaa tvennſlags Hoopa, er hønum fylgdu.

Nu vilium vier framvegeſ yfirvega, hvad Kvalararner høfduſt ad i Aftøku-Stadnum; Þar uñ ſeger ſo i Textanum: **Þeir gaafu hønum Myrru-blandad Vijn, med Galle forblandad.** J Ordskv. B. 31. Cap. ſeger:

Gef-

Gefed sterkann Dryck þeim ed deya skal, og Vijn þeim Sorgfulla ad drecka, so hañ gleyme sinne Armædu, og minnest ei framar Eymdar sinnar. Enn til þessa syneſt ecke hafa ætlad vered af Kvølurunum; Þvi Textenn seger: Þeir gæfu hønum Myrru-blandad Vijn, med Galle forblandad. Margur hefur þar uñ talad, hvilijkur ad vered hafe Dryckur þesse; Enn varla er Efe æ þvi, ad hann hefur samboded annare Breitne þeirra vid Frelsarann. Hvilijk eru nu Oskop þesse? Þar hann, ecke einasta alla Noottena var hrakenn fræ einum Stad til annars, slegeñ, hædstrijktur og Þyrnum krijndur ad Morgne: Hinn þwnga Kross bar hañ æ Herdum sier: Hañs Svala Dryckur voru Hrækar Ogudlegra: Hanns Huggun og Fortolur, Bryxle og Hædungar gudlausra Skælka; Heldur og ofann æ allt þetta, bar hañ allra Manna, Vondra og Goodra, Trwadra og Vantrwadra, Smærre og Stærre, Nælægra og Fiarlægra, þad er, allrar Veraldarennar, eg sege, allra þeirra Synder, og allt þeirra Straff, so sem i einum Bagga bunded: Þad bar hann, so ad David klagar sarlega under hanns Personu: Ps. 22. Mijner Kraptar eru uppþornader sem onnur Skurm, og mijn Twnga loder vid minn Goom, þvi þu leggur mig i Daudañs Dupt. Miñ HErra JEsu! Ertu ei þetta, sem dryckiader Fedur þeirra af Hell-

Hellunne i Massa og Meriba? 2. Mos. B. 17. Þu sem endurnærder Sœler þeirra med sama Hætte, er þeir mogludu i Cades? 4. Mos. B. 20. Þu sem gafst Þrem Konungum Fullsælu Vatns i Edom Eydemørku wr Grøfunum? Ertu ei þad, sem dryckiar alla Rett-Trwada med Vellystinganna Straumum af Lijssins Brunne? Ps. 36. Þu sem Fedur þeirra hafder læted siwga Hunœng af Hellunne, og Oleum af hinum harda Klettenum, 5. Mos. B. 32. er ecke þijnum Munne Gall bored? Hann sem alla Hlute ber med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. hann fær eckert af øllu þvi, sem hann skapad hafde, til ad svala Hiarta sijnu: Sœ sem Vøtnen hefur wtþaned, hann fær ecke einn Vatns-Dropa, til ad kiæla Twngu sijna, þar hann kvaldest i þessum Loga, Luc. 16. Lijtum nu, christner Menn, til hinns rijka Vesælings, þar hañ pijnest i Helvijte og Kvølunum, hversu ad Elldurenn er hanns Twngu heitur, ad hann veinar epter einum Dropa Vatns af Lazari Fijngre; So myskunarlaus sem Abraham var vid hann, þar hann var fordæmdur, so litla Myskun feck nu Mannsins Sonur, þœ hañ bar Fordæmdra Synder. Þenna Kvalaña Þorsta œttum vier eilijflega ad þola, nema Christur hefde hann hier af oss teked, so vier i Stadenn þess, skyldum dryckiader verda af Guds Hwss Nægdar Giædum. Ps. 16. Taktu þenna

Bikar,

Bikar, seger Gud vid Jeremiam, þenna Bikar minnar brennande Heiptar, af minne Hende, og gef þar af ad drecka øllum þeim, er eg mun senda hann til. Jer. 25. Þessa Adryckiu hafde allt syndugt Holld forþenad af Guds Hende, þvi fyrer hønum er eingenn Manna rettlæt ur; Enn hinn Elskulegaste Guds mꜳ þad drecka, fyrer einn þverbrotenn Syndara. O Israel! Hvilijkann Avoxt hefur Guds Vijngardur bored hønum? Er ecke þetta einn Ville-Vijn-Vidur fyrer sætann, sem hanns Hønd plantad hafde? Es. 5. Er ecke þetta einn annarlegur Vijn-Vidur? Er ecke þetta so sem Høggorma og Drekanna Eitur? Er ecke þetta Vijn af Sodoma og Gomorra Akre? Jer. 2. 5. Mos. B. 32. Er ecke þetta hid Babyloniska Hoorunar Vijn, af hveriu Þioodernar drucknar eru? Og eru ei þetta þijnar Rꜳnglætingar, syndugur Madur, sem þu daglega inndreckur, so sem þurr Jørd inndreckur Vatn? Hefur þu ecke ollu þessu blandad vid hinn swra Dryck, sem midt i Kvalanna Bꜳle var þijnum Lausnara borenn? Þetta liet hann sier þocknast ad lijda, so ad ef sw Mann-Ræna kiæme einhvern Tijma ad þier, ad þig lꜳngade epter Gude, so sem Hiörtenn epter fersku Vatne, ad þu i hønum, sem er Lijfsins Brunnur, Joh. 6. hefder einn Svala-Dryck, so þig þyrste ecke ad Eilijfu. Þinna Rꜳnglætinga Korgur, og þær swlu

Dregg-

Dreggiar, sem Andskotenn hafde byrlad þier, þad verdur skeinkt a fyrer hann: So nær ad Synder þijnar kvelia þig, og þier tekur til ad lijda i Briooft af Offtækiu þeirra, so þig hwngrar og þyrster epter Rettlætenu; Ad hann þa dreipe a þig, i Aungvitum Ydrunar þiñar, med sijnu Bloode, af þeim Blessunar Kaleik, sem þier verdur i heilogu Altaresins Sacramente borenn. O minn HErra! fyrer þinn Sorgar-Dryck, hef eg einn Glede-Dryck hloted: Fyrer Guds Reide Kaleik, hefur þu skeinkt fullt a fyrer mig, i einum Vina-Bikar: Fyrer þiñ Kvala-Dryck, hefe eg einn Svala-Dryck fenged: Og fyrer Gall- og Myrru-blandad Vijn, sem þier var bored i Kvolenne, mun eg drecka nijtt Vijn med þier i Dijrdenne. Frelsarenn vilde ecke drecka þenna banvæna Dryck, ecke þad hann mælte sig undann Pijslunum, heldur ad hann kynne ad endast til ad drecka þann Kaleik ad fullu, er honum var ætladur af Fodurnum. Hann vilde ecke deyfa Twngu sijna med Eitrenu, so Munnurenn kynne ad bera Vitne um hanns Elsku i Hiartanu. Gydingar budu þad, kannskie i þeirre Meiningu, ad hann skylde ecke eyda Ordum til Vandlætes yfir þeim; Enn hann vilde ecke drecka, so hann hefde enn þa sijna Twngu Oskerdta, til ad bidia fyrer þeim; Hann hafde enn þa ecke heited Ræningianum Paradijs; Enn þa ecke giordt hina sijdurstu

Rad-

Raadstofun um̃ Moodur sijna; Hann hafde enn þaa ecke vitnad fyrer Heimenum, hversu hann var af Gude yfirgefenn, so Gud skylde einn ydrande Mann aldrei forlaata; Ecke hafde hann enn þaa sagdt oss, hversu miøg hañ þyrste epter Velferd vorre; Ecke yfirlyst Heimsens Endurlausn; Og enn þaa ecke faled Anda sinn i Hendur Fødursins, so hann kennde oss hina sijdurstu Andlaats Bæn. Allt þetta hafde DRottenn enn þaa Ogiordt, og fyrer þvi vilde hann ecke drecka.

Þetta gudlausa Nijdings-Verk framfoor i þeim Stad, er aa Ebresku kallast Golgatha, enn aa vora Twngu Hausa-Stadur, og var eitt miøg Ofrægt Plaatz, af Straffe Glæpa-Manna, sem þar voru lijflaatner. Christur geck uppaa Hausa-Skelia-Fialled, hvert ad laa einn ordugur Vegur, so hañ leyste oss fraa Helvijte, hvert ad liggur ein breid Gata til eilijfrar Glotunar: Hann wthellte sijnu Bloode i Ofrægum Stad, so hann helgade Jordena, sem fyrer Mannsins Illsku Saker bølvud var: Hañ lietst i Ohreinu Plaatze, so ad vier, hreiner og kvitter af øllum vorum Syndum, mættum inngaanga i þaa himnesku Jerusalem, hvar eckert saurugt maa innkomast. Openb. 22. Judar giørdu hanns Hws (sem var Bæna-Hws) ad Ræningia-Bæle; Enn JEsus giørde Ræningia-Bæled ad Guds-Hwse, þar hann, haangande

ande a Krossenum, offrade sialfum sier Gude til eins Sætleiks Ilms, fyrer Synder vorar, og so Bænum og audmiwkum Andvorpunum, med kroptugu Hroope og Taarum, til hanns, er hann frelsa kunne af Daudanum, Ebr. 5.

Framar seger Textenn: Ad þeir hafe krossfest hann i þeim Stad Golgatha. Faa eru þesse Ord, enn þo full af Krapte; Þvi af þeim hanger øll vor Velferd og Saaluhialp, sem Christur hefur oss a sijnum Krosse wtvegad. Krossfestingen var hinn smanarlegaste Daude, þvi seger so Moses: 5. Mos. B. 21. Sa hinn Uppheingde er ein Andstygd fyrer Gude. Og þad var so Ofrægt medal Heidingiaña, ad Cicero skrifar: Þad er Glæpur ad binda Romverskañ Borgara, Ogiørningur ad hwdstrijkia, Obboota-Verk ad drepa. Hvad skal eg þa kalla þad, ad krossfesta? Enn hier a urdu nockur Umskipte i Krossfestingu DRottenns: Fyrer Kvolurunum var þad sama, enn i Guds dijrdarfulla Auglite langtum odruvijse; Þvi JEsus, a Krossenum hangande, er fagur i Guds Augum, og eitt Forlijkunar-Offur fyrer vorar, og ecke ad eins fyrer vorar, heldur fyrer allrar Veraldarennar Synder. Og so vidurstyggelegt sem ad var þetta Straff, so var þad og sart og biturt ad lijda. Strijds-Mennerner, þeir Ogudlegu Kvalanna Þrælar, þeir standa hier til allrar Ohæfu bwner, i krijngum þad saklausa

lausa Guds Lamb: Þeir hrinda Krossenum af hanns Herdum: Þeir fremreida Piislar-Færen fyrer hanns Augum: Þeir slijta hans Klæde fraa hans bloodrisa Lijkama: Þeir wtþenia hanns blessadann Fadm, sem hann wtbreider allann Dagenn, til eins Ohlijdugs Foolks: Þeir stegla hanns Hendur og Fætur med Godd-unum a Tred, sijdann hanger allur hanns Lijkamans Þwnge a þremur Jaarn-Noglum. Siaaed nu Mannenn, christner Menn! Hier hanger hinn Blessade i Israel, so sem ein Bolvan mille Himens og Jardar; So þad Ord uppfyllteft, er hann talade fyrer Munn Davids: Ps. 22. Þeir hafa mijnar Hendur og Fætur i gegnum grafed; Ja, ein onnur Ritning, er hann sialfur talade, med sijnum eigenn Munne: Þaa eg verd fraa Jordunne upphafen, mun eg draga alla til mijn; Þetta talade hann, seger Johannes, teiknande med hverium Dauda hann deya munde. Joh. 12. Bölvadur vere sa, sem ecke heldur allt þad, sem skrifad stendur i Logmaals Bookenne, seger DRottenn Zebaoth, 5. Mos. B. 27. Þad giordum vier eingannvegenn, þvi vier geingum epter Hofdingia Veraldar þessarar, i Gyrndum vors Hollds, giorande þad sem voru Hollde og Hugrenningum þocknadest, og vorum af Naatturunne Reidennar Born, seger Paulus, Eph. 2. Þar fyrer hofdum vier, ecke einungis tijmanlegann

Gaalga

Gaalga forskuldad, helldur eilijflega ad steiglast á þeim hrædelega Kvalanna Gaalga, ecke med Galle og Edike ad dryckiast, helldur med Elldе og Brennesteine, ecke um̃ þriaar Stunder, helldur um̃ alla Eilijfd. Bølvadur vere sáa, sem hanger á Trenu, seger Logmaaled; Enn hvad seger Paall? Gal. 3. Christur hefur endurleyst oss af Logmaalsins Bølvan, orden̄ Bølvan fyrer vorar Saker; Þvi skrifad er: Bølvadur sie sáa, sem á Trenu hanger. Vier vorum Skulda-Þrælar almaattugs Guds, og sialfdæmder til ytstu Myrkra, þar til vier hefdum golded hinn sijdarsta Pening. Nær munde þad hafa getad skied af sialfum oss? Ecke um̃ alla Eilijfd. Enn Guds Sonur er stijgenn uppaa Tred, med þaa Handskriftena, sem á moote oss var, hana hefur hann á Krossen̄ neglt og burtteked, seger Paall, Col. 2. Og oss aptur eina Kvittun gefed, med sijnu eigen Bloode, ritada á Hiortu vor med Guds Fijngre, sem er heilagur Ande, hver ad er Pantur Arfleifdar vorrar, og ber Vitnesburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. Hun er þannveg lsaatande: Ad þar sie eingen Fordæming framar á þeim, sem eru i Christo JEsu, þeim sem ecke epter Holldenu, helldur epter Andanum gaanga. So hefur þu loked hinn sijdarsta Pening, minn HErra JEsu! Alla Sum̃una hefur þu golded, DRottne: Barabbas slapp, enn Christur er

uppa Svalgann heingdur: Þrællenn er kvittur, enn DRottenn er krossfestur.

Gef þu nu, JEsu minn, gef þu nu fyrer øll þau Hrygdar-Spor, er þu geckst fra Gabbatha til Golgatha, þa gef þad, DRottenn, ad nær vier eigum ad ganga, fra Golgatha til Gabbatha, þad er, fra Daudanum, fyrer þiñ hærsta Rett i Himnenum, ad þiñ blessade Kross-burdur sie oss þa fyrer Augum; So ad vier mættum fylgia þier Otrauder, i gegnum Dauðans Skugga, inn i eilijft Lioos, og þa himneſku Paradijs, hvar Gud er allt i øllu, og einginn Umskipte framar Lioossens og Myrkursens. Þad bænheyre goodur Gud, fyrer JESU Christi Skuld, AMEN.



# Siøtta Midvikudags Predikun i Føstu.

## Textenn.

Þa Striids-Mennerner høfdu krossfest JEsum, tooku þeir hañs Klædnad, og giordu a Fiogra Hluta Skipte, sierhverium Striids-

Manne

Manne einn Hlut, og vørpudu þar um̃ Hlutkieste, hver ad hann skylde hafa; Og þar med Kyrtelenn; Enn Kyrtellenn var eige saumadur, heldur fra ofannverdu allur prioonadur; Þa toludu þeir sijn a mille: Skiptum vær hønum eige i sundur, hlutunst heldur um̃, hvers han̄ skal vera; So ad Ritningen uppfyllteſt, hvad sagdt er fyrer Spamannenn, er seger: Þeir skiptu med sier Klædum mijnum, og a minn Kyrtel þa løgdu þeir Hlutkieste. Og þetta giørdu Strijds-Mennerner, og Foolked stood og horfde a. Og þeir sem gengu þar fram̃ hia, hæddu hann, skooku Høfud sijn, og søgdu: Svei! Hvernen̄ nidurbrijtur þu Mustered, og uppbygger þad aptur a þremur Døgum? Hialpa þu nu sialfum þier, ef þu ert Guds Sonur, og stijg nidur af Krossenum. Og Høfdingiarner spottudu hann med þeim. Lijka einnenn hæddu hann þeir ædstu Prestar sijn a medal, med Skriftlærdum og Olldungum, og søgdu: Odrum hefur hann hialpad, sialfum sier getur hann eige

hiálpad. Sie hañ Christur og Kongur Jsraels, þa stijge hann nu nidur af Krossenum, ad vier siaum, og meigum so trwa hönum. Hialpe hañ nu siálfum sier, ef hann er Christur hinn Utvalde Guds. Hann treyste Gude, hañ frelse hann nu, ef hann hefur Lyst til hañs, þviad hann sagde: Eg em Guds Son. Ad hönum hæddu og Strijds-Mennerner, geingu til hañs, og færdu hönum Edik, og sögdu: Ef þu ert Kongungur Gydinga, þa hiálpa þier siálfum. Lijka einneñ hæddu hann Ræningiarner, þeir med hönum voru krossester. Enn einn af þeim Spillvirkium, sem heingder voru, lastade hann, og sagde: Ef þu ert Christur, frelsa siálfann þig og ockur. Þa svarade hinn annar, straffade hann, og sagde: Og þu hræder ei heldur Gud, sem ert þo i eins Fordæmingu! Og ad sönnu sker ockur þetta rettelega, þviad vid medtökum hvad ockar Giörder voru verdar; Enn þesse hefur eckert Oskickañlegt giördt. Og hañ sagde til JEsu: DRottenn, minnstu mijn, þa þu

keimur i Rijke þitt. Og JEsus sagde til hanns: Sannlega sege eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradijs.

Enn þar stoodu vid Krossenn JEsu, Moeder hañs, og Moedur-Syster hañs, Maria Hwsfrw Cleophæ, og Maria Magdalena. Þa JEsus sa nu sijna Moodur, og þann Læresvein þar nær standande, er hann elskade, seger hañ til siñar Moodur: Kona, sia þu, þad er þinn Sonur. Epter þad seger hann til Læresveinsins: Sia, þad er þijn Mooder. Og upp fra þeirre Stundu took Læresveinnenn hana ad sier.

Og þad var nær uñ hina siettu Stund, ad Myrkur giørdest yfir allt Landed, allt nær til nijundu Stundar, og Soolen miste sitt Skyn. Og uñ nijundu Stund kallade JEsus hærre Roddu, og sagde: Eli, Eli, Lama Sabachthani; Hrad ed wtleggst: Gud miñ, Gud miñ, hvar fyrer forlietstu mig; Og nockrer af þeim, er þar stoodu hia, þa þeir heyrdu þad, søgdu þeir; Sia, hañ ka'lar a Eliam. Epter þad, þa JEsus visse ad allt var nu full-

fullkomnad, og ad Skriften yrde uppfylld, þa seger hann: Mig þyrster. Þar stood eitt Kier, fullt af Edike; Jafnsnart hlioop einn af þeim til, og took Niardarvøtt, og fyllte af Edike, og sette hañ ofann a einn Reyr-Legg, og gaf hønum ad drecka, og sagde: Lat vera, sia um hvert Elias kemur ad taka hann ofann. Enn adrer søgdu: Bijded, lated sia hvert Elias kemur ad hialpa hønum. Enn þa JEsus hafde Ediked til sijn teked, sagde hann: Þad er fullkomnad. Og JEsus kallade upp hærre Roddu i annad Sinn, og sagde: Fader! i þijnar Hendur fel eg [minn] Anda. Og er hann hafde þetta sagdt, ad hneigdu Hofde, uppgaf hann sinn Anda.

Og sia, ad Tialded Musteresins rifnade midt sundur i tvo Parta, fra ofannverdu allt nidur i gegnum, og Jørden skalf, og Biørgen klofnudu, og Grafernar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed sofnsu, og gengu epter hanns Upprisu wr Grefunum, og komu i hina heilogu

Borg,

Borg, og auglystust þar morgum. Eñ er Hundrads-Hofdingeñ, hvør þar stood gegnt, sa þad hvad þar skede, og ad hann kallade so, þa ed hann lietst, prijsade hañ Gud, og sagde: Ad vijsu hefur þetta einn rettlætur Madur vered, og Guds Sonur. Og þeir sem med honum voru ad vardveita JEsum, þa þeir sau Jardskiælftann, og þad hvad þar skede, urdu þeir miøg Otta-slegner, og søgdu: Sannlega var þesse Guds Sonur. Og allt Foolk, er þar var hiaa, og horfde a, sem þeir sau hvad þar skede, barde þad sier a Briost, og sneri i burt aptur. Enn aller hañs Kunningiar stoodu laangt fra. Þar voru og margar Konur, sem sau þar uppa aleingdar, medal hverra ad var, Maria Magdalena, og Maria hinns litla Jacobs, og Joses Mooder, og Salome, Mooder þeirra Zebedæi Sona, þær honum høfdu epter fylgt, þa hañ var i Galilæa, og þioonad honum, og margar adrar, hverjar med honum høfdu uppfared til Jerusalem wr Galilæa, og horfdu a þetta.

# Exordium.

Vill þu ecke frelsa Fangañ, sem til Dauda er dæmdur, og þann sem liggur vid Lijflaute, þar þu seger: Vier þeckium ecke þenna? Meinar þu ecke, ad hann sem ransakar Hiartad, hann merke þad, og hann sem tekur Vara a Saalu þinne, hann þecke þad? Mun hann ecke gialda hveriuni Manne epter Verkum sijnum, seger Salomon? Ordskv. B. 24. Ef ad hiñ rettlaute Gud, sem eiñ Mann hefur ødrum til Hiaalpar skapad, ef ad hann er so vandlaatur, vid þann, sem dregur sig i Hlie, þar hann mætte hiaalpa Løgræningnum, sem er adkomenn Dauda, ad hann vill merkia þad, og krefia þess af hans Hende; Hvad mun hann þa vilia giørt hafa vid þañ, sem hinn Saklausa heimter til Daudans? Um hveria hinn Vijse talar, i sinnar Bookar 2. Cap. a þennann Haatt: Vier vilium umkrijngia hinn Rettlaata, þvi hann er oss Oþarfur, og hann mootstendur Giørdum vorum, og bryxlar oss uñ Synder vorar, hann er giørdur til ad reka til Baka Hugsaner vorar, þad er oss þwngt ad sia hann, þviad hanns Lijferne er Olijkt ødrum, og hanns Veger liggia a adra Leid. Nu er Illmeñska þesse so mikel, ad varla ma Ohæfan stijga hærra upp: Enn þad eykur þo miklu a Straakskapenn, þegar nockur gledst af Oførum sijns Naunga, er hann siaalfur hefur spunned Togann til, og jafnvel þoott hann ætte fyrer Synder sijnar ad lijda: Þvi varla er nockurt so Staal-sleged Hiarta, ad ecke siae aumur a þeim, sem Hegningu sæter fyrer Afbrot sijn; Og hvad skal eg þa tala uñ þann, sem hlackar yfir þvi Raunglæte, sem yfir hinn Rettlaata gengur? Þetta maatte hann þo lijda af Ogudlegum Mønnum, sem er Jehova vort Rettlæte, Guds eingetenn Sonur, hvørn eingenn kunne ad straffa uñ nockra Synd.

Eg

Eg hefe ad nockrum fyrerfarande Midvikudøgum talad þar um̃, hvernig hann var spottadur af Biskups-Penurunum, illa utleikeñ i Þijng-Hwsenu af Strijds-Møñunum, hraktur a Vegenum, krossfestur i Aftøku-Stadnum; Enn nu vil eg ad sijdurstu þar um̃ tala: Hvilijka Smæn, Brykle, Kalls og Gudlastaner, ad hann vard ad heyra a Krossenum. Legg þu mier Mall i Munn, DRottenn, og um̃skier Eyru Varna þinna, so ad þetta Erende vel takest, fyrer þijns dijra Nafns Skulld, AMEN.

# Utleggingen.

Þinne sijdurstu Grein Pijslar-Søgu DRottenns, sem lesenn var af þessum H. Stad, feingum vier ad heyra, ad hann krossfestur var a millum tveggia Ræningia. Hann sem a millum Tveggia er settur, hann var fordum Daga mest metenn: Salome beidde DRottenn um̃, ad sijner Syner mættu sitia, einn a hægra Veg hønum, enn annar a vinstre, i hanns Rijke, hun meinte, þeir skyldu hønum nærster verda, ad allre Tign og Heidre; Enn hier var eingre Virdingu ad skipta, hier var ecke nema Skøm og Sneipa a Ferdum: Þeir hafa, an Efa, sett hann midt a millum Ræningianna, so sem hinn argasta Ræningia, hann sem þo galdt þad hann ecke rænte, hann sem ei hiellt fyrer Ran, edur stærde sig af þvi, ad hann Gude jafn var, heldur took a sig Mind eins Þioons, ordenn Monnum lijkur, hann er medal Obota-Manna reiknadur: Hann ed

skyn

skyn i Dijrdenne, midt a medal hinna tveggia Guddooms Persónaña, hønum velia þeir Plaatz millum tveggia Spillvirkia; Og so ad eg faere Sønnur a Maal mitt, ad þetta hafe vered giort til Smaanar hønum, þaa seger Textenn: Enn þeir sem fram̃ hiaa gengu, løstudu hann, og skooku Høfud sijn. Eckert leggia þeir til Raeningianna, hverju Ofraeger sem þeir voru; Hann alleina vard fyrer þessare Smaan, midt i Strijdenu vid Daudann, sem alleina hefur Daudann sigrad: Þeir løstudu hann alleina, hvern eingen̄ kunne fyrer nockra Synd ad lasta: Þeir skooku Høfud sijn, yfir hans Forsmaan og Hørmungu, hvern Englarner og Høfud-Englarner tilbidia. Þeir skooku Høfud sijn, seger i Textanum: Þad var Venia þeirra a stundum i Fyrndenne, sem aumkudu nockurn: Eg skylde og samsetia Raedu, og hrista Høfud mitt yfir ydur, sagde Job vid Vine sijna, Job. 16. Og um̃ þaa stendur, ad þeir hafe aused Molld yfir Høfud sijn, og huggad hann i øllum hans Mootgaange, Job. 2. Enn hier var eingen Huggun, eingen Myskun, heldur i stadenn þess, Lastmaele, Haad og Kieskne; Er þvi þetta ad skilia, so sem DRottenn sagde um̃ Zenacherib: Jomfrwen Zions Dootter haeder ad þier, og Jerusalems Dootter hun skekur Høfuded epter þier, 2. Kong.B. 19. Enn yfir hønum, sem þetta liet segia hinum stoorlaata Konunge, vegna

Fedra þeirra, hvers Engell ad drap a einne Noottu Hundrad Attatyger og Fim̃ Þusunder Manns i hanns Herbwdum, yfir honum skaka þeir nu Hofud sijn. Hier er framkomeñ Spaadoomur Davids, er hann seger under Personu Christi: Ps. 22. Aller þeir ed siaa mig, spotta mig og hrista med Hofdenu: Jaa, þeir saau mig, og skooku Hofud sijn, Ps. 109. Hverier voru nu ad Skemtan þessare? Þeir sem fram̃ hiaa gengu, seger Textenn: Almwgenn aan Efa, þeir ed wt voru gengner, til ad svala sier a Bloode hinns Rettlaata; Adur høfdu þeir hroopad: Krossfestu! Krossfestu hann! Hier vilia þeir siaa Vild sijna a honum, þvi David seger i þeirra Orda Stad: Vel! Vel! Vor Augu hafa sied þad, Ps. 35. HErra Gud! Varla er nockur Hlutur sorglegre ad hugsa um̃, enn Vanþacklæted i Heimenum. Eingenn er Efe a þvi, ad margur hefur vaded i þessum Vitstola Flocke, hvers Borgar-Menn, og jafnvel Vine og Naaunga ad JEsus læknad hefur; Þvi fyrer utañ øll þau Mystunar- og Krapta-Verk, sem upp eru teiknud af Gudspialla-Mønnunum, þaa seger Johannes: Ad JEsus häfe marga adra Hlute giørdt, hverier, ef aller sier i Lage ritast skyldu, þaa munde Heimurenn ecke taka þær Bækur, sem skrifast mættu; Og kuña Meñ ecke þad ad ætla, ad þetta Jll-Þijde hafe hlutlaust fared af hanns Mystunar-Verkum, þvi hann

hann geck i krijng, giorde gott og grædde alla þa, sem af imislegum Siwkdoomum haldner voru ; Enn þetta eru nu hanns Þacker, sem allt giorde vel, liet Daufa heyra, og Mallausa tala. Bregdstu þvi ei Okunnugur vid, Barn mitt, þoott Verolden legge þier illa i Þock: Guds Sonur feckst eckert um Smaan þessa, ecke gafst hann upp vid Endurlausnar-Verked hálf-bwed, þoott hañ mætte þetta heyra: Þu skallt og ecke heldur þreytast gott ad giora, hverníg sem þier er launad: Ætla ecke ad þier sie vandara um eñ honum: Hafe þeir Hwsboondann Beelzebub kallad, hvad munu þeir ecke giora vid hanns Heima-Menn? So sem Guds Sonur kom i Heimenn, til ad nidur-briota Diofulsins Verk, so er þad og Diofulsins Ydia, ad nidur-briota Guds Verk: Laat honum þad ecke takast, Guds Vinur, heldur fylg epter Lausnara þijnum, i þessu sem ollu odru: Allt hvad þu gott giorer, þad giorer ecke þu, heldur sw Guds Naad sem med þier er; So ad hann sem vanþackar þier, hann vanþackar ecke þier, heldur Gude, sem gaf þier bæde Viliann og Mattenn: Hanns er Rijked, Mattturenn og Dijrden; Þu ert alleina hanns Umbods-Madur: Laat þvi Diofulenn og hanns Born hafa Gaman af Vanþacklætenu; Sa Dagur mun koma, ad þeirra eigenn Þreck mun kastad-verda i Naser þeim, enn þu munt skyna eins og

Sool

Sool i Rijke þijns Fødurs.

Hvør eru nu Bryxlen framar? Svei, ertu hañ sem nidurbrautst Musstered, og bygg-der þad upp aptur á þrem Døgum? Aldrei hafde DRotteñ þad so talad, so hafde hañ sagdt: Brioote þier þetta Mustere, eñ eg mun þad á þridia Dege upp aptur reisa: Eñ hañ talade uñ Mustere sijns Lijkama, seger Johañes: Og so lángt var frá þvi, ad hañ meinte Jerusalems Mustere, ad hid gudlausa Keñevald, þeir vildu ecke taka Fals-Vottana fyrer gylda, sem þetta báru. Þañig er nu Almúgeñ, þegar hann tekur til ad henda Lijgena Munna á mille, (Eg fráskil alla rádvanda Meñ, sem leggia nockurt Hapt á Túngu sijna, þvi þad være ecke gott ad allur Jsrael skylde hafa beigt sijn Kne fyrer Baal,) þañig er hañ, seger eg, þegar nockrum Ohroodur er liooftad upp, jafnvel uñ gooda Meñ, sie þad satt edur loged, þad skal þo satt heita, og þikest sá goodu bættur, sem nockru getur vidauked. Þegar Túngan er upptendrud af Helvijte, seger Jacob, og upptendrar sijdañ alla þess Mañs Umgengne, sem hefur leigt hana Fiandanum, til ad spilla Virdingu Náunga sijns, og hañs goodu Mann-Orde: Eñ hvat fyrer mundu þeir nu bryxla DRottne helldst uñ Kyrkiuna? Mun ecke þess vegna, ad þeir hefdu meire Mætur á henne, eñ á Guds Bodordum? O! Hvérsu vel hefur þesse Diofulsiñs

fulſens Samkunda uppfyllt Mæling Fedra ſiña. Eru þad ei þeir, til hvorra Gud ſagde: Hafid ecke Trauſt ydar a faanijtum Hlutum, ſegiande: Guds Muſtere, Guds Muſtere er þetta, Jer. 7. heldur giøred ydar Vegu gooda, og dæmed rett a millum eins Mañs og añars? Skylduð þier ſtela, Meñ vega, ſveria rangleiga og færa Baal Foorner, og ſtanda þo fyrer mier i þeſſu Hwſe! Þetta giørdu Fedurner, eñ hvad giøra Nidiar þeirra? Muſtered giørdu þeir ad Ræningia Bæle; Eñ hid ſaña Guds Muſtere, i hveriu ad bioo øll hañs Fylling lijkamlega, þad feſtu þeir uppa Kroſſenn mille tveggia Ræningia; Þeir hrooſudu ſier af Løgmaalenu, eñ Barabba ſlepptu þeir, og JEſum kølludu þeir Dauda ſekañ. Nu þoott ad DRotteñ hefde talad þeſſe Ord, um Jeruſalems Muſtere, munde hønum nockud vera þad Omøgulegt, ſem alla Verøldena giørde a ſex Døgum? Var þad ecke hañ, er ſagde vid Fedur þeirra: Fared til mijns Stadar, ſem var i Schilo, hvar eg liet mitt Nafn fyrſt bwa, og ſiaed hvad eg giørde hønum, ſokum Illſku mijns Foolks Iſraels. Hvad var þad? DRotteñ! Þad, ad þu leiſder ad Saattmaals-Ørken, hver ed var Fulltrwe Iſraels Barna, ad hun yrde hinum Oumſkornu Philiſtæis ad Herfange, ſo ad hun kom ſijdañ aldrei meir i þañ ſama Stad. Eñ hvad ſeger nu DRotteñ um Salomons Muſtere ſkeñu ſijdar

i þeſs-

i þessum sama Capitula? Eg skal giora vid þetta Hws, sem epter mijnu Nafne er kallad, a hvert þier treysted, og vid þenna Stad, er eg gaf ydur og Fedrum ydar, so sem eg giørde vid Schilo. Mundu ei þesse DRottens Ord sannast, þegar Nebuchadnezar liet þad nidur ad Velle briota, enn took Foolked Herfange? Hvad munde þa nu vera i þessu sijdara Mustere, sem heldur kynne ad frelsa þad fra Olucķunne, heldur enn hid fyrra, nema sa Drottnarenn, sem Micheas um spaer, hvern þeir krossfestu, nema sa Hyrningar-Steinnenn, hverium þeir wt-kostudu? Alltijd er Diofullenn sialfsum sier lijkur i Vantrwarennar Børnum: Fedur þeirra vildu ecke trwa Spamonnunum, sem toludu til þeirra i Nafne DRottens; Þesser ei heldur Synenum, er Faderenn talade til þeirra fyrer hann, Ebr. 1. jafnvel þott hann segde þeim noogu skøruglega, ad þeirra Hws skylde þeim i Eyde laated verda, og ecke skylde i þvi Steinn yfir Steine vera. Lærum hier af, christner Menn, ad ei kollum vier þad fulla Guds Dijrdkun, ad virda hanns Hws og sækia þad, nema vier prijdum þad Guds Mustere, sem inne hia oss er, og heiter Hiarta vort, med christelegum Dygdum. Alla Virdingu a ad veita Guds Hwse, og øllum þeim Hlutum, er honum sier i Lage vidkoma. Þad heyre eg til Gilldes taled Hundrads-Hofdingianum, ad

hann uppbyggde Samkundu Gydinga; Enn hitt byriar ad giora, Born mijn, og þetta ecke epter ad skilia: Þvi hver hañ inngengur i Guds Hws, til ad heyra hanns Ord, og fører þvang-ad med sier Ovine Krossenns Christi, sem eru þær Synder, er hann ecke ydrast vill, edur og mætur ad driigia framvegis, hann saurgar þad, og er eingu betre enn þeir ed giordu Muster-ered ad Rœningia-Bœle.

Ef þu ert Guds Sonur, þa stijg ofann af Krossennm, segia Varmeñe þesse. Ecke er þess Von, ad Epled falle laangt fra Eikenne: Diofullenn hafde œdur sagdt, er hann freistade DRottenns: Ef þu ert Guds Sonur, þa fleig þier hier ofann af; Og hier œvarpa hañs Born hann med somu Ordum. O hversu fa-vijs er hoʒlegur Madur, ad skinia þad sem Anda DRottenns er! Þeir sogdu, minn HErra! Ef þu ert Guds Sonur, þa stijg ofann af Krossenum. Enn af þvi ad þu varst Guds Sonur, þa vilder þu ecke ofann stijga: Þu stoodst hier ad þvi Verke, sem var miklu meira, miklu guddoomlegra, enn ad stijga ofann af Gaalganum: Þu hafder genged a Hoolm vid hinn sterka Hervopnada, þu hafder teked hier Daudann, Helvijte og Diofulenn i Faang þier, þu vilder ecke af Hoolmenum ganga, fyrr enn Daudenn var i Sigur uppsvelgdur, Helvijtaña Port nidurbroten, og Hoggormsins Haus i sund-

ur-

urtrodenn, enn hann wtsnaradur. Hvad liett var þier, sem komst wr þeirra Hondum, er þeir villdu griipa þig, sem brautst þoa a Bak aptur med einu Orde, er þeir villdu griipa þig, hvad liett var þier ad stiiga ofann af Krossenum? Þu varst annad ad starfa, DRottenn minn, helldur enn ad leika fyrer Spie-Fuglum þessum, sem þier mundu þo ecke trwad hafa: So mørg Teikn og Stoormerke hafder þu giort hiaa þeim forgefenns: Þu gatst læted Ræningiann stiiga ofann af Krossenum, sem leid fyrer Synder siinar, auk helldur hiaalpad sialfum þier; Enn þad var Kraptaverked miklu meira, miklu meira Mysterunar-Verk, ad þu gafst honum, og øllum sannydrande Stoor-Syndurum, Paradiis og eiliifa Vist med þier i Riike Himnanna. Þier sie Lof, Priis og Æra, ad Eiliifu, Amen.

Þetta giørde nu Almwgenn sem fram hiaa geck; Høfdingiarner, hiner yppurstu Kennemenn, Phariseí, Olldungarner, og Skriftlærder hielldu einn Hoop, og spottudu hann siin a mille, seger Textenn. Hier kemur mier i Hug, þad sem Jeremias skrifar i sinnar Maala-Book-ar 5. Cap. Eg sagda, þesser hiner Umkomulausu breita faavijslega, þeir þeckia ecke Veg DRottenns, nie Rettinden Guds siins: Eg vil fara til Høfdingianna, og tala til þeirra, þvi þeir kunna Veg DRottens, og Rettinde Guds siins; Enn þeir høfdu allt eins Oked i sundurbrot-

broted, og Bonden slited. Hier vill þad nu eins heita, og a Jeremiæ Døgum. Þad er ecke trwlegt, ad Almwgenn munde hafa heimt JEsum under Lijflaat, nema ad Hofdingiarner hefdu eggiad þaa: Þviad allt Foolked hnie ad honum, og leinge vogudu þeir ecke ad leggia Hendur a hann þeirra vegna; Enn er þeir einusiñe høfdu flekad þaa, til ad bijta Høfuded af Skeñenne, þaa geck sa skynlause Mwgurenn afrañ i somu Blindne, allt til þeirrar Ohæfu, ad þeir spiødu DRottenn og løstudu, haangande a Krossenum, fyrer þeirra og allrar Veralldareñar Synder. Og er hier af audsært, hvilijk Drepsoott þad er i einu Lande, nær Ordadvander Meñ i Volldum sitia, þeir ed hverke Ottast Gud nie Mennena, so sem Christur seger epter hinum raangláta Doomara hiaa Lucam: Adrar Landplaagur svipta Moñunum i burtu, og so er þad wte med þaa, enn Raanglæted þad lætur bæde Bonda og Gooda fyrerfarast lifande: Bonda, ad sonnu af þvi, þad elur med þeim Strakskapenn, og hegner ei vondra Verka, allt þar til þeir koma under hiñ stoora Allsheriar Doom, hvar Urskurdureñ mun verda þesse: Vijked fraa mier aller þier ed Raanglæted ødsed; Eñ Gooda, sokum þess, ad þeir jafnann eru Ofrijke hinna og Asælne underorpner, so þad frañkemur, sem DRottenn klagar yfir hiaa Esaiam: Cap. 59. Sannleikurenn er i burtu vikenn, og hann er sneid-

sneider hiaa illu, hann giorer þad, ad hañ verdur skinlaus haldeñ; Jaa, i einu Orde ad segia: Hvilijkar Poddur eru nockurskonar Atu-Mein Landa og Lijda, eitt Net i Mispa, og ein Taal-Snara a Tabor, og, so sem DRottenn um Babylon talar, einn Meistare til ad fordiarfa.

Hvad segia nu þesser vijsu Meñ? Adra hefur hann frelsad, sialfann sig getur hañ ecke frelsad. Þesse Smaanar-Ord fara ei laangt fra Almugañs, so ad hverutveggiu mættu synast i einu Moote steypt ad vera, nema ad þeirra voru þess verre, sem þeir attu ad heita Menner meire, þar þeir bryxla honum uñ sijn guddoomleg Myskunar-Verk. Þetta eru Þacker þær, minn HErra, er þitt eiged Foolk galdt þier, fyrer þad, ad þu rakst wt Diofla, hreinsader Lijkþraa, uppvakter Dauda, læknader Blinda, reister Hallta a Fætur, og lietst Maallausa tala. Ef hann er Christur, saa Israels Konungur, stijge hann ofann af Krossenum, so vier siaaum þad, og truum honum. Þier Vitfyrringar, var ecke þvi uñ Christum spaad, ad hann skylde þesse Krapta-Verk giora, er strax voru upptalen? Medkenned þier ei hier, ad hañ hafe þau giordt? Enn nær var þvi spaad, ad hañ skylde stijga ofann af Krossenum? Þvi var um hann spaad, ad hañs Ascylde vidurstyggelegra verda eñ añarra Manna, ad hañ skylde Madke og ecke Manne lijkur verda,

þad var i Eyrormenum fyrermindad, sem Moses upphoof, ad hann skylde og a Tred upphafeñ verda. Allt þetta saau þier nu fyrer Augum ydrum; Mundud þier heldur trwad hafa, þoott hañ hefde stijged ofann af Krossenum, þar þier trwdud ecke ollu þessu? Og ecke miklu heldur sagdt hafa: Ad fyrer Beelzebub Diofla-Hofdingia være hann ofann stijgenn. Spaamennerner giordu Krapta-Verk, þo aflijfudu Fedur ydrer þaa; Eingenn af þeim giorde þo slijk Krapta-Verk, sem JEsus giorde, þo trwdud þier honum ecke: Þier Hræsnarar, sem uppbyggdud Leide Spaamannaña, og sogdud: Hefdum vier lifad a Dogum Fedra vorra, þaa vildum vier ei hafa vered Lags-Menn þeirra i Draape Spaamannanna; Enn Hertoga Lijfsins skomudust þier ydar ecke af Dogum ad raada.

Sialfum sier getur hann ecke hiaalpad, sogdu þeir, nær hañ yfirgefenn og hiaalparlaus giorde alla Verold hoolpna. Jaa HErra! Vijst gatst þu hiaalpad sialfum þier: Hver byrgde Soolena? Hver klauf Biorgen? Hver skook Jordena? Hver reif For-Tiald Musteresins i sundur, og upplauk Grofum Framlideña, nema þu, Frumburdur hinna Daudu? Ad vijsu gatst þu hiaalpad sialfum þier, HErra, þegar þu tookst sialfur aptur Saalu þijna, er þu hafder sialfur fraa þier laated, og reist sialfur upp, ad luktre Grofenne, og Steinenum O-

afvellt-

afvelltum. Enn þier vissud ecke þetta, þier Høfud-Prestar og Ølldungar: Eg læt þad satt vera, þvi þad vilde Brunnur Mysktunarennar ydur til Afbotunar duga læta hiæ Fødurnum, þæ þier kvolldud hann, ad þier vissud ei hrad þier giørdud; Enn siælfkopud voru Vitne þesse: Vissud þier hann hafde uppvaked Lazarum, sfomu ædur enn þetta skede: Þier sem alla Ritningarennar Bookstafe taled hofdud, læsud þier aldrei hiæ David, ad DRotteñ sie alleina sæ ed fræ Daudanum frelsar? Mættud þier ecke þæ vita, ad þesse Guds Sonur være, edur ad vissu Guds Kraptur i hønum? Edur nær vissud þier Beelzebub reisa nockurn fræ Daudum? Þvi hieldu þier þæ Rædstefnu um Christ, hvernig þier mættud hann af Døgum ræda, er hafde Lazarum uppvaked? Þier vissud þad ecke, sege eg; Þvi søgdud þier þæ vid Pilatum, ad hann hefde giørdt Ræd fyrer, ad rijsa upp epter þriæ Daga? Mætte ydur ecke til Hugar koma, ad hann, sem med einu Orde reiste hina Daudu æ Fætur, hañ munde og Gud kunna upp aptur ad vekia, ef hann ei siælfur gat? Vissud þier þad ecke, sege eg enn nu? Enn þegar þier vissud ad hañ upprisenn var, þvi keyptud þier af Strijds-Monnunum ad lwga þad, ad Læresveinarner hefdu stoled hanns Lijkama? Þvi giørdud þier Sendefør til allra ydar Safnada i Austur-Alfunne, sfomu epter hañs Himna-

Før, til ad styrkia Lijge þessa? Og hver munde ydur trwa, nema ydar eiged Nodru-Kyn, sem Raun gaf Vitne epter a, þegar Guds Rijke var fra ydur teked, og Heidingium gefed? Pad var lijklegt, ad Vardmennerner mundu aller sofed hafa! Pad var ecke Heimenum kunugt, hvad þad galdt ad sofa a Vakterne hia Romverium! Pad var ecke Otrwlegt, ad Læresveinarner, sem forlietu DRottenn aller, fra hann gripenn var, ad Petur, sem ecke stoodst ad horfa a eina Obreitta Amboatt, ad hann og þeir mundu voga sier i Hendur vopnadra Manna! Edur mundu þeir hafa Toom til ad leysa Lijk-Bonden, og fæa DRottenn wr Lijk-Blæunne, sem epter la i Grofenne? Pwngur hefur og sa Svefnenn vered, ad eingen af Strijds-Monnunum skylde vakna, nær Steinnenn var af-velltur, hver ed þo var nærsta mikell! Og er þesse hinn skelfelege, og þo rettvijse Doomur Guds, yfir Vantrwnne, og þeim, er Paulus kallar af sialfum sier Fordæmda, um hveria Stephanus sagde, under þad hann liet Lijf sitt, fyrer þenna Sannleika, ad þeir mootstædu jafnann H. Anda.

Hvad segia nu þesser vijsu og lærdu Menn frammveges? Hann hefur treyst Gude, hann frelse hann nu, ef hann hefur þocknan a hønum, þvi hann hefur sagdt: Eg em Guds Son. Hversu vel hefur Diofullenn lagdt þeim hier i Munn Spaadoom Davids um Christ, er hann

seger:

seger: Ps. 22. Hañ hefur varpad sier til Drottenns, hann frelse hann, hiaelpe hann honum, ef hann hefur Þocknan a honum. Munu ecke Vitringar þesser hafa oll Davids Ord gullvæg halded, og ad vijsu þeckt, ad hann talar þetta i Orda-Stad gudlausra Manna? Og þo brwka þeir sialfer þau vid hañ, sem þeir ecke kunnu ad straffa uñ nockra Synd. Hafde ecke Gud Þocknan a Esaia, og þo sogudu Fedur þeirra hann i sundur med Tre-Sog, edur a Zacharia Syne Barachiæ, hvern þeir dræpu mille Musteris og Altaris; Þvi munde og ecke Gud kunna ad hafa Þocknan a JEsu, þoott hann giæfe hann i Syndugra Hendur? Og var nu þetta rett, ad mana hinn sterka Gud til Hefndar yfir sier, vegna Sonar sijns, vegna hanns, i hverium hann hafde alla Velþocknan sijna? Og þo matte hinn guddoomlege Kiærleike meir þijna Velferd, syndugur Madur, heldur enn Blood þeirra, er kvoldu hañs eingetenn Son. Læt þetta drepa i þier Heiptræknennar Anda, þegar iller Menn offækia þig, jafnvel fyrer þaa Hlute, er þu byggst þeim til gooda ad giora, nær þeir hafa Ord hinns Vijsa i Munne, eins og Gydingar hofdu Davids, segiande: Hann læst hafa Vitsku DRottenns, og kallar sig Guds Barn; Ef hann er sannarlegt Guds Barn, þaa frelsar hann hañ wr Hondum sinna Mootstodu-Manna. Siertu nu Guds Barn,

þaa er þad stoor Æra, ad þu maatt slijkt þola, med þijnum Frelsara. Illmæle þesse og Brygle fyrer Sakleyse edur goodar Giørder, þau eru meira Hroos i Guds Eyrum, enn þoott øll Verølden i einu Hlioode lofade þig fyrer Goodverk þijn, þvi hanns Doomar eru ecke eins og Mannanna Doomar. Og i Sannleika, þad er Omøgulegt ad hañ trwe þvi, ad Guds Sonur hafe so miked lided fyrer sig, sem sagdt er, sem eingann Orett edur Vanþock lijda vill fyrer Rettlæteſins Saker, þvi hann metur Gud epter Smaamunum sijnum, og hanns Hugarfar epter sijnu Skape.

Þeir spottudu þig, HErra, i Þijng-Hwsenu, fiellu aa Knie, lutu þier, og søgdu: Heill vertu Konungur Gydinga; Þeir itreka þetta hier aptur, og segia: Ef þu ert Konungur Gydinga, þaa hiaalpa siaalfum þier. Þetta giørdu hiner heidnu Strijds-Meñ, þeir blindu Vesælingar, þeir vissu ecke af ødru enn Konungs Nafnenu ad segia; Enn munde þad banna Heidingianum, fyrstum allra þeirra er þar stoodu, ad jaata samstundis, ad þu Guds Sonur værer? Miñ HErra! Mun þad standa oss fyrer þvi, ad þu siert Heidingianna og þeirra Barna Konungur, so vel sem Abrahams Sona? Mun þad varna þier, ad vera Konungur ad Eilijfu, yfir Guds heilaga Fiall? Fyrst nu ad Gud hefur gefed þier heidnar Þiooder til

Arf-

Arfleifdar, þa vilium vier segia, vier sem hier liggium a Footskor Veraldarennar: Heill vertu Konungur Heidingia: Blessadur sie sa, sem kemur i Nafne DRottenns: Og fyrst þu hefur hiaalpad sialfum þier, og, ad uppleystum Daudans Fiotrum, ert setstur til Kraptarens hægre Handar, þa hiaalpa oss og so, DRottenn minn! Þoott þu siert af Heidingium a Krossenn hafenn, þa minnst þo Orda þinna, og drag alla til þijn, þu blessada Lamb Guds, so þar verde eitt Sauda-Hws, og einn Hyrder. Vier vilium og, sem i Fiarska erum, vier vilium hlaupa med þeim tiju Monnum, af hverre Þiood, er Zacharias um spaaer, og þrijfa i Klæda-Fald Gydingsins: J þinn Klæda-Fald vilium vier þrijfa, minn HErra! Ecke þann, er Heidingiarner skiptu med sier, heldur þann, er þu skrijddur ert a hægra Veg Gude Fodur, sem er vort Hold, og segia enn nu: Heill vertu Konungur Heidingia! Hosianna Syne Davids! Blessadur sie sa sem kemur i Nafne DRottenns! Hosianna i hærstum Hædum! Þier, med Fodur og heilegum Anda, sie Velde og Kraptur, Speke, Maattur og Dijrd, ad Eilijfu, A M E N.

Sie-



# Siøunda Midvikudags Predikun i Føstu.

## Textenn.

EN Gydingar, med þvi þad var Adfangadagurenn, so ad Lijkamarnir være ecki a Kroſſenum um̃ Sabbatz-Dagenn, (þvi ſa ſame Sabbatz-Dagur var mikell,) þa bædu þeir Pilatum, ad þeirra Bein brytuſt og ofaũtækeſt. Þa komu Striijdsmeñerner, og brutu ſundur Bein hiñs fyrſta, og ſo hiñs añars, ſem med hønum voru kroſsfeſter. Eñ þa þeir komu til JEſum, og ſau, ad hañ var allareidu daueñ, þa brutu þeir eige hanns Bein; Heldur opnade einn af Striijds-Moñunum hañs Siijdu med Spicote, og ſtrax þa rañ wt Blood og Vatn. Og ſa er þad hefur ſied, ber þar Vitne uñ, og hañs Vitnesburdur

er

er sañur, og hañ same veit þad, ad hañ seger satt, so ad þier og so trwed. Þvi ad þetta er sked, so ad Ritningen uppsylldest: Eige skulud þier brioota nockud hanns Bein. Og enn aptur seger önnur Ritning: Þeir munu sia hañ i hvørn þeir stwngu.

Þar epter, þa ed Kvøld var komed, af þvi þad var Adfanngadagur, hvør ad er fyrer Sabbatz-Dageñ, kom nockur Madur rijkur af Borg Gydinga, Arimathia, Joseph ad Nafne, eiñ heidurlegur Raadherra, goodur Mañ og rettvijs, hvør eige hafde vered samþyckur þeirra Raadagiørd og Breitne, hvør ed og so var eiñ af Læresveinum JEsu, þo heimuglegur, fyrer Otta Saker vid Gydinga, sa er og vonade epter Guds Rijke; Hañ dyrfdest ad ganga iñ til Pilatum, og bad um̃, ad hañ mætte taka nidur Lijkamañ JEsu. Eñ Pilatus undradest, ad hañ være þegar lateñ, og kallade Hundrads Hofdingiañ, og spurde hañ ad, ef hañ være fyrer laungu andadur? Og er hañ var þess vijs orden af Hundrads Hofdingianum, leifde Pilatus

latus og skipade, ad Joseph skylde afhendast Lijkamen, og gaf hønum hann. Pa kom han, og took nidur Lijkamann JEsu, og han keypte ein Lijn-Dwk, og took vid Lijkamanum, og sveipade han i hreinu Lerepte. Par kom og Nicodemus, sa er fyrre kom um Noott til JEsu, færande samblandad Myrru Aloe, nær Hundrad Punda. Pa tooku þeir Lijkaman JEsu, og sveipudu han i Lijne, med dijrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greftra. En þar i þeim Stad, sem han var krossfestur, var Grasgardur, og i Grasgardenum var nij Grøf, i hvøria ad eingen hafde en vered lagdur, og Joseph lagde han i þessa sijna eigen nija Grøf, hveria han hafde wthogga læted i Steine, og vellte stookum Steine ad Grafar-Dyrunum, og geck i burt. Og þad var Adfanngadagur, og Sabbatzdaguren took til; Pangad løgdu þeir JEsum, fyrer saker Adfanngadagsins Gydinga, þviad sw Grøf var nærre. En þar var Maria Magdalena, og ønnur Maria Joses, og þær Konur, sem komnar voru med hønum

af

af Galilæa, fylgdu epter, sitiande gegnt yfir fra Grøfiñe, og skodudu Grøfina, sau til hvar, og hverneñ, hañs Lijkame var lagdur. Eñ þær sneru aptur, reidande til dijrmætar Jurter og Salve; Enn uñ Sabbatz-Dagenn voru þær kyrrar epter Løgmalenu.

Og añañ Dag, hañ sem epter Adfangadageñ er, søfnuduſt samañ þeir yppurstu Prestar og Pharisæi, asamt til Pilatum, og søgdu: Herra! Vær miñunst a þad, ad þesse Svikare sagde, þa er hañ lifde: Epter þria Daga mun eg upprijsa: Af þvi skipa þu, ad forvara Grøfina allt til hiñs þridia Dags, so ad eige kome hañs Læresveinar a Noottu, og stele hønum i burt, og sege Foolkenu ad hañ sie uppriſiñ fra Daudum, og verde hin seiñe Villan argare þeirre fyrre. Pilatus sagde til þeirra: Þar hafid þier Vardmeñena, fared, forvared sem þier hafid Vit a. Eñ þeir gengu i burt, og forvørudu Grøfina med Vardmøñunum, og iñsigludu Steineñ.

## Exordium.

AD græda Saar med Saare, er fáheyrt, ad særa þañ sem Mañ elskar, er Oheyrelegt. Hvør nuu elska añ-añ heitara eñ eiñ Brwdgume elskar sijna Brwde? JEsus er Brwdgume vorra Saalna: Eg vil, seger hañ, til siñar andlegrar Brwdur, Christneñar, trwlofa mig þier ad eilijfu, Os. 2. Verdugur var þvilijkur Brwdgume, ad hañ være elskadur af siñe Brwde, og ecke af heñe særdur; Eñ þo seger hañ, ad hun hafi sært sig, þar hañ talar med þessum Ordum til heñar, wt af Muñe Salomonis, segiande: Þu hefur sært mitt Hiarta, miin Syster, elskulega Brwdur; Þu hefur sært mitt Hiarta, Lofkv. 4. Tvisvarsiñum er þad i þessum Ordum itrekad, ad sw andlega Brwduren hafi sært sijns Brwdguma Hiarta: Og af þvi þetta er af hønum i tvær Reisur talad, merke eg þar af, ad JEsu Christi Hiarta hafi med tvøfølduSaare sært vered: Þad eina var Saar Elskuñar, um hvert hañ eigeñlega talar i þessum Ordum. Af þvi hañ elskade so heitt sijna andlega Brwdur, tilreiknar hañ heñe þad, ad hun hafi sært, edur so sem til Fanga teked (epter þvi sem sumer wtleggia) sitt Hiarta. Eins og þetta, vegna þeirrar Elsku, sem Brwduren hafde hast á hønum, hvør þo var eingeñ ad fyrrabragde, hefde sært hañs Hiarta, heldur hefur hañ siaalfur audsynt siñe Christne, þa stærstu, hrei nustu og hiartgroonustu Elskn. Þar fyrer seger hann, vegna Eymda siñar Brwdar, vegna heñar Olucku, vegna heñar yfirhangande Fortøpunar, sie sitt Hiarta sært, af siñe Elsku til heñar, og hañ giæte ecke þolad þad, ad hun skylde fyrerfarast, og þvi særde heñar Fortøpun sitt Hiarta, af þvi hañ elskade hana; Og med þessum Hætte hefur sw andlega Brwduren fyrst sært Hiarta JEsu Christi. Þad añad Hiarta-Saared JEsu Christi, var Saar Pijslareñar, sem af þvi fyrra Elskuñar Saare ordsakadest; Þviad søkum þess Herr-

añ vor JEsus Christus, hefur so heitt og hiartañlega elskad oss Meñena, sem hañ hefur wtvaled fyrer sijna Brwde, þar fyrer hefur hañ og eiñig lided Sløg, Saur og Beniar, a sijnum allra heilagasta Lijkama, i sinne Pijnu og sijnum saara Dauda, fyrer vorar Synder, med hvørium vier høfum sært hañ, Es. 53. Eñ fyrer utañ Saur Elskuñar, voru eiñeñ Pijslar-Sauren JEsu Christi tvøfold, edur med tveñu Moote: Fyrst hid ytra a Lijkamanum, so sem var hañs Hwdstrijking, Þyrnekrijning og Krossfesting. J añañ Maata, særdu Pijslar-Sauren hid iñra Saal og Samvitsku vors blessada Endurlausnara, þvi HErrañ vor JEsus Christur, leid ecke alleinasta þa wtvortes Kvøl og Pijnu a sijnu H. Holde, heldur og eiñeñ þa iñre Angist, Saur og Kvalningar Hiartans og Saalarennar. Uñ þesse innre Hiartans og Saalareñar Saur og Tilfiñingar Pijslaña, kvartade hañ harmþrwngeñ i Grasgardenum, þa hann byriade sijna Pijnu, segiande: Mijn Saal er hrygg allt i Daudañ, Matth. 26. einnenn under sitt Andlaat a Krossenum: Gud miñ! Gud miñ! Þvi hefur þu yfirgefed mig? Þad sijdarsta Saur, sem vor Endurlausnare leid i siñe Pijnu (þo hønum kyñe þad ecke til Kvala ad vera, med þvi hañ var andadur) var hanns Sijdu- og Hiarta-Saur: Eckert Saur hañs Lijkama geck nær hønum eñ þetta, þar hañs Hiarta var i gegnum stwnged. Eg vil fyrer mig, eg raadlegg þier og einnenn, þu christen Saala, ad vid leggium Saur vid Saur: Þegar Samvitskan særest af Syndunum, Hiartad af Freistingunum og af Diøflenum, sem þad opt med Knefum slær, leggium þa i Trwnne ockar særdu Hiortu vid þad særda JEsu Christi Hiarta, þa er lagdt Saur vid Saur, vor Synda-Saur vid blessud Lækníngs-Saur JEsu Christi; Þa er eg og efalaus uñ þad, ad vid verdum læknud, þviad bæde fyrer Hiarta-Saared JEsu, og allar hanns Beniar, verdum vier

 heil,

heilbrygder, Es. 53. Og med þvi þad siidarsta Saar, sem JEsus leid, geck næst hanns Hiarta, þa skylde þad og gaunga næst vorum Hiørtum. Og þvi vilium vier nu i þetta Siñ, allijta Siidu- og Hiarta-Saared JEsu Christi, i þessare siidurstu Predikun wt af hanns Pijnu; Og vilium vier athuga hier um tvær Smaa-Greiner: Sw fyrre hlioodar um sialft Siidu- og Hiarta-Saared Christi. Sw øñur um þad sem af þessu Saare wtrann. DRotteñ JEsu! sem lietst uppliwka þijnu Hiarta a Krossenum, uppliwktu þvi nu fyrer oss i Himnenum, og styrk oss til þessa vors Verks og Aforms, med Krafte heilags Anda, þijnu Nafne til Dijrdar, enn oss til Saaluhiaalpar, Amen.

# Utleggingen.

I Uppleseñe Pijningar-Historiu vors bless-ada Endurlausnara, verdur þess geted, ad Striids-Mennerner, epter Leife Pilati Lands-Doomara og Beidne Gydingaña, hafe i sundurbroted Bein þeirra tveggia Spillvirkia, sem med JEsu krossfester voru, uppa þad, ad þar med være flijtt þeirra Dauda, og Lijkam-arner] være ecke um Haatijdena a Krossenum, vegna Logmaalsins, i hveriu soddann var fyrer-boded, 5. Mos. B. 21. Eñ med þvi, ad HErr-añ vor JEsus Christur var þaa laatenn (a þeim Tijma hañ sialfur vilde, eñ ecke a þeirre Stun-du, sem hanns Fiandmenn meint hoffdu) þaa brutu þeir ecke hanns Bein. Þetta er an Efa af sierdeilis Guds asettu Raade fram-komed. HErrann JEsus Christur var þad

saña

saña Paaska-Lamb, hver med gamla Testamentesins Paaska-Lambe var i margann Maata fyrermindadur: Og so sem Paaska-Lambsins Bein maattu ecke briootast, so voru ecke heldur JEsu Bein broten. Ecke var Fyrermindan Paaska-Lambsins hiaa þeim Ogudlegu Gydingum, edur þeim heidnu Striids-Monnum, hverier eckert hofdu ad segia af Paaska-Lambenu, Ordsok til þess, ad JEsu Bein voru ecke broten, heldur sw, ad þeir saau hañ laateñ vera; Þvi hefde hañ þaa lifande vered, hefdu þeir ecke þyrmt honum, framar eñ Ræningiunum, sem med honum voru kroßfester. Hier var nu af Gude Takmarked sett Guds Ovinum. Nu hafde JEsus drucked wt þañ Piislaña Kaleik, sem hañs Fader hafde sett fyrer hann, sem hann sialfur auglyste under sitt Andlaat, segiande: Þad er fullkomnad. Og þar fyrer kunnu hañs Fiandmenn þar epter ecke i hinu miñsta ad giora honum nockra Pijnu. Guds Trwada, sem ad eru andleger Christi Limer, kann eckert Illt ad skie, medann þeir halda sig rettelega i sinne Stiett og Kallan, og framgaanga aa Vege Gudræknennar, utann hvad sialfur Gud, af sijnu aasettu Raade, skamtar, ad vid þaa skule framkoma. Hverke Diofull nie vondar Manneskiur, kunna aan Guds Vilia ad snerta eitt Haar aa voru Hofde. Allt hvad Gud hefur skeinkt aa fyrer oß, eigum vier og hlioótum af ad drecka, þar ad auke ecke eitt

Taar, meira edur minna. Gud setur fyrer eitt og sierhvert sitt Barn, strax sem þad er endurfædt, tvo Bikara, sa eine (epter þvi sem hver kann epter Andans Utdeilingu ad þola) er birladur med Beiskleika Krossens og Mootlætinganna: Hvern Dropa wr þessum Bikar eigum vier ad drecka, þar til hann er lokſins tæmdur, sem varla kann ad ſkie, fyrr en æ vorre Dauda-Stundu. Sa annar Bikarenn er fylltur af Sætleiks Dropum Guds Anda himneskrar Huggunar, a hverium hann svalar þeim Kross-þioadu, endurnærer þaa Harmþrwngnu, og lijfgar þa, sem daudvona liggia i Freistingunum, so ad ecke alleinasta verdur hier, þu christen Saala, sa lijkamlege Krossenn sætur og liettur, heldur og einnenn styrkest Saalen, og odlast andlega Hreyste af Guds Naad, sem er mættug, bæde i vorum lijkamlegum og andlegum Breiskleika, 2. Cor. 12. Þegar Gud, a sodd-ann Hatt, huggar og hresser sijna Trwada, verdur ecke eitt Bein broted, a þeim andlegu Christi Limum; Og sannast þad sem David seger Ps. 34. so um JEsum (sem hans andlega Lime) Hann forvarar øll hanns Bein, so ecke eitt af þeim i sundur brotnar. JEsu Bein voru ecke i sundur broten, enn þo var hann i sinne Pijnu sem annad Vatn wthelltur, og so aumkunarlegur ordenn, ad øll hanns Bein høfdu i sundurskilest, og tegast hvert fra ødru, Lid fra Lid,

Lid, Ps. 22. Samt mætta ecke hanns Bein brioetast epter hanns Dauda. Ecke Oliklegt ad gudlegur Vijsdoomur, fyrer utann ædur sagda Fyrermindan Paaska-Lambsins, hafe þar med viliad hafa til Vitundar gefed, ad lijka so sem Beinen, i hverium, epter Nætturunne, var foolgenn allur Lijkamans Styrkur, voru Obrotenn, so være og einnen hans innvortis Magt og Kraptur i Daudanum, ecke i hinn minnsta Mæta veiktur, so ad hann, midt i Daudanum, trad under sijna Fætur Diofulenn, Daudann og Helvijte.

Þad saau Vaktarar Krossens, þaa þeir brutu Bein Spillvirkianna, ad JEsus var andadur, hvers vegna þeir brutu ecke hanns Bein, sem ædur er sagdt; Samt geck fram einn Ogudlegur Strijdsmann, og rak eitt Spioot edur Lensu i gegnum hanns Sijdu og Hiarta. Af þessu, sem odru, sie eg satt ad vera þad Paulus seger: Ad Diofullenn sie kroptugur i Bornum Vantrwarennar. Hver munde stijra Hende þessa hreckvijsa Skelmers, nema siælfur Diofullenn, so sem hann stioornar i ollum Vondsku Verkum, hinum Vantrwudu? Hvad hrædeleg Grimd og einn Osvalannlegur Blood-Þorste var þad, sem þesse bolvada Manneskia hafde ad geyma i sijnu gudlausa Hiarta? Hann kunne ecke ad metta Gijrugleik sinnar Grimdar þar med, ad hann saa HErrann vorn JEsum alblooduganii og Benium hladenn fraa Hvirfle og allt til Ilia, og

med sundurborudum Hondum og Footum lideñ og andvana a Krossenum, heldur vilde hañ hier nu a auka, og lagde hañ i Sijduna med einu Spioote, hvert og eiñeñ geck iñ i JEsu Christi Hiarta. Tilgangur hañs hefur sa i þessu vissulega vered, ad sa Lijkamañs Partur, i hverium ad Lijfs-Onden hafde hvijlst, skylde ecke, heldur eñ adrer JEsu Limer, Osærdur epter skiliast. Nu þo ad þetta være sa stærste Orettur giordur, þeim andvana JEsu Christi Lijkama, þa skulum vier þo vita, ad þetta hefur ecke fyrer þad vonda Andskotañs Verkfære, an gudlegrar Tillatseme og Fyrerhyggiu, sked og frañkomed; Heldur var Sijda JEsu Christi særd og opnud:

Fyrst fyrer þa Ordsok, ad uppfylltest og frañkiæme Spadoomur og Fyrersogn Ritningareñar, þar so stendur: Þeir munu sia mig, hvern þeir hafa i gegnum stwnged, Zach: 12.

J annañ Maata var sw blessada JEsu Christi Sijda særd og i gegnum stwngen (epter gudlegre Tillatseme) uppa þad, vier mættum þar uñ i allann Maata fullvisser vera, ad hann sie sa sanne Messias og fyrerheitne Heimsins Endurlausnare; Þvi af þessu hanns Sijdu-Saare og Audkenningar-Merke, var hañs heilage Lijkame adgreindur fra odrum, og kuñe epter hañs Upprisu, ad þeckiast fra þeim, sem a Tijma hanns Dauda lifnudu, og epter hanns Upprisu wtgengu af Grofunum. Þegar hann, epter sij-

na Sigur-rijku Upprisu, opennberade sig fyrer Lærefveinunum, og stood i Mided hiaa þeim, og saa vantrwade Thomas maatte leggia sijna Hond i hañs Sijdu, þaa þeckte hann strax þar af, ad þad var sialfur HErrann, hroopade þvi upp i sonnum Trwarennar Styrkleika, og sagde: DRottenn minn og Gud miñ, Joh. 20.

Sw þridia Ordsok, fyrer hveria saa andvana JEsu Christi Lijkame, vard þeim Orette og Hardydge ad mæta, ad hañs Sijda og Hiarta var med einu Spioote opnad og i gegnum stwnged, voru vor Mannanna Synda-Giolld og Ranglæte. Vorer fyrstu Foreldrar, Adam og Eva, luktu sijn Hiortu fyrer gudlegre Befalningu, og hanns blessada Bodorde, enn opnudu þau fyrer Hoggormenum, i hverium Diofullenn til þeirra talade, þegar þau hlijddu Andskotanum framar enn Gude, og aatu i sig eilijfa Oliftan helvijtskrar Fordæmingar, af þvi forbodna Tre, sem lesa er i 1. Mos. B. 3. Vier, þeirra Nidiar og Afkomendur, verdum, sem Von er, i somu Sok fundner: Vier apturlykium optlega vor Hiortu fyrer Gude almaattugum, enn erum fwser ad opna þau og lwka þeim upp fyrer Dioflenum og Syndenne, so ad wt af Mannanna Hiortum framgaanga vondar Hugrenningar, Mord, Hoordoomar, Frillu-Lifnadur, Þioofnadur, Liwgvitnan, Lastaner, Matth. 15. Hvad opt og morgumsiñum apturlykur Mann-

eſkian ſitt Hiarta fyrer ſijnum Endurlauſnara, og hans bleſſada Naadar Orde, ſo ad ſiaalfum JEſu, ſem ſtendur fyrer Dyrunum og klappar uppaa, er wthyſt i mañlegum Hiortum! Hvad marger ſiñaſt þeir, ſem hverke lwka upp Hiartanu nie Hendenne, fyrer þeim voludu og naudþreyngdu JEſu Chriſti andlegum Limum og DRotteñs Þurfa-Monnum? Þar ſem Meñerner eiga ad hafa eitt kiotlegt, audmiwkt og ydrande Hiarta, þaa hafa þeir i þeſs Stad eitt Dumſkored og forherdt Stein-Hiarta: So ad i þeirra Hiarta bijr og bygger Oſdryckia og Ohooſſeme, ſem Nabals, 1. Sam. 25. Forherdſla, ſem Pharaonis, 2. Moſ. B. 7. Afgudadijrdkan, ſem Salomonis, 1. Kong. B. 11. Drambſeme, ſem Nebuchadnezar, Dan. 5. Toſra-Konſt, ſem Simonis Galdra-Manns, Poſt. G. B. 8. Hvad marger hafa þeir og ſundeſt, og finnaſt eñ nu i Verolldeñe, ſem helſtijnga og myrda ſinn ſaklauſann Broodur og Naunga, ſem Joab giorde vid Abner og Amaſa, 2. Sam. 3. og 20. Cap. Munne og Twngu þeirra, ſem bakmæla, forliwga og laſtyrda ſinn Naaunga, verdur af Guds Anda ſamlijkt vid Eitur, Sverd og ſkadſamlegt Mord-Vopn: Þeirra Munnur er klockare enn Smior (ſeger David) og hafa þo Strijd i Sinne: Þeirra Ord eru miwkare enn Vidſmior, og eru þo naken Sverd, Pſ. 55. Fyrer allar þeſſar Illſk-

ur

ur, og ädrar lꝏngtum fleire Otaldar, vard nu sꝏ andvana JEsu Christi Lijkame ꝏ Krossenum ad mæta þeim Orette, ad hanns blessada Sijda var opnud, og þar med hanns Hiarta i gegnum stwnged. So var hann þꝏ, bæde Lijfs og Lidenn, fyrer vorra Misgiorda Saker lemstradur, og fyrer vorra Synda Saker var hann særdur, Hegningen lꝏ ꝏ honum (ef eg mætte so tala) Lijfs og daudum, uppꝏ þad, ad vier Lijfs og dauder hefdum Fridenn, Es. 53.

Sw fiorda Ordsoken, fyrer hveria vor blessade Endurlausnare leid þad, ad hañs Sijda og Hiarta var opnad og i gegnum stwnged, er þesse: Ad vier, syndugar Manneskiur, mættum med vorre Sꝏlar Sioon og Trwar Augum, siꝏ og skoda hañs broodurlega Elsku, Myskun og Astar-Þel, sem hañ hefur til vor Mañanna. Upplwktu nu þar fyrer, þu christeñ Madur, þijnum Hugskots Augum, og athuga gaumgiæfilega hvad þad er, sem þier verdur i þeirre opnudu Book JEsu Christi blooduga Hiarta, synt og fyrer Siooner leidt. Þar sær þu sannlega ad siꝏ, ecke neitt svart Letur, med hveriu Bolvan Logmꝏlsins er skrifud hiꝏ Mose, 5. Mos. B. 28. Heldur sier þu þar med raudum Bookstefum skrifada, JEsu guddoomlega Astseme, Myskun og Kiærleika. Þar mꝏttu þesse Nꝏdar-Ord uppteiknud siꝏ og lesa: Þu ert miñ dijrmætur Son, mitt elskulegt Barn, þar fyrer

 sundur-

sundurbrotnar mitt Hiarta til þijn, so ad eg hlijt þier myskunsamur ad vera, Jer. 31. Item: Hvad skal eg giøra af þier? Skal eg vernda þig? Skal eg ecke med rettu giøra (eina) Adama af þier, og wtelykia þig? Enn mitt Hiarta er ødruvijse sinnad, mijn Myskunseme er so miøg brennheit, ad eg vil ecke snwa mier ad fordiarfa þig, Hos. 11. Þad blessada JEsu Christi Hiarta brann af Elskunne til vor Mannañа, og þess vegna vilde hann nu læta opna þad og upplwka þvi, so ad vor ængrædu og Syndum-þiædu Hiørtu, mættu af þeim glodande Astar Geislum og Kiærleiks Byrtu, sem þadann wtskyn og lioomar, uppbyrt, vermd og endurlijfgud verda. Hañs heilaga Hiarta er opnad, hañs Myskunar Ydur eru og open sett, og verda aldrei hiedann i fra apturlukt fyrer hanns Trwudum, nie nockrum Syndugum, sem Ydran giører. Þetta heilaga Hiarta Særed JEsu Christi, læknar og græder kroptuglega øll andleg, banvæn Svida og Synda Sar vors Hiarta, Sælar og Samvitsku. Hijngad til hafde vor blessade Endurlausnare vered særdur a ollum ødrum Lidum og Limum sijns H. Lijkama, so ad sa eine Partur hanns signada Holds, sem ad var siælft Hiartad i Briooſtenu, var til þessa Osterdt lated; Og uppa þad, hann kostade þvi einneñ til vorrar Endurlausnar, leid hann ad þad være nu opnad og i gegnum stwnged, so þadañ giæfs

est, eins sem af hinum ødrum hanns Lijkamans Limum, þad dijrmæta Lausnar Giald fyrer oss Syndarana, med hveriu hann keypte oss þaa eilijfu Saaluhiaalp hiaa sijnum himneska Fødur, sem ad var hanns eiged Hiarta-Blood, so ad þar var nu ecke epter i hans Hollde einn Blood-Drope, hverium hann hafde ecke wthellt oss Syndurunum til Endurlausnar. A medal þeirra i Athenu Borg, var saa Sidvane, ad uppmaala Elskuna edur Kiærleikann med einne Manns Mind, sem ad var med graatande Augum, og hafde eitt opnad Hiarta i sinne Hende, af hveriu Blood-Dropar nidurfiellu. I vidlijkan Maata virdest mier sw verulega Elska þess himneska Fødursins, hanns eingetenn Sonur, vor Endurlausnare JEsus, hafe vered aa Krossenum uppmaaladur: Hann haangde þar med graatande Augum og Asioonu: Hanns Hiarta var þar opnad, af hveriu ad Blooded wtrann og streymde, hvar med hann synde oss þaa heitu og hiartannlegu Elsku, sem hann hafde til vor Mannanna. Og med þvi (elskuleg Guds Born) ad vor elskurijke Endurlausnare hefur so opnad fyrer oss sijna Sijdu og Hiarta, og gefed oss so ad siaa og reyna sitt Kiærleiks-fulla Altar-Þel; Þaa gleymum ecke þessare hans Owtsegianlegre Elsku til vor: Endurminnunst hennar heldur aa þann Haatt, ad vier einnen af Elskunne til hans, opnum vor Hiortu fyrer honum, so þadan mege

wt-

wtbriootast sꝏ sauruge Blood. Vesse Syndarennar og Rꝏnglætesins, og wtausum af vorum Hiortum og Augum, þo vier getum ecke Blood-Straumum, þꝏ samt hreinum Vatns-Straumum vorra audmiwkra Ydrunar-Tꝏra, og grꝏtum af Hiarta vora Misgiorninga, med hverium vier høfum vered Ordsök til þess, ad Sijda og Hiarta Guds Sonar var sært og i gegnum stwnged. Sundur-rijfum nu vor Hiortu, enn ecke vor Klæde, og um̃skerum Hiortun vor fyrer Gude, so ad Forhwd þess gamla Adams meige i burtu kastast, og kappkostum ad elska vorn JEsum hier epter af øllu Hiarta, allre Sꝏl og øllum Kroptum. Voruskum og ad opna vor Hiortu fram̃vegis, fyrer Dioflenum, Synde nne edur Heimenum, so ad vier særum ecke uppꝏ nij, þad elskurijka Hiarta vors Lausnara og Sꝏlar-Brwdguma JEsu Christi, med þeim Ogudlegu, sem han̄ krossfesta ad niju, Ebr. 6. Skyldt er þad, ad vier giætum og jafnann ad þvi, ad þegar vier vorum Guds Oviner, Rom. 5. þꝏ kom HErrann vor JEsus Christus oss i Sꝏtt vid sinn himneska Fødur: Þꝏ vier, sem adrar tijndar og tapadar Sauda-Skepnur, soorum aller viller Vega, i þeirre vijdu Veraldarennar Audn og Eydemork, leitade JEsus oss upp, med þvi stærsta Erfide, og lagde oss sier ꝏ Herdar, under eins og han̄ bar sinn Pijsla-Þwnga og Kross vorra vegna, og hes-

hefur so, sem sa goode Hyrderenn, heimfært oss aptur til sijns himneska Fødurs, og þess retta Sauda=Hwss. Þetta kostade hann so mikels Erfides og Piinangar, ad hann sveittest Bloodenu, liet sitt Holld hwdstrijkia, sitt Hofud Þyrne-krijna, sijnar Hendur og Fætur i gegnum bora, og ad sijdurstu opna sitt andvana Hiarta a Krossenum, og hefur so sitt Lijf, og allt sitt Blood wtgefed, uppa þad, hann giære oss sialfan sig, og hreinsade oss af Syndunum, so ad vier, sem vorum andlega dauder, skyldum fyrer honum og hanns himneska Fødur, lifa eilijflega.

J fimta Maata, edur sw fimta Ordsoken, fyrer hveria vor blessade Endurlausnare leid þad, ad hanns Sijda og Hiarta være opnad, var þesse, ad vorar veiku og varnarlausu Saaler, skyldu meiga hafa i hans Sijdu = og Hiarta= Saare, einn hættulausan og Ohultan Grida-Stad og Heimkynne, fyrer Ogn og Araasum Diofulsens, og eitt sannarlegt Skiool og Hæle fyrer þeim hrædelegu Stormum Guds Grimdar Reide, og eina kroptuga Endurnæring i ollum vorum Freistingum og sierhvoriu þvi, sem Samvitskuna kan ad aastrijda. Med þessu sijnu Sijdu=og Hiarta=Saare hefur JEsus opnad oss Dyr Himnarijkes og eilijfs Lijfs, og ad vier skylldum a vorre sijdurstu Dauda Stundu, meiga med vorum Trwar Augum siaa

Himnana fyrer vorum Sælum upplokno, og hañ vorn Endurlausnara til hægre Handar siins himneska Fødurs, med sitt opnad Altar-Hiarta, og wtbreiddann Nadar-Fadm, reidubwenn til ad medtaka vorar Sæler, og ad vorer Liikamer, ad endudum siinum Hvijldar-Tijma i Grøfunum, skyldu hitta æ opnar Dyr eilijfs Lijfs, og med þeim forsiælu Jomfrwnum (Sælunum aptur samteingder) iñgañga i þa niju Jerusalem, og þañ himneska Brwdguma Sal, siins allra kiærasta Sælar-Brwdguma JEsu Christi, og bwa þar med hønum i Dendanlegum Fognude eilijflega.

Nu þar fyrer elskuleg Guds Børn, æ hvørium þeim Tijma, sem vier fiñum þad, ad vorar Sæler verda þvijngadar af Dioflenum, Astrijdu Freistingañа, edur þeim (sterka) Storme gudlegrar Reide, høfum þa i Miñe Sijdu og Hiarta Sæar vors Frelsara JEsu Christi, og flyum þangad i Trwñe, undañ þessum vorum Asookn-urum. Vor Endurlausnare avarpar æ þeñañ Hætt siina andlega Brwde, þad er eina og sierhvoria christeñs Mañs Sælu, fyrer Munn Salomonis, segiande: Lofkv. 2. O miin Dwfa i Biarg-Skorunum! J þessum Ordum bender siælfur JEsus oss, ad vier skulum, lijka sem adrar meinlausar, hoogværar og varnarlausar Dwfur, flya undañ þeim helvijtska Grip-Fugle Dioflenum, fyrer Reide-Stormum Drott-

enns,

enns, og i Hretvidre Hormungaña, i þær andlegu Biarg-Skorur siña Piijslar-Saara, þviad hañ sialfur er Hella Hialpræðesens, 1. Cor. 4. Þegar vier erum fyrer Trwna þangad komner, so erum vier hættulauser, og meigum þar aan allrar Hæskaseme Ohulter vera. Þar erum vier vardveitter i Fride. Leitum þar fyrer alltijd, i hvørre Hiartans og Saalareñar Astrijdu, iñ i þad blooduga Hiarta Saar vors Lausnara JEsu Christi, þar kañ oss ecke Dioful, ecke Synd, Daude nie Helviite ad granda, þviad ekkert er fordæmañlegt aa þeim, sem ad eru i Christo JEsu, Rom. 8. Þegar vier erum fyrer Trwna þangad iñkomner, meigum vier i Gladværd vors Hiarta undertaka med Postulanum Paale, seigande: Hver vill nu aasaka Guds Utvalda? Gud er hier sem rettlæter. Hvør er hañ sem fordæmer? Christur er hier sem daaeñ er, jaa, miklu helldur saa, sem upp aptur er vakeñ, hver ad er til hægre Handar Gude, og bidur fyrer oss, Rom. 8. Þegar vier hofum med sogdum Hætte teked oss Vistarveru i JEsu Christi Siijdu og Hiarta, er oss þar betra ad vera eñ Petre aa Fiallenu helga, Matth. 17. Þar þurfum vier ecke ad hrædast fyrer þeim siijdarsta Doome, edur ad seigia af Hrædslu til Biargaña: Falled yfer oss, og skyled oss, fyrer Auglite þess sem aa Soolnum situr, og fyrer Reide Lambsins, Opeñb. 6. Helldur

meig-

meigum vier þa med fagnande Hiarta uppheffia vor Hofud, þviad vor fullkomen Endurlausn, og Inngangur i eilijft Lijf, er oss þa vijs og fyrer Hondum, Luc. 21.

Epterfylger i þeirre sijdare Greineñe ad hugleida, hvad þad var, sem wtrann af þeirre opnudu Sijdu og Hiarta JEsu Christi a Krossenum: Sem ad var, so sem H. Ande seger fyrer Muñ Gudspialla-Mannsins Johannis, Blood og Vatn: Ecke samblandad Blood og Vatn, heldur Vatned sier i Lage og fyrer sig, og Blooded eiñeñ fyrer sig, sier i Lage: Fyrst Blooded, þar epter Vatned; Og þad ecke so sem driwpande i Dropatale, heldur floode þad þar wt, so sem af eiñe Vatns-Ras edur Uppsprettu Bruñe. Þeir sem þetta hafa halded epter rettu Natturunnar Edle sked vera, þeir skilia hverke Natturuñar Art nie Ritninguna rettelega; Þad hverttveggia er i gegn þeirre Meiningu, er Ritningen wtvijsar, og framsetur þad fyrer eitt Teikn og Stoorwerke, so ad Gudspialla-Mañenum Johanni hefur virdst Þørf vera til, ad hafa þar uñ þesse Uñmæle: Sa þad hefur sied, hañ ber þar Vitne uñ, og hañs Vitnesburdur er sañur, og sa same veit þad, ad hann seger satt, uppa þad þier trwed eiñeñ. So Otrwañlegt hefur hañ meint þad munde Mønnum synast, ad ef þad være ecke byggt uppa gudlegann Vitnesburd, og Spadoomurenn hefde þar uñ hloted ad uppfyllast, þa mundu allmarger hafa hneixlad sig þar a: Þvi so var JEsu Christi Holld tæmt af Bloodenu, af hveriu þad var wt-tappad, bæde i hans Blood-Sveita i Gras-Gardenum, i Hwdstrijkinguñe, i Þyrnekrijninguñe, og þegar hañs Hendur og Fætur voru i gegnum boradar a Krossenum, ad lijklegt matte þykia, ad þar være ecke meira Blood epter i hañs andvana Lijkama, miklu sijdur so miked Blood, ad þad

kyñe,

kyñe, sem eiñ Straumur, þadañ ad wtrenna. Eñ hier var eñ þa nockud añad under faled: Hañ hieldt epter i sijnu Hiarta bæde Bloode og Vatne, uppa þad, ad hann af þessu hverttveggiu endurskapade og giørde sier eina andlega Brwdur, sem ad er hañs Christne i Heime þessum; Þviad þetta hverttveggia, bæde Blood og Vatn, var ein auglioos og merkeleg Þijding uppa þau tvø Sacramenta, Skijrnareñar og Altaresins, og beggia Sacramentaña Kraptur enfaleñ og foolgeñ i Bloode og Forþenustu JEsu Christi: Vatned sem wtrañ, merker Skijrnena, Blooded þa H. Kvøldmaaltijd; Og hier fyrer vitnar hiñ H. Johannes uñ vorn Endurlausnara a þennañ Haatt, segiande: Þesse er sa sem kemur med Vatne og Bloode, eige alleinasta med Vatne, heldur med Vatne og Bloode, 1. Joh. 5. J Vatnenu aflar Gud sier Barna og Erfingia til Himnarijkes, þviad nema nockur verde endurfæddur af Vatne og H. Anda, kann hann ecke inn ad gaunga i Guds Rijke, Joh. 3. Med Bloodenu verdum vier fædder og forsorgader, þvi Blooded JEsu Christi er sannur Dryckur, og hanns Holld er søñ Fæda, Joh. 6. Þegar Gud almaattugur skapade vorum fyrsta Fødur Adam sijna Brwde, þa liet hann fastañ Svefn falla yfir Mannañ, og a medañ hañ svaf, byggde DRottenn Evu af hañs Sijdu, af einu hañs Rif-Beine, og strax sem Adam vaknade, talade hañ til heñar, og sagde: Hun er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, og med þvi hun er af Karlmañenum teken, skal hun Karliña kallast, 1. Mos. B. 2. Þegar sa añar Adam af Himne, HErrañ vor JEsus Christus, var sofnadur a Krossenum, þa var hañs andleg Brwdur (þad er hañs H. Christne) af hanns blessudu Sijdu endurskøpud, þviad þad Blood og Vatn, sem af JEsu Sijdu wtrañ, er þad retta Efne og Materia, af hverre Brwdur JESU Christi uppbyggest i þessum Heime. Sva ødladest sitt Nafn af Mañenum: Vor Endurlausn-

are JEsus, hañ hefur gefed sinne Brædur Nafn epter sialfs sijns Nafne: Hañ heiter Christur, hun Christine; Og þetta VegseindarNafn var heñe strax gefed, epter þad hañ var uppstijgenn til Himna. Hun nefnest og einneñ Holld af hañs Hollde, og Bein af hañs Beinum, Eph 5. JEsus er sw sætarsta Uppspretta Lijfsins, og hver hann dreckur af þessare Uppsprettu, hañ skal ei þyrsta eilijflega, Joh. 4. Hvernenn er hañs Hiarta so fullt af Elskuñe, ad hañ einneñ epter Daudañ lætur opna þad, og gefur so af sier Strauma Hugguunarennar? Þesse heilsusame Lijfsins Bruñur, sem opnadest a Kosssenum, hefur med mørgum Hlutum i þvi gamla Testamente vered fyrermindadur. Þegar Gud DRottenn giørde sin Fridar Sattmaala vid Noa og hañs Epterkomendur, sette hañ þañ fagra Regnboga i Skyen, og sagde hañ skylde vera þar eitt Obrygdañlegt Teikn sinar gudsdoomlegrar Naadar og Fridþægingar vid Mannkyned, 1.Mos.B. 9. Þesse hañs Fridar Boge hefur eiñ skiærañ Vatns-Lit, og so sem einn raudañ Farfa, lijka sem Purpure. Af JEsu Christi Hiarta og Sijdu-Saare wtlagade bæde Blood og Vatn, sem er þad allra vissasta Teikn og Merke gudlegrar Naadar, Fridþægingar og Forlijkunar, vid oss syndugar Mañeskiur. Þad er Meining sumra, ad þegar þad skedur, ad nockur verdur staddur under Regnboganum, ad hañ meige þa æskia sier þess sem hañ vill. Þessa Hiegooma Rædu læt eg vera i sijnu Gilde; Enn hitt veit eg, ad hverge erum vier-stadder betur, enn þar sem yfir oss wtrennur þad skiæra Vatn og rauda Blood af Sijdu JEsu; Og nær vier hølldum oss under þessum Fridar Boga, meigum vier Ofader æskia oss þess alls, sem oss mest umvardar, sem ad er gefens veitt Naad Guds himneska Fødurs, Rettlæte JEsu Christi, Huggun H. Anda og þad eilijfa Lijfed. Þad var ad sønu eitt miked Almættes Milde og Myskunar Verk lifanda Guds, ad þegar

Moses,

Moses, epter Guds Befalningu, sloo med siinum Staf a Steinen̄ i Horeb, þa wtflaut þadan̄ nooglegt Vatn, sem svalade Þorsta Israels Barna i Eydemørkenne: Enn langtum meira Myskunar Verk DRottens er þad, vid oss syndugar Manneskiur, ad þegar sa himneske Faderen̄ sloo sialfur Staf siinar Reide a Krossenum, a Hiarta siins elskulega Sonar, hver ad er ein andleg Hiaulpræd is Hella, 1.Cor. 10. þa wtflaut þadan̄ sa allra heilsusamaste og kroptugaste Svala-Brun̄ur, sem so gudlega styrker og endurliifgar allar þiaudar og Maudþyrstar christnen̄a Man̄a Saaler og Hiørtu, i Eydemørku Heims þessa, ad hann verdur þeim einn Oþverrande Brun̄ur himneskrar Huggunar, Fagnadar og Farsælldar, sem wtflytur til eiliifs Liifs. Hier um̄ hafde vor Endurlausnare i lifanda Liife talad, segiande: Hver han̄ dreckur af þvi Vatne, sem eg mun gefa, hann skal ecke þyrsta eiliiflega, Joh. 4. Vatned svalar þeim Þyrsta, burthreinsar Saurenden og slecker Elldenn: So svalar þad blessada Liiffsins Vatn, hvert ed wtrann af Hiarta-Saurenu JEsu Christi a Krossenum, þeim andlega Þorsta vorra Saalna: Þad afþvær vor Synda Saurende: Þad slecker hid hrædelega Baal guddoomlegrar Grim̄dar Reide. Allt þad, sem med Bloode Foornan̄a og Adreisinganna var i gamla Testamentenu adur fyrermindad, þad fullkomnadest allt i Dauda og Piinu DRottens vors JEsu Christi, hveriu til Merkis wtran̄ af han̄s andvana Liikama bæde Blood og Vatn. Hvar fyrer wtran̄ Vatned? Hvar fyrer wtran̄ Blooded? Seger Lærefaderen̄ Ambrosius: Han̄ svarar hier sialfur til, segiande: Vatned, so þad hreinsade; Blooded, so þad endurleyste. Þvi af Siidun̄e heldur enn annerstadar? Þviad, seger han̄, ad hvadan̄ Søken kom, þadan̄ skylde og koma Naaden: Søken kom fyrer Kvin̄una, sem skøpud var af Siidu Man̄sins; En̄ Naaden kom af þeirre opnudu Siidu JEsu Christi. Af han̄s andudum

Liik-

Likama wtrann Lijfed til allra. O hvad furdaülegur er sa Dauде, sem þa Daudu lifande giörer! Hvad kañ hreinna ad vera, eñ Sijdu Vatned JEsu Christi? Hvad heilsusamara, enn hañs blessada Hiarta Blood? Lijfed er i Bloodenu, Vatned svalar og endurnærer; Og hier fyrer merker þad opt Huggun og Hugsvølun i Ritninguñe. So er nu bæde Lijfed og Huggunen af vorum Endurlausnara lijflaatnum til vor komen, og sem af þeim retta Lijfsins Bruñe frañruñen. Þesse blessade Brunnur, sem uppspratt af Sijdu og Hiarta JESU Christi, ma segia ad fyrermindast hafe fordum Daga, med þeim Brunne, vid hvern sa trwe Abrahams Þenare fann Jsaach Eigenn-Kvinnu, 1. Mos. B. 24. Og med þeim Brunne, hia hverium Jacob kysste sijna astkiæru Rachel, 1. Mos. B. 29. Þviad þetta mætte rettelega heita Fyrermindaner uppa þa andlegu Sameining JEsu Christi, vid hañs elskulega Brwdur Christnena. Þetta er Brunnur Hiaalpræðesins, uñ hvern Esaias talar, segiande: Þier munud med Fagnade Vatned uppausa wr Hiaalprædesins Bruñum, Cap. 12. Þetta er Bruñur þess lifanda Vatns, sem þeir vantrwudu Gydingar yfirgaafu, epter hverium øll Guds Barna Hiørtu kalla, so sem Hiørturenn kallar epter Vatns-Lækiunum, Ps. 42. Þetta er þad Vatned, er frañflytur af Helgedoome Hiarta-Ædaña JEsu Christi, hvert ed allt þad, sem þad snerter, læknar og lijfgar, Ezech. 42. Þetta er sa frij-opne Brunnurenn, fyrer Davids Hws, og alla Jnnbyggendur þeirrar andlegu Jerusalem, til ad af-þvo þeirra Synder og allann Ohreinleika, Zach. 13. Ad sonnu var þad (sem eg adur sagdt hefe) eitt yfirnaatturlegt Furdu-Verk, ad af þeim andada JEsu Christi Lijkama skylde Blooded wtreña; Þvi vitañlegt er, ad þa nockur deyr, hleypur Blooded samann, og storknar strax i Ædunum: Enn HErrañ vor JEsus Christus gefur af sier Blooded þeg-

ar hann var latenn, af Þvi hann er sa sanne Lijffins Brunnur, i hverium vier finnum bæde andlegt og eilijft Lijf, Þviad hann, bæde lifande og dauenn, er Upprisan og Lijfid, Joh. 11.

O Þu goode JEsu! Þu ert komenn med Vatne og Bloode, so ad Þu hreinsader oss synduga af vorum Ranglætingum. O! ad vier aldrei Þessa Hreinsun missum, og mættum alltijd af henne Þeckia Þijna Elsku, og i Trwnne fastlega halda oss vid Þig, bæde i Lijfe og Dauda. Vøkva Þu vor Hiørtu med Þijnum Lijffins Straumum, sem betre eru enn Þau Vøtn, er vøkvudu Aldengardenn Eden: Og lat Þitt Blood, sem betur talar enn Abels Blood, hroopa fyrer oss, Þijna Syndara, um Nad hia Þijnum himneska Fødur æfinnlega. Lat oss sa ad sia Þig i Upprisu alls Hollds, og i Auglysingu Þinnar Dijrdar, sem einn nadugann og mildann Frelsara, sem Þa tale til vor: Komed Þier blessader mijns Fødurs, og eignest Þad Rijke, sem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldarennar, Matth. 25.

Dijrd, Valld, Virding og Vegsemd hærst,
Vitska, Magt, Speke og Losgiørd stærst,
sie Þier, O JEsu HErra hær! og
Heidur klar, Amen, Amen,
um eilijf Ar.





# Nockur agiæt og wtvalen Vers, ordt af vissum Authoribus.

## I. Af Saal.

## Þorberge Þorsteins Syne.

Med Lag: Fader vor sem aa Himnum ert.

HJartad festa og Huga minn, HErra, skal eg, vid Krossenn þinn, og laata nockra Nagla þaa, nakenn sem ad þig giørdu þiaa, i gegnum Hiartad og Geded mitt, gaanga, fyrer Almætted þitt.

Epter þinn harda Dauda-Doom, dijrdarlegasta Himna-Bloom, eg tek vid þier alblooduguм, eins þu stilder vid Pilatum, i Hugleidingar Hiarta mijns, horfande fram til Andlaats þijns.

## II. Af Saal. Mag.

## Jone Þorkels Syne Widalin.

Med Lag: Þaa linner þesse Lijkhams Vist.

ÞEgar eg DRottens dijrstu Kvøl, dreg inn ad Hiarta mijnu, þaa hrygger mig þad harda Bøl, hann leid i sinne Pijnu, fyrer mig aumann Adams Son, sem aatte verstu Pijsla Von, saklaus aa Hollde sijnu.

Enn þad huggar mig aumann Mann, og aflar mestu Kiæte, ad eg veit frijdann Frelsarann, farenn i Himna Sæte, DRottenn uppvakte sialfur sig, Samvitsku Boot er þad fyrer mig, og eilijft Epterlæte.

III.

### III. Af Saal. Mag.

## Steine Jons Syne.

Med Lag: Einn HErra eg betst ætte.

O JEsu! Under Þijnar, eg lijt að hverre Tijd, Þær mykia Mædur mijnar, mitt allt Þær sesa Strijd, í Þeim Biargskorum betstu, betsta eg Verndan finn, og frá Fordæming verstu, frelsast so, DRottenn minn.

Daudann eg Ottast eige, eiliijft Lijf keypte mier, DRottenn að Dauda-Dege, DRottne nu life eg hier, mitt Lijf, i Dauda mijnum, mier vertu, JEsu kiær, frá Heliar hördum Pijnum, hiálpe ofs Nád Þijn skiær.

### IV. Af Saal. Hr.

## Halldore Brinjolfs Syne.

Med Lag: Fader vor sem á Himnum ert.

O GOtt Wijtes Bads ofbide mier, ef Bloods-Sveite ei JEsu hier, aftæke Þetta Ofbodid, og mier bodade Náð og Frid: Hans er Sálar-Hrygd, Sár, Blood, Pijn, Svolun, Hreinsun, Endurlausn mijn.

Allra sijdarsta Andvarp mitt, eins verde, JEsu minn, sem Þitt, eins medtekeð, og Önden mijn, upphafen so i Dijrd til Þijn: Heled Þá springer Hiartad mitt, Hiarta-Bloodeð Þad lijkse Þitt.

# Prent-Villur.

A Bladsijdu 71. Lijnu 19. lesest: mijnar. Bl. 101. L. 17. l. klæddu. A sömu Bl. L. 23. l. hvörium. Bl. 107. L. 1. l. wtslöckur. Bl. 123. L. 3. l. hluttakande. Bl. 130. L. 20. l. hann. Bl 143. L. 4. og 5. l. aldrei. Bl. 175. L. 28. l. Stoolnum.

Hafe fleira kunnad yfirsiast, vid Upplestur Bookarennar, er goodfws Lesare umbedenn ad lagfæra, og lesa i Mæled.



